100

# Framhald á Landnámssögu Nýja Íslands.



Arngjótur Bjornsson

Eftir

THORLEIF JACKSON

Prentsmiðja Columbia Press Limited
WINNIPEG
1923





Þorleifur Jóakimsson Jackson.

Minning mannanna lifir í hugsunum þeirra, orðum og verkum. Þannig er það um minning þess mæta manns, er þessa bók hefir ritað og aðrar tvær um landnám Vestur-Íslendinga. Ró og friður hvílir nú yfir moldum hans. En geislar frá sannleikselskandi sál og óeigingjarnri þjónustu í þarfir samferðamannanna lýsa frá lífi hans inn á brautir ókomins tíma.

J. J. B.

INNIHALD.

# FORMÁLI.

Með þessari þriðju landnámssögu minni er lokið landnámssögu bygðanna í Nýja Íslandi, sem fyrst hófst landnám í árin 1875 og 1876.

Þetta hefti inniheldur aðallega ágrip af æfisögu landnámsmanna, fyrst um uppruna þeirra og ætterni á Íslandi o. s. frv. Landnámssögur eru ófullkomnar, ef að eins er látið duga að hafa nafnaskrá yfir landnema og frá hvaða bæ þeir voru á Íslandi, og víst er það, að landnámsþættir Íslendingabygða vestan hafs, sem ritaðir hafa verið af ýmsum í seinni tíð, eru mikið fullkomnari hvað snertir sögu landnema, en þeir þættir, sem fyrst voru ritaðir.

Sem kunnugt er, flutti meiri hluti frumbyggja Nýja Íslands í burtu þaðan. En landnámsjarðirnar bygðust fljótlega aftur af nýjum innflytjendum. Um það eru skiftar skoðanir, hvor er landnámsmaður, frumbygginn (brautryðjandinn) eða sá, sem síðar kom og yrkti jörðina og náði eignarrétti á henni. Að mínu áliti eru báðir landnámsmenn, og því hefi eg getið beggja, þar sem þess hefir verið kostur. Einhverjir landnámsmenn hafa orðið eftir hjá mér norðast í Víðirnesbygðinni og þyrfti að gera umbót á því síðar.

Sumir álíta, að landnámssaga Íslendinga í Vesturheimi eigi sem mest að líkjast landnámssögu Íslands. Því er eg samþykkur að því leyti, sem það er hægt, og víst er það, að landnámssaga Nýja Íslands líkist meira landnámssögu Íslands, en sögur hinna Íslendingabygðanna í Vesturheimi, af því að landnámsjarðirnar í Nýja Íslandi heita íslenzkum nöfnum. Og ýmislegt, svo sem landslag, náttúrufegurð og veðurhæð, kom sumum landnemum til að velja heimilum sínum sérkennileg íslenzk nöfn, líkt og átti sér stað á landnámstíð Íslands.

Mörg æfintýri, sem komu fyrir íslenzka landnema í Vesturheimi meðan þeir voru að ryðja sér braut, álít eg að auki gildi landnámsþátta, séu þau færð þar í letur. En æfintýri lík þeim gátu ekki komið fyrir landnámsmenn Íslands. Eins er það með málið á landnámsþáttunum, það

getur ekki að öllu leyti verið stælt eftir málinu á landnámssögu Íslands, því mál breytist á styttri tíma en liðinn er síðan landnámssaga Íslands var rituð.

Eg get þess, að í ættarskýrslum austfirzkra landnámsmanna hefir leiðbeint mér séra Einar Jónsson prófastur á Hofi í Vopnafirði. Við kyntumst, þegar við vorum ungir, og gerðist innileg vinátta með okkur, sem ekki gleymist, hvorugum okkar.

Því miður eru villur í landnámsþáttum Íslendinga vestan hafs, sem verða af vangá höfunda og þeirra, sem þeir (höfundarnir) fá heimildir hjá. Nú, þótt ekki sé fullkomið, hvort það er hjá mér eða öðrum, þó villurnar séu leiðréttar, eins og ef alt hefði verið rétt í fyrstunni, er þó betra en ógert að leiðrétta, einkum fyrir seinni tíma.

**Þorleifur Jóakimsson Jackson.**

## Viðauki við landnámssögu Mikleyjar.

**Hjálmar Hjálmarsson**, fæddur á Mýrum í Eyrarsveit í Snæfellsnessýslu 5. apríl 1841. Foreldrar hans voru Hjálmar Sveinsson og kona hans, Jóhanna Vigfúsdóttir; þau bjuggu nokkur ár á Mýrum, fluttu þaðan að Kirkjufelli í sömu sveit, og þaðan að Kóngsbakka í Helgafellssveit, og bjuggu þar lengi.

Hjálmar ólst upp hjá foreldrum sínum, til þess hann var 13 ára gamall, var eftir það hjá ýmsum, þar til hann árið 1869 giftist Jófríði Jósepsdóttur, bónda í Bergsholti í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu, Jónssonar bónda á Hrísum



*Hjálmar Hjálmarsson* og *Jófríður Jósepsdóttir.*

í Helgafellssveit og konu hans, Hólmfríðar Eyjólfsdóttur, systur séra Þorkels á Staðarstað á Ölduhrygg í Staðarsveit. Móðir Jófríðar, kona Jóseps í Bergsholti, hét Arndís Guðmundsdóttir.

Hjálmar, eftir að hann giftist, var tvö ár vinnumaður á Hofstöðum í Helgafellssveit, bjó þar einnig þrjú ár; flutti þangað árið 1876, vestur um haf til Mikleyjar, var kominn þangað 2. september. Hann var um veturinn í sambýli við Jóhann Straumfjörð og Egil Guðbrandsson, á landi því, er Jóhann nam fyrst suðaustan á eyjunni og nefndi Barkarstaði.

## Þriggja dægra útivist á Winnipeg-vatni.

Um miðjan desembermánuð, þegar Hjálmar var búinn að vera hálfann fjórða mánuð í Mikley, fór hann og með honum vinnumaður Jóhanns Straumfjörðs, er Magnús Magnússon hét, inn að Gimli, til að sækja ýmsar nauðsynjar. Á heimleið gistu þeir um nótt á Drunken tanganum, lögðu þaðan af stað í dögun, tóku stefnu til Mikleyjar. Námu staðar á miðri leið milli meginlandsins og eyjarinnar, til að fá sér bita af nesti sínu, höfðu ekkert etið áður en þeir lögðu af stað, veður var gott, hæg gola á suðvestan, en þegar þeir höfðu neytt matar, skall alt í einu á blind bilur með grimdar frost. Hvorki fyrr né síðar, kvaðst Hjálmar hafa verið úti í eins vondu veðri, og vest var, að þeir voru ekki vissir um veðurstöðuna, hvaðan hún var, giskuðu á, að hún mundi vera sú sama og var, þegar þeir stönsuðu; á suðvestan, og eftir því myndu þeir koma í land á suðurenda eyjarinnar. Af stað lögðu þeir samt, og héldu áfram, þar til hálfrökkvað var, þá stönsuðu þeir og álitu, að þeim væri ekki fært að stríða við veðrið lengur, sem var á hlið við þá, og þjáði mjög andlit þeirra, einkum gagnaugun. Afréðu þeir þá að skilja þarna eftir sleðan og breyta stefnunni, og halda undan veðrinu, héldu þannig áfram, þar til komið var fram yfir miðnætti. Ekki var hægt að búa sér til snjóskýli, af því ísinn var snjólaus.

Áfram héldu þeir þar til þeir komu að sprungu í ísnum, þar hafði myndast garður, og í skjóli við hann hafði fest svo mikill snjór, að þeir gátu búið sér til úr honum ofurlítið skýli, fóru inn í það og fengu sér bita. Hjálmar fór að reykja pípu sína, en hafði ekki lengi reykt, þegar hann kendi til köldu innvortis; fór hann þá út og lét upp í sig ísmola og kingdi, hafði með því úr sér kölduna.

Þeir voru í skýlinu nálægt því tvo klukkutíma, var þá birt upp og komið heiðskýrt veður og logn, en mikil frost harka. En nú voru ferðamennirnir í óvissu um hvar þeir væru staddir. Hjálmar var vanur ferðalögum á Íslandi, og ef hann var í vafa um hvar hann væri staddur, gerði hann sér að reglu, að átta sig á himintunglunum, tók hann nú það ráð, og fanst honum að þeir myndu hafa stefnt frá eyjunni í áttina austur fyrir vatn. Kom þeim nú saman að snúa til baka, og um kvöldið, um sólsetur, komu þeir að Skógarnesi. Sá bær er tveim mílum norðar en Barkar-

staðir voru, heimili þeirra. Á Skógarnesi bjó þá Sigvaldi Þorvaldsson og kona hans, Ingibjörg. Fengu ferðamennirnir hjá þeim góðar viðtökur, og voru hjá þeim um nóttina. Næsta dag voru þeir fluttir á sleða heim til sín. Sáu þeir þá álengdar sleða sinn, hérumbil tvær mílur austur af Barkarstöðum.

Báða hafði þá kalið á fótum. Hjálmar misti af sínum fótum um miðjar ristar, hérumbil helming, og Magnús eins mikið af öðrum sínum fæti. Eftir 6 vikur tók læknir, sem var á ferð austur yfir vatn, og kom við á eyjunni, það dauða af fótum þeirra félaga. Um vorið kom spilling í fótasár Hjálmars, af því kalda vatnið þraut, vildi þá svo vel til, að skozkur maður, er bjó á eyjunni, giftur íslenskri konu, gaf honum smyrsli, sem græddu sárið.

Tólfta maí, á afmælisdag konu sinnar, hún er fædd 12. maí 1851, byrjaði hann að fara úr rúminu. Hérumbil 3 ár vann hann á hnjánum. Hjálmar flutti frá Barkarstöðum suður að Borðeyri, en var þar ekki lengur en rúman mánuð. Flutti þaðan norður í Mylluvík, var þar um sumarið og vann við húsabyggingar hjá löndum sínum, þá um haustið (1877) nam hann land og flutti á það. Nefndi bæ sinn Fagurhól, sem nú er nefndur Hóll. Þar ruddi hann 6 ekrur og vann kona hans mikið að því að fella skóginn, en nábúarnir, í vinnuskiftum við Hjálmar, hjálpuðu til að bera saman viðinn og gera blettinn hreinan. Þar í sáði Hjálmar síðasta vorið, sem hann var á Fagurhóli, tveimur mælirum af höfrum. Akurinn var ekki vel undirbúinn til að framleiða korn, að eins rakað í burtu lausaruslið. Uppskeruna af öðrum mælirnum lét hann þroskast. Skar upp með borðhníf, þreskti með aðferð, sem þá var altítt að brúka, að berja úr hýðinu kornið. Fékk 30 mælira af höfrum, seldi þá til myllunnar, fyrir 85 cents mælirinn að meðal verði. Síðasta haustið sem hann var á Fagurhóli, var kartöplu uppskera hans 150 mælirar.

Í marzmánuði 1881, flutti Hjálmar til Winnipeg, leigði þar fyrst lághýsi (shanty), sem hann seinna keypti, á Rauðár-bakkanum, og misti það hús í flóði ári seinna, 1882.

Í Winnipeg bjó Hjálmar 9 ár, vann við smíðar á sumrum, við eldiviðarsögun á vetrum.

Árið 1890 flutti Hjálmar til Þingvallabygðarinnar; nam þar land norður af Churchbridge, og bjó þar 7 ár; seldi að þeim tíma liðnum landið með góðum byggingum fyrir 150 dollara; flutti til Saltcoats og var þar eitt ár. Í Russ-

ell, Manitoba, var hann 6 ár og 5 ár í Tantallon, Saskatchewan. Flutti þaðan aftur til Þingvallabygðarinnar, og var þar til þess, að þau hjónin, haustið 1921, 16 nóvember, fluttu til Gimli á Gamalmennaheimilið Betel.

Eftir að Hjálmar hætti búskap, vann hann við smíðar á hverju einasta sumri, þar til hann flutti til Betel.

Börn þeirra hjóna voru átta, 6 dóu á barns aldri; lifa tvær dætur: Ingveldur Anna, gift enskum manni, William Brown, búa í Winnipeg; og Elín Kristín gift enskum manni í Zeneta, Sask. Sonur Hjálmars sem hann átti áður en hann giftist, heitir Hjálmar Bjarni býr í Winnipeg, stundar þar trésmíði, kvæntur Sólborgu Jónsdóttur frá Hjarðarfelli í Miklaholtshreppi.

Hjálmar og kona hans bera vel ellina. Eg hygg, að gestum sem á Betel koma sé sem mér, sem rita þetta, ánægja af að tala við þau. Á þeim hjónum sannast það, sem Steingrímur skáld Thorsteinsson sagði: "Fögur sál er ávalt ung, undir silfurhærum."

**Jóhann Elíasson Straumfjörð.** Síðan eg ritaði ágrip af æfisögu þessa merka manns í landnámssögu Mikleyjar, hafa mér borist bendingar, sem eg vil birta, því eg hefi





*Jóhann Straumfjörð og Mrs. Kristbjörg Straumfjörð.*

ekki haft allar nauðsynlegar upplýsingar í byrjun. Það, sem eg skrifaði sýndi að Jóhann var einn með hinum allra merkustu og duglegustu íslenzku landnemum, að hann

barðist sem norræn hugdjörf hetja við óteljandi örðugleika, sem nútíðin getur tæplega skilið. Hann var meira en óbreyttur liðsmaður, var foringi og meðráðamaður sinnar sveitar í mörg ár, og við þann starfa alment vel kyntur. En það, sem eg vildi sérstaklega benda á með þessum viðbætir, og sem margir álykta að hafi verið það allra merkasta við hans æfistarf, voru hans miklu læknishæfileikar, sem hann æfði og iðkaði í meira en 25 ár. Í þá daga var það hinn allra stærsti örðugleiki, sem nýlendumenn höfðu við að stríða, vöntun á læknishjálp. Menn voru búsettir um og yfir 100 mílur frá járnbraut, og læknirar voguðu sér ekki út í þessar bygðir, bæði vegna vegleysu og svo líka vegna fátæktar nýlendumanna, því á þeim tíma var efnahagur ekki svo góður, að lækni yrði sæmilega launað.

Til að bæta úr þessari stóru þörf, fór hann að lesa og læra læknisfræði, hann notaði allar sínar frístundir til að lesa bæði gamlar og nýjar bækur, og fékk sér töluverðann meðalaforða, sérstaklega homaeopathic, og hann hélt stöðugt áfram að læra, þar til hann stóð framar mörgum prófgengnum læknir. Eftir að hann flutti til Grunnavatnsbygðar, var hann í kringum 10 ár, aðal læknir þeirrar bygðar, og eru ótaldar þær löngu og erfiðu ferðir, sem hann fór, í þarfir bygðarmanna, oft fyrir litla borgun, — ótaldar eru þær vökunætur, sem hann dvaldi hjá sjúklingum til að létta þeirra böl og þjáningar, sem þeir mundu með þakklæti minnast; undir líkum kringumstæðum mun engum hafa tekist betur að ávinna sér almenna tiltrú í þeim efnum.

**Ágúst Magnússon.** Hann er fæddur í Kothvammi á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, 25. október 1863. Foreldrar hans voru hjónin Magnús Magnússon og Margrét Jónsdóttir, bæði fædd og uppalin í Húnavatnssýslu.

Ágúst var uppalinn hjá frænda sínum, Jóni Árnasyni, er bjó á Illugastöðum á Vatnsnesi, þar til hann var 12 ára gamall. Næstu þrjú ár var hann hjá Jakob Bjarnasyni tengdasyni Jóns Árnasonar, fór svo aftur til fóstra síns, og var hjá honum þar til veturinn 1885, að hann fór til sjóróðra suður á Seltjarnarnes, til Guðmundar Einarssonar í Nesi, og var hjá honum tvo vetur og eina vorvertíð, en að sumrinu leitaði hann til æskustöðvanna. Árið 1886 tók hann undirbúningspróf í skrift og reikningi, og fékk leyfi

til að verða tekinn inn á búnaðarskóla næsta vor, og bauðst Jakob Bjarnason til að ábyrgjast allan kostnað.

Það sama vor, 1887, kom hinn illa þokkaði heimsskautabúi, og lagðist að Norðurlandi. Húnaflói allur varð þakinn hafís, og gróðurlaust varð langt fram á sumar. Breytti þá Ágúst áformi sínu með að fara á búnaðarskólann, og ásetti sér að verja öllum sínum kröftum til þess, að koma foreldrum sínum úr harðinda og hungursplássi, sem þá var víða á Norðurlandi, þangað sem æfikvöld þeirra



*Ágúst Magnússon, kona hans og yngsti sonur þeirra.*

kynni að verða sólskinsríkara, heldur en síðustu ár þeirra höfðu verið á hinu kalda og hrjóstuga, en þó kæra Vatnsnesi. Og til að ná því takmarki, var ferð byrjuð 24. ágúst 1887, frá Borðeyri á skipinu Camoence á leið til Vesturheims, þangað sem vonirnar höfðu vísað mörgum áður, — þangað, sem að blíða náttúrunnar og frjóvmagn jarðarinnar breytti í flestum tilfellum fátækt í sjálfstæði.

Þótt vonarljósið væri bjart, þótti samt sárt að skilja við æskustöðvarnar, þungar voru öldurnar norður Húnaflóa, vestur fyrir land og til Reykjavíkur; þaðan var hald-

ið til hafs, 28. ágúst, og annan dag septembermánaðar, var lending tekin í Granton, og farið með járnbraut til Glasgow, þaðan sem haldið var með gufuskipi Allan-línunnar, Grecian, næsta dag, og komið til hafnar í Quebec þann 13. sama mánaðar. Voru í þeirri ferð nálægt 300 Íslendingar.

Ágúst og Sveinn Bergmann Þorbergsson skildu við hópinn í Quebec, og réðu sig til vinnu hjá skozkum verzlunarstjóra, T. C. Rae, er verzlaði fyrir Hudsons flóafélagið norður af Ontario, nálægt Matawagamnegue, var í byrjun talað um tveggja mánaða tíma, og tvö pund sterling um mánuðinn í kaup fyrir hvern þeirra. En síðar reyndist margt öðruvísi en túlkað hafði verið, svo að ef sannleikurinn hefði allur verið sagður í byrjun, hefði hvorugur bundist þeim vistarböndum.

Ferðin frá Quebec til Matawagamnegue var breytileg, fyrst með járnbraut til Montreal; þar dvaldi Rae í tvo daga og eyddi þeim tíma til að skemta nýju vinnumönnum sínum, og aðra tvo daga var hann í Matawa. Íslendingarnir kunnu aðeins fáein orð í ensku; var þá farið að dreyma um alsnægtir og listisemdir, þegar járnbrautarlestin, sem þeir ferðuðust með stansaði í Matagame, þar sem nálægt 30 Indíánar heilsuðu Mr. Rae með beigingum og bugti. Með þeim hóp var þeim vísað að fara út í skógarrjóður og neyta þar kvöldverðar, samkvæmt Indíánasið. Reyndist þeim fyrsta máltíðin ekki ljúffeng, og svo var lagst til hvíldar, og hafði hver eina ábreiðu og eina eða fleiri skógargreinar fyrir kodda. Draumar voru breytilegir, og þegar lýsti af degi, var allur hópurinn látinn raða sér kringum lítinn eld, og morgunverður tekinn. Við hverja máltíð var búið til brauð, steikt flesk og hitað te. Tólf pund af hveiti, tvö pund af svínsflesk, og te eftir þörfum, var ætlað hverjum vinnumanni til hverrar viku, og engin önnur fæða í ferðalögum.

Eftir máltíð var gengið þangað sem skip og farangur félagsins var, voru það átta stórir barkar-bátar, og bar hver þeirra nálægt 30 hundruð pund og fjóra menn, var þeim stundum mokað áfram, stundum róið, og stundum siglt, þegar vindur var hagstæður, og leið lá eftir löngum vötnum, svo voru bátar og farangur borið millum vatna í 18 stöðum á þessari leið, og lengsti áfanginn var um 3 mílur, var þá hafður selflutningur, og farinn fjórðipartur úr mílu í senn, og hvíldust menn á því, að hlaupa við fót byrðarlausir aðra leið. Vegurinn lá mest í gegnum skóglendi, en

víða brunninn skógur og ógreitt yfirferðar. Reglan var, að hver maður bæri 200 pund (tvo hveitipoka) og stundum 260 pund (tvö kvartel af söltuðu fleski.

Þegar svona hafði verið ferðast í sjö daga, var lent við verzlunarstöð félagsins í Matawagamnegue, þar voru nokkrir sterkir og reisulegir bjálkakofar, þrjú íveruhús, kirkja (enska kirkjan, Church of England), stór verzlunarbúð og fjós fyrir 10 gripi.

Þegar vatnaferðum var hætt á haustin, var aðal vinnan að ferðast meðal Indíána og skifta vörum, voru þá vanalega tveir saman, gengu á snjóskóm og drógu flatsleða með áætlaðri þyngd, fyrir hvern 200 pund. Í þeim ferðum var altaf sofið undir beru lofti við elda hvað kalt sem veður var, aðeins ríkustu Indíánar áttu sér barkarkofa, allur fjöldinn með konur og börn, braut lim af trjánum og bjó til skýli vindmegin við eldana og óhætt mun að fullyrða að engir auðmenn lifandi við allsnægtir í skrautlegum höllum, hafa verið ánægðari, heldur en fjöldinn af þessum Indíánum, sem í sannleika áttu ekkert annað skýli en frosna limið, engann forða fyrir næstu daga, með eina lélega byssu, öxi og hníf, voru þeir eins ánægðir, eins bjartsýnir og djarfir eins og nokkrir auðmenn undir vernd mentunarinnar hafa nokkru sinni verið, að sönnu fljótir að reiðast og hefnigjarnir, en á sama tíma drenglundaðir og hjálparfúsir. Hið eina, sem virtist angra hina eldri og framsýnari, var óttinn fyrir því að Sakanass (hvítu mennirnir) héldu áfram að stela þeirra landi, og eyðileggja þeirra hjarðir.

Tveir mánuðir á ári, janúar og febrúar voru ákvarðaðir fyrir vinnumenn félagsins, þó ársmenn væru, til að fara á veiðar, var þeim talin sú veiði í kaupbætir, en urðu þó að selja félaginu. Höfðu þeir Ágúst og Bergmann nálægt 30 dollara hver í kaupbætir fyrir sína veiði.

Árið 1888 byrjuðu þeir að vinna í Matawagamnegue. Bergmann vildi þá fara að hætta og neitaði algjörlega að vera lengur, því hann væri kominn nær dauða en lífi, vegna harðrar vinnu og ónotalegs fæðis og þá sérstaklega vegna leiðinda, var honum þá tilkynt, að engar ferðir yrðu farnar til járnbrautar fyr en ísa leysti næsta vor, og mundi hann ekki geta farið einsamall á þriðja hundrað mílur í gegnum óbygðir, og hlyti hann því að bíða til næsta vors. Ágúst voru boðin 27 pund sterling um árið (135 dollarar) ef hann vildi vera, og þótti það á þeim tíma hátt kaup hjá

því félagi. Gaf hann kost á vistarráðningi, ef félagið lánaði honum 100 dollara, og var það sagt velkomið. Þá peninga sendi hann foreldrum sínum í janúarmánuði, og var þá takmarkinu náð, þó eftir væri að fella marga svitadropa og lifa margar leiðindastundir, sem aðallega byrjuðu fyrsta júní 1888, daginn sem Bergmann fór alfarinn frá Matawagamnegue, þeir félagar höfðu lifað saman marga erfiða stund, stundir er höfðu bundið þá sterkum vináttuböndum, og sá skilnaður var báðum þungur. Þá var Ágúst látinn vera heima, og lét Rae hann vinna með sér, og hann, sem oft hafði áður virst harðstjóri, breytti skapi sínu svo til batnaðar gagnvart Ágúst, að það er vafamál, hvort hann hefur eignast nokkurn trúrri vandalausann vin en Rae. Samt fagnaði Ágúst lausnardeginum í byrjun júní 1889, þegar barkarbáturinn bar hann að járnbrautarstöðinni í Mategame og farbréf var fengið á leið til Winnipeg. Varð mikill fagnaðarfundur, er þeir félagar hittust aftur, og endurnýjuðu vináttu sína í greiðasöluhúsi B. S. Lindals. Næst var járnbrautarvinna fyrir þá báða á Rauðárdalsbrautinni, nærri tvo mánuði og svo þreskingarvinna fyrir Ágúst í nánd við Brandon. Voru þá foreldrar hans og þrjú systkyni þangað komin og leið öllum vel.

Leið svo tíminn, að Ágúst vann járnbrautarvinnu, og bændavinnu, og um tíma við smíðar. Einnig sagði hann til nokkrum íslenzkum börnum um vetrar tímann, og árið 1891 fór hann í félag við mann, Jón Jónsson að nafni. Keyptu þeir Brandon Laundry (þvottahús), starfið og áhöldin fyrir 400 dollara; unnu saman við það verk rúmlega tvö ár, og höfðu allgóðann afgang kosnaði. Þá reis upp úr logni og blíðu ímynduð alda, svo ókyrrast fór sambúð skyldmenna, og sú bára bar Ágúst og foreldra hans til Nýja Íslands, í hina svokölluðu Ísafoldar-bygð; og ári síðar skolaði brimið einnig systkynum hans, Guðmundi og Rósu til Nýja Íslands; var það stór óhagur fyrir þau bæði, því þeim leið ágætlega vel í Brandon, mistu arðsama vinnu er þau höfðu haft hjá enskumælandi fólki, og töpuðu eigum, en miklir erfiðleikar biðu þeirra, eins og flestra, er land nema eignalausir, og svo kom hin virkilega alda 1895, þá alt undirendi flæddi í Ísafoldar-bygð og rak bygðarmenn á flótta.

Sumarið 1896 og 1897 vann Ágúst hjá fiskifélögum á Winnipeg-vatni. En á báðum vetrum á þeim, árum hafði hann heimili sitt í Engey, hjá Jóhanni Straumfjörð, og

fimta febrúar 1898, hafði lánið leitt hann að því takmarki, að eignast fyrir konu Ragnheiði, dóttur Jóhanns Straumfjörðs. Fluttu þau yfir á Mikley vorið 1899, þegar ljóshúsið var bygt á eyjunni, og var Ágúst vitavörður næstu 3 ár. Bjó hann þar með konu sinni ánægjusömu alsnægta lífi, þar til árið 1903, að þau fluttu til Grunnavatnsbygðar. Vegna veikinda konu hans, kusu þau að vera í grend við föður hennar, Jóhann Straumfjörð, er þangað var fluttur og stundaði mikið lækningar og hepnaðist ágætlega. Hafa þau lifað ánægjusömu lífi í þeirri bygð síðan. Þau hafa eignast fimm börn.. Mistu tvö stúlkubörn ung. Á lífi eru þrír efnilegir synir. Sá elsti, Agnar Rae 22 ára, stundar nám við háskóla í Winnipeg; sá næsti, Jóhann Magnús 17 ára, hefur lokið barnaskólanámi. Sá yngsti heitir Kristberg Margeir 12 ára gamall.

Síðan árið 1913, að Coldwell-sveit var mynduð, hefur Ágúst haldið skrifarastöðu, og haft gott kaup síðari árin, og á sama tíma stundað búskap. Efnahagur hans líkur og hjá öðrum bændum í þeirri bygð. Gestrísni og alúð mætir manni sem heimsækir þau hjón. Bæði eru vel greind og ágætum mannkostum gædd.

**Bessi Tómasson.** Hann var fæddur 15. desember 1834, dáinn 25. ágúst 1915. Bessi var albróðir Ásbjarnar föður Tómasar, Helga og Vilhjálms Ásbjarnarsonar er búa í



*Bessi Tómasson og kona hans.*

Mikley, sem áður hefur verið getið í Mikleyjar landnámssögu. En hálfbróðir Bessa (samfeðra) var Helgi Sigurður

Tómasson, er bjó á Reynistað í Mikley. Kona Bessa hét Járnbrá Benjamínsdóttir frá Grímsstöðum í Þistilfirði, dáin á Reynistað í Mikley 3. marz 1917.

Bessi og Járnbrá giftust árið 1858, og reistu þau bú á Grímstöðum í Þistilfirði, og bjuggu þar til þess að þau fluttu til Ameríku, árið 1887. Bessi nam land í Grunnavatns-bygðinni og bjó þar fáein ár. Færði sig þaðan, sem hann nam land fyrst, suður að norðvesturenda á Shoal Lakevatninu og tók þar heimilisréttarland, og bjó þar nokkur ár Flutti sig þaðan til Mikleyjar og keypti jörðina Ingólfsvík og bjó þar til þess árið 1911, að þau hjónin hættu að búa. Fengu eigur sínar í hendur bróðursona Bessa, Kristjáns og Gunnars á Reynistað. Fluttu að Reynistað til Kristjáns, og voru hjá honum til þess þau dóu.

Þeim hjónum varð ekki barna auðið, en tóku til fósturs 6 börn; 5 heima á Íslandi og eitt í Ameríku Helgi Ásbjarnarson, bróðurson Bessa, sem býr á Helgstöðum í Miklev, ólst upp hjá þeim.

Bessi og kona hans bjuggu góðu búi á Íslandi, voru gestrisin og létu ávalt gott af sér leiða.

Bessi var trúmaður, og trú hans sýndi sig í verkum hans. Hann var lengi í stjórn Mikleyjar-safnaðar og kona hans í djákna-nefndinni. Hún var merkiskona og samhent manni sínum í öllu. Þó ekki væri hún lærð yfirsetukona, hafði hún samt á höndum ljósmóðurstörf heima á Íslandi og hér í landi og tókst vel. En tók aldrei borgun fyrir. Ljós kærleikans skein bjart á heimili þeirra hjóna.

**Grímólfur Ólafsson,** fæddur á Brúarhrauni í Kolbeinsstaðahreppi í Hnappadalssýslu, 14. okóber 1826, dáinn 26. ágúst 1903. Faðir hans var Ólafur, bóndi fyrst á Brúarhrauni og síðar í Máfahlíð í Neshrepp í Snæfellsnessýslu. Faðir Ólafs var Bjarni Bogason, bóndi í Máfahlíð. Kona Ólafs og móðir Grímólfs hét Ingveldur Grímólfsdóttir, bónda á Brúarhrauni.

Grímólfur bjó á Íslandi síðast, þar sem hann ólst upp í Máfahlíð. Flutti þaðan vestur um haf til Mikleyjar 1893, nam land sem nefnt var Fagriskógur af manni er hafði numið það á fyrstu landnámsárunum. Grímólfur bjó þar 4 ár. Fékk skift um heimilisrétt á Fagraskógi og Hlíðar enda, flutti að Hlíðarenda og bó þar til þess hann lézt.

Grímólfur var tvíkvæntur. Fyrri kona hans hét Gróa

María Jónasdóttir, þau áttu þrjú börn, á lífi af þeim er Andrés Hjörleifur, bóndi í Hrappsey á Breiðafirði. Síðari kona hans heitir Steinunn Jónsdóttir, bónda í Glerárskógum í Hvammssveit í Dalasýslu, Árnasonar og konu hans Kristínar Jónsdóttur bónda í Glerárskógum, Sigurðssonar og konu hans, Sigríðar Daðadóttur. Steinunn var fædd 1. ágúst 1842, giftist Grímólfi 7. júlí 1866. Börn þeirra voru 6, fimm eru á lífi: Sólveig, ekkja eftir Jón Hoffmann, er bjó í Skógum í Mikley; Gróa María, gift hjérlendum manni í Winnipeg; Ólafur, býr vestur við haf; Jóhannes, býr á Jónsnesi í Mikley, kvæntur Guðrúnu Kristjánsdóttur, Hafliðasonar, og konu hans Kristjönu Sigurðardóttur; Hildur, gift hérlendum manni suður í Bandaríkjum.

**Talsími í Mikley.**

Framfarir til mikils hagnaðaf Mikleyjar-búum urðu síðasliðið ár, þann 16. febrúar 1922, er búið að leggja talsíma til eyjarinnar. Miðstöð símans er á Reynistað. Styrjöldin mikla, sem skall á árið 1914 olli því að verkið komst ekki fyr í framkvæmd.

**Viðauki við landnámssögu Árnesbygðar.**

**Einar Jónasson,** fæddur á Harrastöðum í Miðdölum í Dalasýslu, 6. janúar 1848. Faðir hans var Jónas bóndi á Harrastöðum, dáinn 1873, Jóhannesson bónda á Saurum í Laxárdal og konu hans Sigríðar Þorsteinsdóttur. Þorsteinn bjó á Ytri Þorsteinsstöðum í Laxádal, var vel gefinn maður, skáldmæltur vel. Kona Jónasar á Harrastöðum, móðir Einars, var Guðný Einarsdóttir bónda um nokkur ár á Kolstöðum í Miðdölum, bjó síðustu búskapar ár sín á Harrastöðum.

Bróðir Einars var Jóhannes á Jaðri í Fljótsbygð, dáinn 1904, en systir hans er Kristín, kona Jóseps Schram í Norðtungu í Geysirbygð.

Einar ólst upp hjá foreldrum sínum á Harrastöðum, var þar til þess hann fór til Ameríku árið 1874. Hann fór til Kinmount í Ontario, og dvaldi þar nokkrar vikur; þar var litla vinnur að fá, svo Einar fór suður í bygð og fékk vinnu hjá bændum skamt frá Lindsay, vann þar um veturinn, fór um vorið aftur til Kinnount; þá um vorið 30. maí, á fundi sem Íslendingar héldu til að ræða um nýlendu stofnun, voru

þeir Einar Jónasson, Sigtryggur Jónasson og hinn velkynti vinur íslendinga John Taylor kosnir til að fara vestur til Manitoba, til að velja nýlendusvæði. Þeir voru kostaðir af Canadastjórn til ferðarinnar. En tveir aðrir sem fóru frá Ontario þessa landaskoðunarferð, Skapti Arason og Kristján Jónsson, kostuðu sig sjálfir.

Að lokinni landkönnunarferðinni, sem áður hefur verið ritað um, fór Einar til baka með Taylor og Sigtryggi. Hinn síðar nefndi fór til íslands um haustið.

Einar fór með Taylor til Ontario, og til baka til Nýja íslands um haustið. Hann nam land sunnarlega í Árnesbygð, og nefndi Hvítanes, bygði þar hús vorið 1877, og flutti þangað um sumarið, bjó þar á þriðja ár. Eftir að hann fór þaðan, var hann um tíma í Mikley, og part úr ári á Unalandi í Fljótsbygð.

Á frumbyggjaárunum í Nýja-íslandi, kom sér vel að þar voru nokkrir bændur, sem stunduðu lækningar. Sá elsti þeirra, Bjarni Bjarnason frá Daðastöðum í Skagafirði, druknaði í Winnipeg-vatni 12. nóvember 1878, var Einar Jónason þá beðinn að taka til sín meðöl Bjarna og fara að stunda lækningar, varð hann við bón manna, tók að lesa lækningarbækur, þó lítinn tíma hefði til þess, stundaði lækningar eftir það, og lét það vel, til þess hann fyrir fáum árum síðan hætti.

Um sumarið 1881 í júní mánuði, flutti Einar frá Nýja-íslandi til Winnipeg, og þaðan í septembermánuði suður til Dakota, og var þar 7 ár, fyrst í Hallsonbygð á annað ár, og svo í Mountain-bygð, þar til hann árið 1888, flutti til Alberta, nam þar land og var í Alberta til þess árið 1892, að hann flutti til Kelowna í British Columbia; var þar að mestu leyti, til þess hann árið 1899, flutti aftur austur til sinna gömlu stöðva; var sestur að á Gimli í júnímánuði 1899, hefur síðan búið þar.

Árið 1877, giftist Einar Sigurbjörgu Bjarnadóttur frá Tungu á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu. Hún andaðist í Dakota árið 1883. Þau áttu dóttur er Guðný hér, sem dó sama ár og móðir hennar.

Einar giftist í annað sinn 25. okóber 1884, Jónínu Ingibjörgu Sigfúsdóttur, Ólafssonar, þau eiga 9 börn, Guðný Elín, gift enskum manni í Winnipeg; Einar Sigurjón, býr á Gimli, er sveitarskrifari í Gimli-sveit, kvæntur Önnu Margrétu Pétursdóttur Tergesons, kaupmanns á Gimli; Ólöf

Anna, gift Sigurði Gestssyni, Oddleifssonar, búa skamt frá Árborg; Ásta, gift enskum manni í Winnipeg; Jónas, Baldur Norman, bæjarráðsskrifari á Gimli; Florense, Edwin Ágúst, Jóhannes Kristinn.

Einar Jónasson er mjög merkur maður, hefur skýra dómsgreind um málefni sem hann talar um.

**Rögnvaldur Jónsson,** fæddur á Ingveldarstöðum á Reykjaströnd í Sauðárhreppi í Skagafjarðarsýslu 25 nóvember 1834, dáinn 17. júní 1922. Faðir hans var Jón Kristjánsson bóndi, fyrst á Ingveldarstöðum og síðar í Hólkoti (hjáleigu undan Ingveldarstöðum). Kristján faðir hans bjó líka á Ingveldarstöðum; var Ólafsson, Gíslasonar. Móðir Jóns, kona Kristjáns, hét Þuríður Rögnvaldsdóttir ættuð úr Eyjafirði. Móðir Rögnvaldar kona Jóns á Ingveld-



*Rögnvaldur Jónsson og Sigurlaug Guðmundsdóttir.*

arstöðum, hét Lilja Kristjánsdóttir, bónda á Steini í Sauðárhreppi og konu hans, Hólmfríðar Þorsteinsdóttur.

Rögnvaldur var hjá foreldrum sínum til þess hann var 29 ára gamall, þá dó faðir hans. Fór hann þá að búa með móður sinni í Hólkoti. Árið 1868, 17. júní giftist hann Sigurlaugu Guðmundsdóttur, bónda á Vatnskoti í Hegranesi og konu hans, Ingibjargar Sigurðardóttur. Sigurlaug var fædd 17. febrúar 1842, dáin 5. júlí 1916.

Rögnvaldur bjó eftir að hann giftist 8 ár í Hólkoti. Flutti þaðan árið 1876 vestur um haf til Nýja-Íslands, var fyrsta ár sitt þar í Sandvík, landi er Jón Gottvill Pálmason

nam sunnarlega í Árnes-bygð. Bygði þar hús 18 fet á lengd og 12 á breidd; var nýfluttur í það, þegar bólan kom, en ekki búinn að ganga frá gluggunum, svo heyvöndla varð að nota um tíma í stað glugga. Níu manns voru í húsinu um veturinn, þar af dó ein kona úr bólunni, Una kona Péturs Árnasonar, sambýlismann Rögnvaldar.

Rögnvaldur nam land mílu fyrir vestan Sandvík, og nefndi Hól, flutti þangað haustið 1877, bjó þar hálftannað ár. Flutti að Nýhaga vorið 1879, var þar tvö ár, flutti þaðan í marsmánuði 1881 til Winnipeg. Fór um sumarið suður til Dakota, nam land í Akra-bygð, fyrir norðan Tunguá, þó varð nú ekki af því hann flytti þangað. Seldi réttinn til landsins Lárusi Frímann úr Dalasýslu.

Rögnvaldur var þrjú og hálft ár í Winnipeg, flutti aftur til Nýja-Íslands árið 1884. Nam land syðst í Árnesbygð, er áður hafði numið Sigurður Jósúa Björnsson og nefnt Skipalæk. Rögnvaldur breytti nafninu og nefndi Mæri. Þar ruddi hann og hreinsaði um það 20 ekrur, bjó þar til ársins 1899. Fluttu þau hjón þá til Argyle til dóttur sinnar Lilju og manns hennar, Albert Oliver og dvöldu hjá þeim það sem eftir var æfinnar.

Börn þeirra hjóna tvö, Lilja, fædd 10. september 1869, gift Albert Jónssyni, Ólafssonar (Albert Oliver); Jón fæddur 13. maí 1871, býr í Winnipegosis, stundar þar tré- og járnsmíðar, kvæntur enskri konu.

Rögnvaldur og Sigurlaug voru mjög vinsæl hjón. Eg var í sama húsi og þau hér í Wiunipeg, árið 1881—1882. Minnist þeirra sem góðra vina. Bæði voru þau fús til að hjálpa þeim, sem bágt áttu. Sigurlaug hafði gott minni að svo var tók eg eftir, þegar við töluðum um Íslendingasögurnar, þær hafði hún lesið og hafði ánægju af að tala um þær.

## Landnám í Víðinesbygð.

Nokkrir af fyrstu frumbyggjum Nýja-Íslands, námu lönd í Víðinesbygð veturinn 1875—1876. Næsta haust og næsta vetur námu margir þar lönd. En þegar útflutningum er lokið, eru ekki eftir af frumbyggjunum, í bygðinni, nema Jóhann V. Jónsson á Bólstað, Þorsteinn Sigfússon í Hvammi, Kristján Kernesteð á Kjarna, Albert Þiðriksson á Steinstöðum og Benedikt Arason í Kjalvík. En

svo bygðust jarðirnar fljótlega aftur af nýjum innflytjendum.

## Nöfn bæja í Víðinesbygð,

sem nú er búið á af Íslendingum. Taldir að norðan, suður að Merkilæk:

Lundur, Kross, Birkines, Lón, Miklibær, Nýjibær, Hólmur, Dvergasteinn, Hjarðarhagi, Sóleyjaland, Fjón, Brekka, Akur, Vígur, Laufskáli, Engimýri, Grímsstaðir, Espihóll, Bólstaður, Fögruvellir, Melstaður, Bergsstaðir, Grund, Auðnar, Kélduland, Ölduland, Víðivellir, Breiðabólstaður, Víðines, Hvammur, Víðirás, Kjarni, Hvarf, Steinstaðir, Hólmur, Horn, Kjalvík, Hof, Húsavík, Skínandi, Vellir, Ás, Lundur, Hjarðarhagi.

## Landnámsmenn taldir og getið æfiatriða þeirra.

**Rafn Jónsson**, fæddur 1833, dáinn 5. marz 1904. Rafn var ættaður úr Hvammsveit í Dalasýslu; var bróðir séra Páls á Völlum í Svarfaðardal.

Rafn flutti frá Kirkjuhvammi í Kirkjuhvammshreppi í Húnavatnssýslu til Ameríku 1873; var tvö ár í Ontario; vann á sögunarmylnu í Parrysound á sumrin, en við skógarhögg á veturnar.

Rafn giftist í Parrysound árið 1874, Rósu Jónsdóttur. Hún var fædd í Kirkjuhvammi 13. janúar 1849. Faðir hennar, Jón Jónasson, var bóndi í Húnavatnssýslu, kona hans og móðir Rósu, hét Hólmfríður Teitsdóttir. Rósa og Guðmundur landlæknir Björnsson eru þrímenningar.

Rafn flutti til Nýja-Íslands haustið 1875, var á Gimli um veturinn. Nam þá land og nefndi Lund. Bygði þar hús, sem brann um vorið, skömmu áður en hann ætlaði að flytja í það.

Inni í húsinu brann hveitikorn, sem Rafn ætlaði að sá. Bæði höfðu hjónin lagst í skyrbjúgs-veikinni um veturinn, konan var ekki komin á fætur, þegar brann, en Rafn var á ferli með veikum burðum, báðir fætur hans bólgnir upp fyrir hné.

Óvænt atvik, sem snerti Rafn og konu hans, kom fyrir vorið 1876. Þau hjónin voru þá til heimilis í Nýhaga, hjá bræðrunum, Friðbirni og Þorláki Björnssonum frá Fornhaga. Kona norsks manns, er Lúnd hét, og fylgst hafði með Íslendingum frá Ontario til Nýja Íslands, ól

barn, fékk þá slag, og varð mállaus og máttlaus í annari hliðinni, var áður en hún ól barnið, veik af skyrbjúg. Maðurinn hafði kynst Rafni og konu hans í Ontario, svo í vandræðum sínum, þegar barnið fæddist, tók hann það og fór með það að Nýhaga, og lagði það í rúm hjá konu Rafns veikri. Barnið lifði til næsta hausts, þá dó það úr sumarveiki.

Rafn fór í vinnu, austur á járnbraut, eftir að honum var batnað. Þegar hann kom til baka, bygði hann sér á ný hús á landi sínu, og flutti þangað, en bjó þar ekki lengi. Eftir að hann fór þaðan , var hann í nokkur ár á Grund við Íslendingafljót hjá Jóhanni Briem, og 12 ár í Ísafoldar bygð. Nam þar land og nefndi Vatnsnes. Hann flutti úr Ísafoldarbygð suður að Gimli og dvaldi þar til þess hann lést. Kona hans lifir og er á Gamalmennahælinu Betel.

Börn Rafns og Rósu voru sjö, þrjú dáin, þau sem lifa eru: Pétur Friðhólm, býr í Glenboro, Man., stundar þar trésmíði, átti Jóhönnu Jóhannsdóttur Bjering; Þórdís Anna, kona Gísla Magnússonar trésmiðs á Gimli; Valdimar, býr á Gimli, hann var þrjú ár í herþjónustu, kona hans heitir Guðrún Guðmundína Sigurgeirsdóttir; Sigurlína, gift enskum manni austur í Ontario.

Rafn var velgefin maður, var skáldmæltur, en fór dult með þá gáfu, var góður trésmiður og lét alt verk vel í hendi.

**Eggert Gunnlaugsson,** fæddur í Baugaseli í Myrkársókn í Eyjafjarðarsýslu, 7. ágúst 1835, dáinn 14. janúar 1914. Móðurætt Eggerts, er mér ekki kunn. Gunnlaugur, faðir hans, var Gunnlaugsson, og bjó á Nýjabæ í Hörgárdal. Eggert og Gunnlaugur Magnússon, merkisbóndi er bjó á Hjartarstöðum í Eyðaþinghá og Bóndastöðum í Hjaltastaðaþinghá, voru bræðrasynir.

Á unga aldri fór Eggert austur í Múlasýslu og var þar á ýmsum stöðum í mörg ár. Hann sigldi til Kaupmannahafnar og lærði þar járnsmíði, og var tvö ár í Höfn. Árið 1872 gekk Eggert að eiga Rannveigu Rögnvaldsdóttur, bónda á Skíðastöðum í Litingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu, Þorvaldssonar. Kona Rögnvaldar og móðir Rannveigar, var Ingibjörg Guðmundsdóttir frá Mælifellsa, en móðir hennar hét Rannveig Skúladóttir frá Axlarhaga, systir Rannveigar, konu Eggerts, var María, kona Jóns læknis Jónassonar, frumbyggja á Skíðastöðum í Árnesbygð, sem áður hefur verið getið.

Eggert, eftir að hann giftist, bjó 4 ár í Húsey í Skagafjarðarsýslu. Flutti vestur um haf til Nýja-Íslands 1876, nam land og nefndi heimili sitt Miklabæ, bjó þar nærri 4 ár. Flutti til Norður Dakota árið 1880.

Á Miklabæ gerði Eggert miklar umbætur. Hús hans var eitt af þeim húsum, sem Dufferin lávarður dáðist að, fyrir hve vel þau voru bygð; enn sjást á Miklabæ menjar af verkum Eggerts.

Börn Eggerts og Rannveigar voru átta; á lífi fimm: Karl Vilhjálmur, fasteignasali í Minneapolis, kvæntur hérlendri konu; Jón, býr að Akra, N. Dak., kvæntur Magneu Halldórsdóttur Veivattssonar; Þórstínu, Sigríður, gift Guðmundi Sigurðssyni, bónda að Akra, N. Dak.; Gunnlaugur, umboðsmaður auðugs verzlunarfélags í Bandaríkjunum; Ingibjörg, til heimilis með móður sinni að Akra, N. Dakota.

Eggert Gunnlaugsson var afburða fjörmaður, búmaður og hagsýnn í öllu, sem búskap snerti, vandaður maður og áreiðanlegur í viðskiftum.

**Benedikt Jónsson,** fæddur í Eyjafirði 1845, dáinn 7. nóvember 1910. Foreldrar hans voru Jón Sigurðsson og Rósa Jóhannesdóttir. Jón var bróðir Jakobs Sigurðssonar Eyfjörðs, en Rósa var systir Jóns í Torfufelli í Eyjafirði, föður Jóhanns er nam Bólstað í Víðinesbygð.

Benedikt fluttist með föður sínum, barn að aldri, austur í Norður-Múlasýslu. Hann var með föður sínum til þess hann gat farið að vinna fyrir sér, sem léttadrengur hjá vandalausum. Vorið 1862 fór hann til Björns bónda Einarssonar í Dölum í Hjaltastaðaþinghá, og var þar 11 ár. Björn var sterkur og stórvirkur, vildi komast af með sem fæst vinnufólk. Hafði sjaldan aðra vinnumenn en Benedikt í þessi 11 ár.

Eftir að Benedikt fór frá Dölum, var hann 3 ár vinnumaður í Hjaltastaðaþinghá, eitt ár á Sandbrekku og eitt í Kórekssstaðagerði. Hann kvæntist 1874, Rannveigu Þorleifsdóttur. Hún var fædd á Víðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá 22. nóv. 1844, dáin 25. maí 1902, vestur á Kyrrahafsströnd; fór vestur frá Selkirk til að reyna að fá bót við heilsubilun fáum mán., áður hún lézt. Foreldrar hennar voru Þorleifur Jónsson og kona hans, Sigríður Jónsdóttir. Þorleifur var sonur Jóns Ásmundssonar bónda, í mörg ár í Stóru-Breiðuvík í Reyðarfirði og konu hans,

Rannveigar Þorleifsdóttur, Stefánssonar. Sigríður, kona Þorleifs var dóttir Jóns Guðmundssonar, bónda á Víðarstöðum og konu hans, Sesselju Sigurðardóttur. Rannveig var hálfsystir mín, við vorum sammæðra og bræðrabörn. Móðir okkar var tvígift. Menn hennar voru bræður, síðari maður hennar, Jóakim, var faðir minn. Alsystkyn Rannveigar voru Jón, bjó í Kóreksstaðagerði, dáinn að Akra, N. Dak., 1884, og Guðný, nú til heimilis í Bellingham, Wash. Rannveig og Guðný voru tvíburar, voru fárra vikna gamlar þegar faðir þeirra lést.

Benedikt var síðasta ár sitt á Íslandi vinnumaður á Hjaltastað hjá séra Birni Þorlákssyni. Flutti til Ame-



*Benedikt Jónsson og Rannveig Þorleifsdóttir.*

ríku og fór til Nýja-Íslands 1876; nam land og nefndi Stararskóg, bjó þar 5 ár. Flutti að Miklabæ árið 1881, setti heimilisrétt á landið, og bjó þar, til þess hann árið 1888 flutti til Selkirk, var þar mörg ár. Flutti vestur á Kyrrahafsströnd skömmu áður en hann lézt. Hann og kona hans hvíla í grafreit í bænum Bellingham í Washington-ríki.

Eftir að Benedikt var fluttur vestur um haf, tók hann sér auknefni og nefndi sig Austmann, var síðan kunnur með því nafni (Benedikt Austmann). Hann var vel gefinn maður, dulur mjög og fámáll, en vissi meira en marg-

ur hefði haldið, sem ekki þekti hann; var duglegur og laginn verkmaður, og ávann sér hylli þeirra sem hann vann fyrir. Rannveig kona hans, var gáfuð mjög, hafði mikla lærdóms-hæfileika til að afla sér bókmentunar, ef lífs afstaða hennar hefði leyft það. Hún var skemtin í tali, fámenni og þögn átti illa við hana, saklausri skemtun og félagslífi unni hún.

Börn Benedikts og Rannveigar voru átta, á lífi eru fjögur: Hildigerður, gift Magnúsi Þorlákssyni í Bellingham, Wash.; Halldór Þorleifur; Jón Ólafur, báðir vestur við haf; Sigríður Jóhanna, líka vestur við haf.

**Páll Jónsson**, fæddur í Jórvík í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, 9. janúar 1836, dáinn 6. maí 1907. Foreldrar hans voru Jón Jónsson, bóndi í Jórvík og kona hans, Oddný Jónsdóttir.

Páll bjó fyrst á Kolmúla í Fáskrúðsfirði, en síðar í Tungu í sömu sveit. Hann flutti frá Tungu vestur um haf, til Nýja-Íslands árið 1876. Hann nam land og nefndi Nýjabæ, bjó þar 4 ár. Flutti árið 1880 til Winnipeg, og var þar 9 ár, og eitt ár í Grunnavatnsbygðinni. Flutti þaðan til tengdasonar síns, Eggert J. Oliver í Argylebygð, Man., var þar, til þess hann árið 1900 fluttist til Saskatchewan, og nam þar land, nálægt Gerald, Sask., og bjó þar til þess hann lézt.

Páll var tvígiftur. Fyrri kona hans var Vilborg Guðmundsdóttir, Guðmundssonar, bónda á Ósi í Breiðdal, og í Vík í Fáskrúðsfirði, og konu hans Bjargar Björnsdóttur. Börn Pálls og Vilborgar voru tveir synir, sá eldri: Marteinn, er bóndi í Saskatchewan, sá yngri hét Páll, dó á Íslandi.

Síðari kona Páls var Ólöf, dóttir Níelsar Níelssonar, bónda á Kirkjubóli, og síðar í Tungu í Fáskrúðsfirði. Börn þeirra: Vilborg Lovísa, gift Eggert J. Oliver, syni Jóns Ólafssonar er bjó á Brú P. O. Man., Eggert býr nú í Big River, Sask.; Kristján bóndi í Sask.; Oddný, gift Andrési Frímann, er lengi var skrifari á stjórnarskrifstofum Manitobastjórnar og síðar á timbur og land-skrifstofum fyrir Domminionstjórnina í Winnipeg. Þau hjón bæði látin. Níels Metúsalem, dáinn í Winnipeg, Jónína Pálína, dáin í Winnipeg, Páll dáinn á fyrsta ári í Nýja-Íslandi, Albert, járnbrautar póstþjónn, nú til heimilis í Edmonton, Alta., Björn Metúsalem, lögfræðingur í Langruth, Man.,

og Kristín, til heimilis hjá bræðrum hennar í Saskatchewan.

**Jónas Leó**, fæddur 1843, dáinn 18. maí 1918. Foreldrar hans, Hjálmar Jónasson og kona hans Katrín, voru ættuð úr Húnavatnssýslu. Jónas, faðir Hjálmars, var bróðir Jóhanns, er kallaður var Holtastaða Jóhann. Kona Jónasar Leó, hét Sæunn Sigurðardóttir, ættuð úr Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu, sonur þeirra er hinn alkunni gáfumaður, séra Hjörtur Leó.

Jónas og Sæunn giftust 1871. Þau fluttu frá Bakka á Skagaströnd í Húnavatnssýslu til Ameríku árið 1883, fóru til Nýja-Íslands, og voru fyrsta veturinn þar á Gimli, svo á Nýstöðum, 4 mílur vestur af Gimli eitt ár. Árið 1885 setti Jónas heimilisrétt á Nýjabæ og flutti þangað, bjó þar átta ár, flutti þaðan til Selkirk, og bjó þar til þess hann lést. Sæunn kona hans, dó 1911. Bæði þau hjón voru vel greind og unnu gott æfistarf.

**Ásmundur Þorsteinsson**, Runólfssonar bónda í Hleinargarði í Eyðaþinghá, Ásmundssonar. Kona Þorsteins,





*Ásmundur Þorsteinsson og Bergþóra Jónsdóttir.*

og móðir Ásmundar hét Sólveig Rustikusdóttir, bónda á Fossvöllum í Jökulsárhlíð.

Ásmundur var fæddur á Litlabakka í Hróarstungu, 10.

desember 1841. Hann bjó þar nokkur ár og flutti þaðan vestur um haf til Nýja-Íslands 1876, nam land í suðurparti Víðirnesbygðar og nefndi Fenhring. Árið 1881 flutti hann að Dvergasteini; setti heimilisrétt á landið; bjó þar nokkur ár.

Áður en Ásmundur flutti að Dvergasteini, hafði þar búið í tvö ár, Skúli Árnason, er nam land í suðurparti Víðirnesbygðar, og nefndi það Bræðraborg. En aðal landnámsmaður á Dvergasteini var Jón Bergmann frá Laugalandi í Eyjafirði, faðir séra Friðriks Bergmanns. Hann kom frá Íslandi 1876. Flutti til Dakota 1879.

Ásmundur flutti frá Dvergasteini til Selkirk, var einn af þeim fyrstu Íslendingum, sem settust að í Selkirk. Er búinn að vera þar, milli 30 og 40 ár.

Kona Ásmundar var Bergþóra Jónsdóttir, frá Arnhallsstöðum í Skriðdal í Suður-Múlasýslu, fædd 3. júlí 1837, dáin 1883. Hún var vel gefin kona, var orðlögð kona á Austfjörðum, fyrir framúrskarandi kunnáttu í klæðagjörð.

Ásmundur og Bergþóra áttu sjö börn, af þeim dó eitt á leiðinni til Ameríku. Kristín hét dóttir þeirra, var gift Roga Sigurgeirssyni, bónda í Mikley, hún dó 5 nóvember 1919. Á lífi eru: Jónína, kona Jóhannesar Hannessonar, fyrrum verzlunarmanns á Gimli, nú búandi í Winnipeg; Sólveig, gift Erlendi Anderson, búa í Everett, Wash.; Þorsteinn, býr í Selkirk, kvæntur Elenoru Sigurgeirsdóttur, Stefánssonar.

**Halldór Karvelsson**, fæddur á Þorvaldsstöðum í Skriðdal 7. júlí 1865. Foreldrar hans eru hjónin Karvel Halldórsson og Sigrún Runólfsdóttir, er síðar verður getið.

Halldór ólst upp hjá foreldrum sínum, til þess hann var 14. ára gamall, var eftir það hjá ýmsum í vinnumensku, þar til hann fór til Ameríku. Síðasta ár sitt á Íslandi var hann á Hallfreðarstöðum hjá Páli skáldi Ólafssyni. Fór til Ameríku árið 1891; fór frá Seyðisfirði 23. júní, kom til Winnipeg 14. júlí; var á annan mánuð í Winnipeg, fór svo til Nýja-Íslands og vann þar mánuð við heyskap, fór um haustið vestur til Argyle og var þar til næsta vors. Í 18 vetur flutti hann fisk norðan frá veiðistöðum á Winnipegvatni upp til Selkirk og stundum til Winnipeg.

Árið 1895, nam Halldór land, og nefndi Hjarðarhaga. Flutti þangað vorið 1896, hefur síðan búið þar.

Kona Halldórs, heitir Margrét Stefanía, fædd 4. des-

ember 1868, Sigurðardóttir, Stefánssonar, bónda í Kjartansstaðakoti á Langholti í Skagafirði, og konu hans Önnu Guðmundsdóttur. Börn þeirra hjóna þrjú, Leifur Hepni, fæddur 25. júní 1905; Anna Steinunn Sigrún, fædd 5. ágúst 1907; Karvel Sigurður, fæddur 21. september, 1908.

**Magnús Halldórsson**, fæddur í Krisuvík í Gullbringusýslu, 27. nóvember 1850. Faðir hans var Halldór Magnússon, bóndi í Krisuvík yfir 20 ár. Magnús faðir hans bjó í Háholti í Skeiðahreppi í Árnessýslu, var kallaður



*Magnús Halldórsson, kona hans og dóttir þeirra.*

fálkafangari, af því hann veiddi fálka fyrir Danakonung. Kona Magnúsar, móðir Halldórs í Krisuvík, hét Guðrún Árnadóttir, prests í Steinholti, Högnasonar, prests á Breiðabólstað í Fljótshlíð. Kona Halldórs, móðir Magnúsar yngra, hét Margrét Þorleifsdóttir, bónda í Arakoti á Skeiðum.

Magnús var hjá foreldrum sínum, til þess hann var átta ára gamall, var eftir það hjá ýmsum, til þess hann

gat farið að vinna fyrir sér. Frá því hann var 17 ára, til þess hann fór til Ameríku, var hann formaður við sjávarvinnu fyrir bændur, er bjuggu á Vatnsleysuströnd, Guðmund á Auðnum og Jón Breiðfjörð á Brunnastöðum.

Magnús flutti vestur um haf, til Nýja-Íslands, árið 1886, settist að á Gimli, í húsi sem Pétur Pálsson frá Árnastöðum í Loðmundarfirði átti, er þá bjó á Gimli og rak þar verzlun.

Magnús nam land, og nefndi Sóleyjaland. Seldi það fyrir 100 dollara, eftir að hann hafði búið þar 3 ár, flutti að Gimli árið 1891, hefur síðan búið þar.

Árið 1890, giftist Magnús Guðbjörgu Jónsdóttur, bónda á Setbergi við Hafnarfjörð og konu hans, Guðrúnar Egilsdóttur. Af 5 börnum þeirra lifa tvær dætur, er heita Magnúsína og Margrét Júlíana.

Magnús hefur, síðan hann flutti af landi sínu til Gimli, unnið við fiskiveiðar á Winnipegvatni sumur og vetur; var í 20 sumur formaður. Veturinn 1920—'21, var hann síðast norður á veiðistöðvum.

**Sigurjón Jóhannsson,** fæddur á Hamri í Húnavatnssýslu, 7. janúar 1877. Foreldrar hans voru, Jóhann Þorláksson og kona hans, Steinunn Jónsdóttir, þau bjuggu á Hamri allan sinn búskap.

Sigurjón misti föður sinn, þegar hann var á öðru ári. Móðir hans giftist aftur, Jóni Péturssyni, mjög merkum manni, Skagfirskum að ætt. Ólst Sigurjón upp hjá þeim, og fluttist með þeim til Ameríku árið 1883. Jón nam land í Geysirbygð og nefndi Fljótshlíð, nam síðar land á hlið við Sóleyjaland, og nefndi Nýlendi, en keypti Sóleyjaland. Þeir stjúpfeðgarnir höfðu félagsbú, þar til Jón fór vestur að hafi, árið 1918, og lést þar.

Sigurjón keypti Sóleyjaland af stjúpa sínum og býr þar. Hann giftist 7. maí 1910; kona hans heitir Anna Steinsdóttir; bónda á Hryggjum í Gönguskörðum í Skagafirði og konu hans, Sigríðar Pétursdóttur, bónda á Nautabúi í Húnavatnssýslu. Þau hjón eiga tvær dætur, heita Steinunn Jóhanna og Sigrún Anna.

**Magnús Jónsson,** fæddur á Silfrastöðum í Akrahreppi í Skagafjarðarsýslu, 13. ágúst 1842. Faðir hans var Jón bóndi á Silfrastöðum, dáinn á Hafsteinsstöðum í Skagafirði 1847, Eiríksson, bónda í Blönduhlíðinni, Eiríkssonar.

Móðir Magnúsar, kona Jóns á Silfrastöðum, hét Oddný Magnúsdóttir, bónda á Uppsölum í Blönduhlíð. Hann var merkisbóndi og valmenni; var vinur Bólu Hjálmars, og þegar Hjálmar frétti lát Magnúsar, orti hann vísu þessa:

Hné til moldar mannvalið
Magnús frá Uppsölum.
Mjög-vel þoldi mótlætið,
mun honum goldið verðkaupið.

Þegar Jón á Silfrastöðum dó, var Magnús sonur hans 5 ára gamall. Var hann þá tekinn í fóstur að Írafelli í Skagafirði af hjónum, Jóni Ásmundssyni og Ingigerði



*Magnús Jónsson og Oddný Jóhannesdóttir og synir þeirra.*

Magnúsdóttur, móðursystur Magnúsar; hjá þeim var hann til þess hann var fullorðinn og svo á ýmsum bæjum í Skagafirði 5 ár. Fór að þeim tíma liðnum, norður að Stórulaugum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu, og var þar 3 ár. Hann kvæntist 25. október 1870, Oddnýu Jóhannesdóttur. Hún er fædd 31. júlí 1845. Jóhannes, faðir hennar, bjó á Stórulaugum og víðar. Fluttist með börnum sínum vestur um haf, til Nýja-Íslands 1876, dáinn í Norður-Dakota 11. febrúar 1891. Faðir Jóhannesar var Oddur

Þorsteinsson, bóndi á Hróarsstöðum í Fnjóskadal, kona hans, móðir Jóhannesar hét Guðfinna Sigurðardóttir, bónda á Hróarsstöðum. Móðir Oddnýjar kona Jóhannesar hét Guðný Kristjánsdóttir, bónda á Brúum (bær, sem nú er í eyði), skamt fyrir austan Grenjaðarstað. Kona Kristjáns, móðir Guðnýjar hét Vilborg Pétursdóttir, merk kona og greind.

Magnús bjó sex ár í Reykjadalnum. Flutti árið 1876 frá Breiðumýri í þeirri sveit, vestur um haf, til Nýja-Íslands, var fyrsta veturinn þar á Gimli. Nam land vorið 1877 og nefndi Fjón, bjó þar þrjú ár, flutti vorið 1880 til Winnipeg, og þaðan til Dakota ári seinna.

Á meðan Magnús og Oddný voru í Nýja-Íslandi, urðu þau sem fleiri, að vinna út til að geta framfært líf sitt. Part úr sumrinu 1878, vann Magnús hjá bónda, er William Nemon hét, og bjó skamt fyrir norðvestan Winnipeg; samtímis Magnúsi vann hjá bóndanum Benedikt Jónsson Austmann, er nam landið Stararskóg í Víðirnesbygð. Vinnan var að losa upp grjót og hlaða því á vagna og losa upp sand og moka honum upp í vagna. Þetta var flutt tli Winnipeg og selt þar, verkamönnunum þótti bóndi ágjarn og vinnuharður, og vildi hann láta stundum vinna á sunnudögum. Magnús lýsti bóndanum í vísu sem hann orti um hann:

"Ekki hót um sinnir sá
sunnudaga-lestur.
Sandi og grjóti græðir á,
gengur ljótur til og frá."

Part úr vetrinum 1878—'79, vann Oddný hjá bónda í Clandeboy, og hafði Jóhannes son sinn með sér, þá 5 ára gamlann.

Börn hjónanna eru þrír synir: Jóhannes, fæddur 11. ágúst 1873, býr í Eyford-bygð, N. Dak., kona hans heitir Ingibjörg Ágústa, dóttir Stefáns Guðmundssonar bónda skamt frá Árborg, Man.; Geirfinnur, fæddur 4. febrúar 1884; Jón, fæddur 31. marz 1890, býr í Grandforks, N. Dak. kvæntur Júlíu Sigríði Friðbjörnsdóttur Samsonarsonar, bónda í Garðar-bygð, N. Dak.

Magnús er stiltur og vel kyntur maður, Oddný kona hans er vel greind.

**Jónas Skúlason,** fæddur á Egilsstöðum í Þverárhreppi í Húnavatnssýslu 1829. Foreldrar hans voru Skúli Árna-

son og kona hans, Sólveig Guðmundsdóttir bónda í Köldukinn í Torfalækjarhreppi, Árnasonar.

Jónas ólst upp hjá foreldrum sínum til 14. ára aldurs, fór þá til vandalausra, var hjá ýmsum í Húnavatnssýslu. Reri suður á landi 15 vertíðir. Hann fór til Ameríku árið 1885, fór til Nýja-Íslands, og var fyrsta veturinn þar á Gimli, hjá Jónasi Stefánssyni. Setti heimilisrétt á Fjón, árið 1887, bjó þar 12 ár. Flutti til Selkirk árið 1899, hefur dvalið þar síðan. Er búinn í 14 ár, að vera til heimilis hjá Jóhannesi Ólafssyni, ættuðum úr Húnavatnssýslu, er hefur búið í Selkirk í mörg ár.

**Jón Jónsson**, fæddur á Munkaþverá í Eyjafirði 1852. Faðir hans var Jón bóndi á Munkaþverá. Bjó þar stóru búi og hafði margt fólk í heimili. Faðir hans hét Jón Jónsson, bjó líka á Munkaþverá. Hann var alþingismaður fyrir Norður-Múlasýslu 1852, svo þingmaður Eyfirðinga um nokkur ár. Árið 1858 fluttist hann vestur í Húnavatnssýslu, og varð þar umboðsmaður Þingeyra-klausturjarða. Kona hans, móðir Jóns yngra á Munkaþverá, hét Þorgerður Jónsdóttir, systir Ólafs bónda á Stokkahlöðum í Eyjafirði, föður Kristins bónda í Garðarbygð í Norður Dakota, látinn sl. haust, föður séra Kristins K. Ólafssonar að Mountain, N. Dak. Annar bróðir Þorgerðar var Stefán alþingismaður á Steinsstöðum í Öxnadal.

Jón yngri, bóndi á Munkaþverá, var tvíkvæntur. Sonur hans og fyrri konu hans, er Jakob Júlíus, bóndi að Milton, N. Dak., gáfumaður og fróður um margt. Síðari konan hét Þórey Guðlaugsdóttir frá Svínárnesi á Látraströnd. Börn þeirra: Jón, sem hér er getið; Stefán, nú bóndi á Munkaþverá, var nokkur ár í Dakota fyrir aldamótin, giftur Þóru Vilhjálmsdóttur frá Laufási, Bjarnarsonar prófasts í Laufási, Halldórssonar; Kristín, gift Júlíusi Hallgrímssyni, þau bæði látin, og Þorgerður, ógift á Munkaþverá.

Annan maí 1875, lögðu af stað frá Akureyri til Ameríku 10 manns, það voru Friðrik Jónsson Bergmann, frá Laugalandi í Eyjafirði, Júlíus Pálsson frá Kjarna, Kristján Sigurðsson frá Svalbarði, með konu og þrjú börn, síðan nefndur Bakkmann, og kona, sem fór til manns síns í Nýja Skotlandi, og Jakob og Jón Munkaþverárbræður. Jón segir frá ferðinni sem eftir fylgir:



Við fórum með kaupskipi til Norvegs, lentum við Kristjánssand eftir tvær vikur frá því við fórum frá Akureyri. Biðum í Norvegi í viku eftir skipi, sem fluttti okkur til Hull á Englandi. Í Liverpool biðum við viku eftir skipi, sem flutti okkur vestur yfir hafið til New York. Þaðan fóru Júlíus og konan til Halifax, en við hin til Toronto, og þaðan norðvestur í skóga til Gravenhurt, þar var verið að byggja járnbraut. Eftir mánaðarvinnu þar, lögðum við Friðrik Bergmann af stað vestur til Milwaukee, og svo þaðan norður, á leið til Íslendinga í Shawano county. Ætlaði Friðrik að hitta séra Pál Þorláksson og fá leiðbeining hans með skólagöngu. Fékk hann víst hjá Möller tengdabróður séra Páls. Þetta var um uppskerutímann og reyndi eg að fá mér vinnu hjá bændum og gekk bæ frá bæ að bjóða mig, en enginn þóttist þurfa hjálp, því uppskeran var mjög rýr, og smáir akrar víðast. Bændur sem efnaðir voru áttu uppskeruvél til að slá kornið með, en smábændurnir slóu með orfi og ljá upp á gamlamóðinn.

Eg varð því að hverfa aftur til Milwaukee og leita gæfunnar þar, það var alment vinnuleysi og harðir tímar. Bankahrun nýlega afstaðið og lítið byrjað að byggja Chicago-borg eftir brunann mikla, og vinnulaun voru lág. Eg fékk vinnu hjá húsamálara og vann við málningu þar til við 13 Íslendingar fórum í septembermánuði frá Milwaukee norður til Duluth að mæta löndum frá Ontario, sem koma skyldu eftir vötnunum áleiðis til Manitoba.

## Endurminningar Jóns frá Munkaþverá, frá ferð Íslendinga frá Duluth til Nýja-Íslands.

Í Duluth gafst þessum löndum frá Milwaukee nægur tími til að skoða sig um í bænum, sem þá var ekki stór, aðeins eitt stræti, sem nokkuð kvað að með fáum múrbyggingum. Fasteignasali fór að sýna þeim fram á, að þetta væri rétti staðurinn fyrir unga menn að setjast að í, og bæjarlóðir væru mjög ódýrar. En veitingahussráðandinn, sem dvalið var hjá, sagði þar mjög lítið að gjöra, og útlit ekki gott, ef ekki batnaði í ári. Svo enginn vildi hætta á að verða þar eftir. Æfintýralandið fyrir norðan Manitoba, sem þá var, reis hátt í huganum.

Gufuskipið, sem kom með aðalhópinn frá Collingwood, Ontario, lagðist við bryggju seint að degi, og varð þá fagnaðarfundur milli frænda og sveitunga, sem nú komu þarna

með sömu hugsjónina, að stofna íslenzka nýlendu. Sumir létu gleði sína í ljós með því, að drekka sig fulla, og þótti það á þeim dögum mjög eðlilegt. En einn lét svo illa, að hann var bundinn svo aðrir hefðu frið, og þótti það heldur minkun, að láta innlenda sjá ölæðið í mannsaumingjanum.

Daginn eftir var lagt af stað með hinni nýbygðu járnbraut til Rauðár, en ekki varð komist alla leið; það var stansað í Glyndon, Minnesota, og beðið þar eftir vögnum, þar eru skóglausar sléttur grösugar, og þá óyrktar að kalla, og sáu menn þar, flestir í fyrsta sinni, sýnishorn af hinum miklu sléttum í norðvestrinu, og þóttu þær víst fremur óvistlegar.

Í Glyndon var gufuvagnahús (roundhouse) og þangað safnaðist fólkið daginn eftir, það var sunnudagur, og þá hélt John Taylor sín fyrstu ræðu yfir löndum, lagði út af 20. v., 23 kapítula í 2, Mósesbók. "Sjá, eg sendi engil á undan þér, til að varðveita þig á ferðinni, og leiða þig til þess staðar, sem eg hefi fyrirbúið." Friðjón þýddi á íslenzku jafnóðum, þegar búið var og menn höfðu sett upp húfur sínar, heyrðist sagt: "Það var gott hjá karlinum, hann hugsar víst að hann sé útvalinn leiðtogi, eins og Móses, — hver veit nema hann sé það."

Að þessu loknu varð glatt á hjalla í hringhúsinu, það var farið að dansa og leika á harmoniku. Þarna nálægt var ostagjörðarhús, þangað var farið að kaupa mjólk, og þótti hún svo ódýr, að sumir vildu drekka fyrir ókominn tíma og liðinn, því mjólk hafði víst verið af skornum skamti hjá flestum fyrir langa tíð.

Loks varð komist af stað ofan að Rauðánni, og út á gufubátinn. Bakkarnir á Rauðá voru svo háir alstaðar, að ekkert sást af bátsþyljum nema skógurinn upp á bökkunum, svo menn fengu litla hugmynd um landið, sem farið var í gegnum alla leið til Winnipeg.

Fátt var gert til skemtunar á bátnum ofan ána, ekkert söngfólk eða gleðimenn létu á sér bera, nema helst hagyrðingarnir, þeir orktu vísur og bragi um hitt og þetta, sem þótti skrítið, en mest var það haft í lágmæli, svo engum þætti ver. Þrengsli voru mikil á bátnum, að sumum þótti þeir varla mundu þekkja sína eigin fætur í þeirri kássu fremur en Bakkabræður forðum.

Eitt af því sem talað var um meðal þeirra, sem ræða vildu alvarleg mál, var nafn á tilvonandi nýlendu og bæ, og

mun þá hafa verið slegið föstu Nýja-Íslands nafninu, þótt áður væri til komið. Stungið var upp á nöfnum fyrir bæ, Ólafur Olafsson frá Espihóli kom með Gimli nafnið, og fékk það einróma meðmæli, svo uppfrá því var talið víst að bærinn yrði látinn svo heita. En hann skyldi standa við Íslendingafljót. Síðar, einkum þegar bólan gekk, og fá gæði voru að sækja til Gimli, þótti sumum bærinn ekki bera nafn með rentu, og fanst hann heldur hefði átt að heita Gimbill, og gripu svo til þess nafns þegar illa lá á þeim.

Ofan eftir Rauðá, á leiðinni frá Winnipeg til Nýja Íslands, þegar flutningsdallarnir okkar voru að festa sig á steinum og renna upp á grynningar, og kom brátt í ljós hverjir bezt gengu fram í að koma öllu í lag í þeim hrakfalla leik; mætti þar til nefna hina ungu menn, sem áður höfðu farið þessa leið (landskoðunarferðina með Taylor). Þegar til einhverra mannrauna kom má víst telja Stefán Eyjólfsson mjög framarlega. Hann varð fyrstur til að reyna dýraveiðar og fiska, og sýndi oft mikla þrautseigju. Hann var einn af þeim fáu í þessum innflytjendahóp, sem talaði ensku að mun á þeim dögum.

Gufubáturinn "Collville" dró flutningsdallana úr Rauðárósunum út á vatnið og norður undir Víðirnestangann og skildi þar við alt saman, meira en mílu frá landi. Skipstjórinn þóttist ekki vita hvort dýpið væri nægilegt fyrir skipið, að halda lengra nær landi. Svo róðrarbátur, sem við höfðum, áttæringur, kallaður Yorkbátur, var mannaður, og var honum beitt fyrir flekatrássuna sem var víst um 300 feta löng og furðulega þung undir árum. En það vildi til heppni, að veðrið var stilt, því annars hefði róðrarbátur ekki ráðið við neitt.

Það var stefnt sunnan við tangann, inn á tjörnina, og lent þar sem tanginn er mjór. Allur farangur var borinn yfir tangann og svo fluttur á Yorkbátnum norður í víkina, þar sem nú er Gimli, og öllu hlaðið upp þar á vatnsbakkanum. Tveir eða þrír menn voru látnir vaka yfir því á nóttunum til að varna því að Indíánar eða hundar þeirra hnupluðu engu í burtu.

Menn völdu sér tjaldstæði þar sem skógurinn var gisinn, eða rjóður voru, og settu upp skinntjöldin, sem stjórnin hafði lagt til, og voru oft fleiri fjöldskyldur í einu tjaldi, en allir fengu þó pláss til að sofa í.

Það féll snjór um nótina, og um morguninn, þann fyrsta, sem við vorum á Gimli, skyldi byrja að byggja fyrsta húsið, sem átti að vera fyrir vörurnar og matvælin (búðin svo kallaða), og áttu allir, sem gátu, að leggja hönd að því, og voru nú stjórnar axirnar lagðar fram til útbítingar. Sumir höfðu varla snert á öxi fyrr á æfinni og þótti, sem nokkur vígahugur gripi um sig, er menn nú máttu fara að fella tré og hlífa engu, svo það varð nokkur hópur, er lagði af stað inn í skóginn. Enskur Canadamaður var með, sem skyldi kenna þeim íslenzku að byggja bjâlkahús og vildu menn sjá hvernig honum færist að fella fyrsta tréð. En þar var líka Flóvent Jónsson frá Skriðulandi í Möðruvallasókn í Eyjafirði, vaskur maður á þeim dögum, sem hafði verið við skógarhögg austur í Ontario, og þóttist ekki óflinkari skógarhöggsmaður en sá canadiski, og tókst honum að fella sitt tré fyr. Sumum fanst þetta góðs fyrirboði, að landinn varð til þess að fella fyrsta tréð í hús í Nýja-Íslandi, og hrópuðu húrra.

Jón frá Munkaþverá, nam land sunnan við Gimli-bæ og nefndi Akur, og bjó þar til vorsins 1879; flutti þá til Winnipeg, og var þar um sumarið; flutti um haustið til Dakota. Er nú fyrir nokkrum árum síðan, fluttur vestur að hafi; býr skamt frá bænum Blaine í Washington-ríki.

Kona Jóns, er Guðný Eiríksdóttir, fædd á Einarsstöðum í Reykjadal 1848. Foreldrar hennar voru Eiríkur Eiríksson, og kona hans Guðrún Jónsdóttir, þau bjuggu á Einarsstöðum.

Jón og Guðný voru gift á Gimli af séra Jóni Bjarnasyni, 19. júlí 1877. Hjónavígslan fór fram í húsi Friðjóns Friðrikssonar, þá ekki fullgjörðu; var í smíðum. Börn hjónanna, sem á lífi eru: Anna, kona Þórðar Eggertssonar Vatnsdals, Portland, Oregon, og Jón Frímann í Blaine, Wash, giftur Ásrúnu Jónsdóttur frá Mýri í Bárðardal.

Jón frá Munkaþverá er vel greindur maður, stiltur og prúðmenni í allri sinni framkomu, og ávalt komið sér vel, þar sem hann hefur verið. Í Pembina, Norður Dakota, var hann í bæjarstjórninni 5 ár. Stundaði þar húsasmíði og ýmsa samningsvinnu. Á meðal bygginga, sem hann setti upp, voru vörugeymsluhús og skrifstofubyggingar í Fort Pembina fyrir stjórnina.

**Hans Kristján Jónsson**, fæddur í Lögmannshlíð við Akureyri, á miðvikudaginn síðastan í vetri (22. apríl) 1840. Faðir hans var Jón bóndi í Lögmannshlíð, Jónsson bónda á Vindheimum á Þelamörk í Öxnadal. Móðir Hansar, kona Jóns í Lögmannshlíð, hét Margrét Þorsteinsdóttir; hún ólst upp í Reykjavík hjá Jóni Finnsen háyfirdómara.

Jón, faðir Hansar vann í 10 sumur við verzlun hjá Friðrik Möller kaupmanni suður á landi; átti að vinna þar



*Hans Kristján Jónsson.*

sjávarvinnu, en kaupmanni leist vel á hann, hafði skifti á honum og öðrum manni, lét þann mann róa á sjónum, en Jón hjálpa sér við verzlunarstörf.

Hans ólst upp hjá foreldrum sínum, var hjá þeim til þess hann var nærri tvítugur; fór þá til Jóhanns Thorarinssens lyfsala á Akureyri, og vann hjá honum í þrjá vetur, en á hákarlaskipum á sumrum.

Árið 1865 kvæntist Hans, gekk að eiga Ingibjörgu

Kristjönu Jóhannesdóttur, Grímssonar, bónda á Kjarna í Eyjafirði og konu hans Soffíu Jósepsdóttur frá Hvammi í Eyjafirði. Ingibjörg var systir Guðrúnar, konu Tómasar Jónassonar á Engimýri við Íslendingafljót.

Hans, eftir að hann giftist, vann kaupavinnu hjá ýmsum, þar til hann fór til Ameríku árið 1876. Af því hann var að vinna á sjó, þegar vesturfaraskipið fór frá Akureyri 2. júlí, misti hann af því; fór með hestaflutningsskipi til Granton, beið þar í viku eftir Austurlands-hópnum; varð honum samferða til Nýja Íslands. Hann settist að á Gimli, og var svo heppinn að fá fljótt vinnu hjá John Taylor. Taylor tók eftir því, að Hans hafði betra lag á því, að velta salttunnum í land af gufubátnum "Colville", en þeir sem voru við það verk með honum, svo hann spurði Friðjón Friðriksson, að hvort hann mundi ekki geta fengið þennan mann til veturvistar. Hans lét ekki lengi bjóða sér vinnuna, vann hjá Taylor um veturinn, og hafði í kaup 10 cents á klukkutímann.

Um haustið voru sex menn sendir upp í Rauðárósa, að sækja "barða" hlaðinn af kartöflum. Hans var einn af þeim; þeir urðu að bíða eftir byr í 2 daga í ósunum; fengu eftir að þeir lögðu af stað, gott veður norður að Stóratanga, þar neyttu þeir dagverðar; en meðan þeir voru að snæða tók að hvessa og veður útlit að verða ógurlega ljótt. Samt lögðu þeir af stað, en þegar þeir voru komnir áleiðis um það ¼ úr mílu, skall á ófært veður með hörkufrosti. Þeir fóru í land, kveiktu eld og gistu í skógnum um nóttina. Um morguninn var kominn snjór sem tók þeim í hné; þarna urðu þeir að skilja eftir barðann, gengu norður að Gimli. Kartöflurnar urðu ónýtar, en "barðinn" var rifinn í sundur.

Hans bygði um veturinn, þennan sinn fyrsta í Nýja Íslandi fjögur bjálkahús, til að geyma í stjórnarlánsvörurnar, tvö við akveginn, fyrir norðan Netlelæk 4 mílur, og tvö norður á Drunkentanga. Jón Jónsson frá Munkaþverá og Sigurður Bjarnason póstur bygðu húsin með honum.

Að áliðnu sumri 1880, flutti Hans suður til Dakota, en var þar ekki nema tvö og hálft ár; flutti aftur til Nýja Íslands árið 1883. Læknir áleit að kona hans þyldi ekki hið þurra loftslag í Dakota.

Þegar Hans kom norður settist hann að á Akri; setti heimilisrétt á landið, og eftir að hann hafði búið þar mörg

ár, seldi hann Guðmundi Guðmundssyni frá Kolafossi landið; flutti inn í Gimli-bæ, og hefur síðan búið þar.

Kona Hansar lést fyrir 30 árum síðan. Þau eignuðust fimm dætur: Margrét, Jóhanna Stefanía, gift kapteini Jóni G. Stefenson, búa á Fjóni í Víðirnesbygð; Hansína, gift Jóhanni Hannessyni, stjórnarráðsritara í Cavalier, N. Dak.; Kristín, ekkja eftir Pál Markússon, er bjó á Gimli og í Selkirk; Bergþóra, ekkja eftir Guðmund Guðmundsson, er bjó í Selkirk. Hann druknaði í Rauðá 1914.

Hans var fjörmaður, og ávalt hress í viðmóti og tali. Hann ber ellina vel, og sýnist vera yngri en árin telja hann vera.

## Saga Vigfúsar bókbindara Sigurðssonar, frumbyggja á Vigur, rituð eftir hans eigin handriti.

Eg er fæddur á Hóli í Kinn í Suður-Þingeyjarsýslu 10. eptember 1827. Faðir minn var Sigurður Oddsson hreppstjóra Benediktssonar, af góðri bændaætt í Bárðardal. Móðir Sigurðar hét Guðrún Þorvaldsdóttir, ættuð úr Fnjóskadal, hét Ólöf móðir hennar, systir Jóns bónda Kolbeinssonar í Bakkaseli, föður þeirra Fnjóskadalsbræðra, Bjarnar umboðsm. í Lundi og Kristjáns á Illugastöðum, föður Kristjáns amtmanns og systkina hans. Móðir mín, kona Sigurðar Oddssonar var Guðrún Vigfúsdóttir, Þorkelssonar, bónda á Öxará, er margt manna er frá honum komið. Hann druknaði í Öxará. Móðir Guðrúnar, móður minnar, var Guðrún Aradóttir, frá Skútustöðum; var Ari sá alment talinn Ólafsson, móðir hans var Jórunn Þorleifsdóttir, prófasts Skaptasonar, en kona Ara var María Aradóttir, prests að Tjörn í Svarfaðardal, Þorleifssonar prófasts Skaptasonar. Þannig voru þau Ari á Skútustöðum og María kona hans systkynabörn, enda sýndist þar koma fram, að sú skoðun sé



*Sigurður Vigfússon og Guðrún Vigfúsdóttir.*

rétt, sem alment nú á dögum er haldið fram af læknum og fleirum, að börn náskyldra foreldra, verði heilsuleysingjar og lítt að manni, eða hvorutveggja. Það sýndist vera svo með syni Ara, sem hann átti með fyrri konu sinn, Maríu en dæturnar urðu skörungar miklir, og vel að sér um marga hluti, en nokkuð stórlyndar. Meðal afkomenda Þorkels, föður föður Guðrúnar, móður minnar, var Jón Sigurðsson á Gautlöndum, Kristján skáld, Valdimar Ásmundsson og margt fleira fólk í Suður-Þingeyjarsýslu.

Þegar eg var ungur, heyrði eg haft á orði, að Ari á Skútustöðum hefði verið launsonur Skúla fóegta, en ekki vildi Guðrún, amma mín láta tala mikið um það, og held eg, að henni hafi fundist það gera blett á ætt sína; sagðist að vísu hafa heyrt eitthvað um það. Ari prestur á Tjörn, hafði látið systur sína fara vestur í Skagafjörð til Ara læknis, til lækninga, þá var Skúli Magnússon sýslumaður í Skagafirði. Komust þá kunnugleikar á með Skúla og henni; varð hún þunguð af hans völdum. Fékk hann þá Ólaf á Sjávarborg til að kvongast henni, svo ekki yrðu þar sifjarspjöll; þar var Ari fæddur. Ólafur þessi var vel að efnum búinn, þó hann eigi væri mikilmenni kallaður. Hann átti Sjávarborg og skifti henni fyrir Skútustaði við Mývatn, eftir ráðum konu sinnar, sem vildi komast norður í Þingeyjarsýslu, þar sem ættmenn hennar voru og höfðu búið.

Eg held Ólafur hafi ekki orðið gamall, því ekkert gat amma mín munað eftir að faðir sinn talaði um hann, nema það, að hann hefði einu sinni setið með sig grátandi. Grátsefnið vissi Ari ekki; hann var svo ungur.

Oddur Benediktsson, föður faðir minn frá Finnstöðum í Köldukinn, bjó fyrst á Granastöðum í sömu sveit, síðan á Hóli í mörg ár, og var nokkurn tíma hreppstjóri í Ljósavatnshreppi. Sigurður sonur hans var einbyrni, bjó hann fyrst á Hálsi í sömu sveit, og þar dó Oddur 1831. Þótti jafnan góður búhöldur og sannur reglumaður, þar deyði líka kona hans, tveim árum síðar; greind og búkona hin besta.

Vigfús, móðurfaðir minn, bjó fyrst í Prestshvammi í Aðal-Reykjadal, þar næst á Þverá í Reykjahverfi, fá ár; eftir það í Vík á Flateyjardal 6 ár, svo á Eyri í sömu sveit, þaðan flutti hann í Kinnina að Syðri-Leikskála, og svo að Hálsi; bjó þar nokkur ár, þangað til hann flutti að Syðra

Fjalli í Reykjadal, og þar andaðist hann sextugur að aldri. Hann þótti ávalt lipurmenni til sálar og líkama og drengur góður. Guðrún, kona hans, lifði eftir hann í mörg ár. Dó sumarið 1845 úr mislingum um sjötugt í Kaupangi í Eyjafirði, hjá Guðrúnu dóttur sinni.

Eg ólst upp hjá foreldrum mínum; var fermdur á 14. ári; var einungis eitt ár í burtu; fluttist svo með þeim árið 1845 að Kaupangi í Eyjafirði, og var þar hjá þeim, þangað til 1849, að eg fór til Gríms Laxdal á Akureyri, að æfa mig í bókbandsiðn, lærði líka nokkuð til bókbands af Erlendi bókbindara Ólafssyni. Hjá Laxdal var eg í tvö ár, sem aldrei skyldi verið hafa.

Eftir það fór eg aftur heim til foreldra minna, til heimilis. Eg vann að kaupavinnu eitt sumar, en að bókbandi aðra tíma ársins.

Árið 1852, lét faðir minn af búskap vegna heilsubrests. Tók eg þá við búsforráðum með móður minni í Kaupangi eitt ár. Svo fluttust við að Brekku í sömu sveit og bjuggum þar fjögur ár við allgóð efni.

Auk mín voru börn foreldra minna þessi: Benedikt, síðar veitingamaður á Vopnafirði; Guðrún, síðar gift Finnboga Erlendssyni, bjuggu lengst af í Haganesi við Mývatn; Oddur, bjó fyrst ókvæntur á Jarlsstöðum í Bárðardal, kvæntist síðan Sigríði Gunnlaugsdóttur, systur Eggerts Gunnlaugssonar, bónda í Húsey í Skagafirði, síðar einn af frumbyggjum Nýja-Íslands; þau bjuggu á Hrappsstaðaseli og áttu nokkur börn; þar andaðist Oddur; Baldvin hómopati, átti Guðnýju Jónsdóttur Jóakimssonar hreppsstjóra á Þverá í Laxárdal; er á lífi þegar þetta er ritað 1899.

Um vorið 1856, samdist svo með fjölskyldunni, að slá botninn í búskapinn á Brekku. Mér fanst eg laus og liðugur ekkert hafa með búskap að gera. Hafði orðið fyrir vonbrigðum, sem mér féll þungt. Fann, að mér var betra að leggja enga ábyrgð á búskap á mig fyrst um sinn. Búið var selt við uppboð síðar um vorið. Foreldrar mínir fluttu þá norður í Bárðardal, og fengu sér húsmenskuvist í Svartárkoti hjá Sigurgeir Bónda Pálssyni og Vigdísi Halldórsdóttur. Þar var áður kominn í vist Baldvin sonur þeirra, sem var yngstur okkar bræðranna; en Oddur fór að Stóruvöllum, til Jóns söðlasmiðs Benediktssonar.

Við hin systkinin þrjú fórum frá Brekku til Akureyrar.

Eg keypti þar hús til íbúðar, og hafði Guðrúnu systur mína fyrir bústýru. En Benedikt fór til séra Sveinbjarnar Hallgrímssonar, sem þá var þar og þjónaði fyrr séra Hallgrím Thorlacíus Hrafnagils prestakalli.

Ekki varð samt vera mín löng á Akureyri, og hafði eg þó nóg að starfa þar, bæði við bókasölu og bókband. Eg undi þar ekki lengur en til næsta hausts. Sigldi þá til Kaupmannahafnar, til að læra sjómannafræði; var í verunni meira gefin fyrir sjómensku en landvinnu. Eg hafði þessi ár eftir að eg kom í Eyjafjörðinn stundað fiskiveiðar haust og vor, fyrst háseti og síðar formaður, og heppnaðist heldur vel. Kom mér nú til hugar að prófa hákarlaveiðarnar, því um þær mundir höfðu flestir af þeim mikinn arð, þeir sem þær stunduðu á þilbátum; en heldur þótti skorur á formönnum, sem töluvert vissu inn í sjómannafræði, og því síður, að nokkur gæti kent þessháttar á Norðurlandi. Þeir, sem nokkuð vildu nema í slíku, urðu annaðhvort að sigla til Danmerkur, eða að fara vestur á Ísafjörð, og nema þar hjá Torfa nokkrum. Nokkrir af kunningjum mínum vildu fá mig til að læra stýrimannafræði, til að geta kent hana öðrum síðar, en af því varð nú ekki.

Þegar eg kom til Kaupmannahafnar voru þar þrír landar aðrir þar komnir, sem ætluðu að læra sjómensku um veturinn, allir af Norðurlandi: Jón Loftsson, frá Grenivík, Stefán Hjörleifsson frá Skinnastað og Jón nokkur frá Reynistað. Kom þá upp sá kvittur, að nýlega væri búið að breyta stýrimannaskóla löggjöfinni, þannig, að nú þyrfti að læra helmingi meira en áður, ef menn ættu að taka próf, annars fengju menn ekki að fara með skip milli landa. Áður gátu flestir lært það, sem þurfti, á sex mánuðum, en nú mundi ekki veita af 12 mánaða tíma. En jafnframt vorum við huggaðir með því, að við gætum verið formenn við fiskiveiðar kring um Ísland, þó við tækjum ekkert próf. Svo vorum við á stýrimannaskóla í Höfn um veturinn, og fórum um vorið án prófs. Hafði eg lítinn gróða af þeirri ferð, heldur tapaði öllu mínu í kostnað, og svo var líka stolið frá mér 100 dölum um veturinn úr læstu kofforti í herbergi því, er eg leigði, svo eg mátti til að fá peningalán í skarðið. Þjófurinn náðist, en ekkert af honum að hafa. Hann stal líka fötum frá félögum mínum, sem höfðust við í næstu herbergjum, og þeim skilaði hann aftur, en peningunum hefir hann annað hvort verið búinn að eyða eða

getað skotið þeim undan, áður en hann náðist heima hjá sér suður á Prússlandi. Honum veittist svo létt að ná þessu, því hann var húsmaður á sama hóteli og þessir Íslendingar, sem hann stal frá. Húsbóndinn eða vertinn hafði skotið skjóli yfir hann, soltinn og vinnulausan flæking sunnan af Þýzkalandi, með þeim skilmála, að hann málaði innan húsið, lítið eitt hér og hvar, og fengi mat og húsnæði, meðan hann væri að því.

Jón Loftsson keypti 16 lesta jakt þar um vorið og bjó hana út að öllu sem bezt, og kostaði talsverðu til aðgerðar á henni, 300 dölum, því eg er hræddur um að hún hafi verið farin að eldast; og svo loks, þegar hún að öllu leyti var tibúin með rá og reiða, fékk hann farm á hana hjá kaupmanniTog til Siglufjarðar. Samt mátti Jón ekki vera aðalformaður, af því hann hafði ekki tekið próf, varð því að fá sér danskan skipstjóra, sem Hansen hét. Svo hafði hann matrós, Petersen, og svo vorum við Stefán Hjörleifsson með sem farþegjar. En hinn síðarnefndi veiktist á leiðinni, svo ekki voru eftir það nema tveir menn á vakt. Samt gekk ferðin vel og greiðlega; við komum til Siglufjarðar eftir 14 daga útivist. Var þar hið mesta af vörunum lagt upp, nema lítill hluti, sem átti að fara til Guðmannsverzlunar á Akureyri, og fluttur þangað.

Eftir að hafa uppskipað þessum vörum á Akureyri, sigldi Jón hið hraðasta norður á Grenivík, og tók þegar að búast í hákarlaveiðarnar. Hafði hann svo hraðan á, að hann var lagður út fyrir dægri áður en eg, félagi hans, kom til skips eftir umtali. En ekki varð Jóni aflasæl sú ferðin, né aðrar það sumar eða önnur, eftir að hann tók að halda út jakt þessari, en hann var þó góður aflamaður áður.

Ekki leið langur tími áður en eg fékk skiprúm hjá Jóhannesi Guðmundssyni bónda í Ólafsfirði. Guðmundur faðir Jóhannesar var vanalega kallaður sýslu Guðmundur, bjó lengi á Akureyri. Jóhannes þessi fékk mig sem stýrimann, til að rata fyrir sig um sjóinn, sjálfur var hann formaður, og gekk það alt greiðlega og vel um ferðir okkar, þó hann væri kallaður stórlyndur; skildum við sem vinir um haustið, öfluðum lítið um sumarið.

Eg tók mér bólfestu á Akureyri um haustið og fékst við bókband um veturinn. Næsta vor réðist eg sem stýrimaður hjá skipstjóra Jóhannesi Sigurðssyni, sem var fyrir Fofnir það ár. Aflaðist allvel í fyrstu ferðinni, en lítið

eftir það. Varð eg þá svo leiður á hákarlaveiðar úthaldinu, að eg lagði ekki út í það framar, hafði heldur ekki nógu sterka heilsu til þess.

Veturinn 1858—59, "vonda veturinn", sem sumir kölluðu, hafði eg húsnæði hjá Steini járnsmið. Kendi eg Friðbirni syni hans bókband um veturinn, og varð hann útskrifaður um vorið.

Bókbandsiðnin var nú orðin aðal atvinna, er eg stundaði um tíma. Þegar eg áður var á Brekku í Kaupangssveit kenli eg bókbandsiðn Sigfúsi Jónassyni Bergmann, þá verandi í Tungu á Svalbarðsströnd, nú verandi á Garðar í Norður Dakota, og Jónasi á Úlfá í Eyjafirði, er síðar bjó alllengi á Tunguhálsi, er var góður læknir; hann druknaði í Djúpadalsá 1897, þá til heimilis á Hrafnagili hjá syni sínum, séra Jónasi.

Vorið 1859 fór eg til Reykjavíkur og var þar vistráðinn ársmaður hjá Agli heitnum Jónssyni bókbindara. Eg festi ekki lengi yndi í höfuðstaðnum, og fór norður aftur næsta ár, 1860. Staðnæmdist eg fyrst á Akureyri lítinn tíma um haustið og á Munkaþverá mánaðartíma, að binda bækur fyrir Jón hreppstjóra Jónsson yngra. Svo fór eg norður í Bárðardal og var nokkurn hluta vetrarins hjá Þorkeli bónda Vernharðssyni að segja tveimum börnum hans til í skrift og reikningi, Jóhanni, sem nú er dómkirkjuprestur í Reykjavík, og Veroniku systur hans, sem nú á heima í Nýja Íslandi. Þorkell faðir þeirra bjó á Víðirkeri í Bárðardal allan sinn búskap og varð þrígiftur; síðasta kona hans hét Þuríður Hansdóttir, frá Syðri-Neslöndum við Mývatn, og var móðir ofangreindra systkina. Aftur síðar var eg Bjarnarstöðum í sömu sveit að segja til börnum Sveins bónda Kristjánssonar og konu hans Hólmfríðar Hansdóttur, systur Þuríðar í Víðirkeri; Sveinn var seinni maður hennar; fyrri maður hennar hét Jón Halldórsson, merkisbóndi á Bjarnarstöðum. Eitt af börnum þeirra, sem nutu tilsagnar minnar á hérgreindu heimili, var Halldór, seinna bankaritari í Reykjavík. Hann var elztur af fyrri börnum Hólmfríðar.

Seinni hluta vetrarins 1861 hélt eg til á Hamri í Laxárdal og tók til aftur að binda bækur fyrir ýmsa, mest fyrir séra Magnús á Grenjaðarstað.

Vorið 1863 fór eg til veru að Arnarvatni við Mývatn og kvongaðist Guðrúnu Jónsdóttur þar um haustið. Hún var dóttir Jóns Tómassonar. Tómas var Jónsson, bjó all-

an sinn búskap á Kálfaströnd í Mývatnssveit og dó þar. Guðrún hét kona Tómasar og var dóttir merkisbóndans Jóns á Mýri í Bárðardal, systir Sigurðar hreppstjóra á Gautlöndum, föður Jóns heitins alþingismanns á Gautlöndum. Móðir Guðrúnar konu minnar hét Guðrún Jósepsdóttir, ættuð úr Kelduhverfi.

Á Arnarvatni, á litlum parti af jörðinni, bjuggum við í fjögur ár og fórum svo vorið 1867 í húsmensku að Kálfaströnd og dvöldum þar þangað til vorið 1872, að við fluttum að Granastöðum í Kinn og bjuggum þar eitt ár.

Til Ameríku fórum við hjónin sumarið 1873, með fyrsta hópnum er fór frá Íslandi til Norður-Ameríku, aðeins fáir menn farnir þangað áður.

Fjölskyldan samanstóð af fimm: við hjónin og þrjú börn okkar: Guðrún átta ára, Sigurður á sjöunda ári og Guðjón tveggja ára.

Á leiðinni vestur yfir hafið réðist svo, að meiri hlutinn af þessum stóra hóp, sem svo var nefndur, færi til Canada, en minni hlutinn til Bandaríkjanna.

Ferðin gekk vel vestur yfir hafið til Quebec, og þangað kom Páll Þorláksson, guðfræðisstúdent sem þá var, til að sækja þá, er til Bandaríkjanna fóru, um 50 að mig minnir. Þessi hópur varð fyrir járnbrautarslysi á leiðinni til Bandaríkjanna, og meiddust margir, en enginn til dauðs af Íslendingum, þó sumir færust af hinum innlendu mönnum.

Canada hópurinn komst farsællega og slysalaust til Toronto í Ontario. Þaðan vorum við flutt til Muskoka, sem var nýlendupláss þar lengst norður í landi, í lítinn bæ, sem nefndur er Rosseau. Þar dvöldum við hinn fyrsta vetur, sem við vorum í Ameríku. En af því þar var lítið um vinnu, fórum við þaðan um vorið til Parry Sound, sem er sögunarmylnubær, 27 mílur norðvestur frá Rosseau. Þar dvöldum við hálft annað ár. Haustið 1875 fórum við til Nýja Íslands með allstórum hóp Íslendinga. Komum þar um veturnætur og urðum að hýrast í tjöldum úti í frosti og fjúki á meðan verið var að koma upp húskofum, sem urðu um 30, og urðu tvær fjölskyldur að hýrast í hverjum, því eldunarvélar voru ekki til nema handa helmingnum. Vatnið lagði óvanalega snemma, og fóru þá nokkrir að reyna að veiða upp um ísinn, en tiltölulega fáir, því flestir voru því óvanir. Eg var einn af þeim, sem

ofurlítið veiddi upp um ísinn þann vetur og varð okkur dálítill styrkur að því.

Um vorið, þegar fólk var sem óðast að veikjast af fæðinu, sem að mestu leyti var flesk og ómalað hveitikorn og sykurlaust te, mistum við Guðjón, yngri drenginn okkar, snemma í marzmánuði, og var hann búinn að liggja frá því um jól; var greindur og efnilegur drengur; varð okkur sá missir þungbær, og var það okkur sjálfum að kenna, því hvorki við hjónin né aðrir, sem höfðu börn og þá sem veikburða voru í fjölskyldu, hefðum átt að fara út í óbygðir það haust, í mjólkurleysið og allar þær þrautir, er við máttum reyna á Gimli þann vetur.

Um vorið, þegar fór að veiðast úr vatninu, varð mér og öðrum góð björg að því.

Í Nýja Íslandi var eg 4½ ár, nam land skamt fyrir sunnan Gimli og nefndi Vigur. Þaðan fór eg til Winnipeg vorið 1880.

Eftir eins og hálfs árs dvöl í Winnipeg flutti eg til Norður Dakota, nam land þrjár mílur suðvestur frá Mountain pósthúsi árið 1881, og nefndi þá jörð mína Ásgarð.

Tveimur árum eftir að eg var fluttur til Dakota, misti eg Sigurð son minn, efnilegan og greindan duglegan mann, kominn undir tvítugt. Var mér það mikill skaði. Mátti berjast á erfiðu landi, heilsulítill einvirki, og hefði ekki mín elskaða kona með frábærum dugnaði hjálpað mér með því að leggja á sig ýmisleg karlmannsverk úti við, og gripahirðingu á vetrum, þá hefði afkoman orðið enn erfiðari en varð. Blessuð veri hún fyrir samveruna.

Mountain sveit, 23. des. 1900.

**Vigfús Sigurðsson.**

Vigfús andaðist að heimili sínu í Mountain-bygð 8, ágúst 1903. Eg, sem hefi gert afskrift af æfisögu hans, þekti hann í Nýja Íslandi fyrst og svo í Winnipeg. . Féll mér vel að tala við hann. Honum er þannig lýst af manni. sem ritaði æfiminning hans: "Vigfús heitinn var vel greindur og var vel að sér í skrift, reikningi og dönsku. Hann var hreinskilinn, vinfastur og hjálpfús, og bar veikindi sín og aðra erfiðleika lífsins með stillingu og jafnaðargeði.

**Árni Oddsson**, fæddur í Hringsdal í Grýtubakkahreppi í Þingeyjarsýslu 1832, dáinn 14. nóvember 1913. Kona Árna hét Guðrún Jónsdóttir, fædd á Hólshúsum í Hrafnagilshreppi í Eyjafirði 1834, dáin 30. marz 1921.



*Árni Oddsson og Guðrún Jónsdóttir.*

Árni flutti vestur um haf til Nýja Íslands 1876, var á Gimli fyrsta veturinn (bóluveturinn). Næsta vor, 1877, flutti hann suður í bygðina, nam land þar sem nú er járnbrautar áningarstöðin Sandy Hook, og nefndi Oddstaði; bjó hann þar þrjú ár. Árið 1880 flutti hann til Winnipeg og var þar þrjú ár; flutti aftur til Nýja Íslands árið 1883, setti heimilisrétt á Vigur og bjó þar til þess hann árið 1910 fór til Baldvins sonar síns að Laufskála og lézt þar.

Árni og Guðrún áttu fimm börn; af þeim lifa tveir synir, Baldvin, er býr á Laufási; kona hans er Elín María, dóttir Gísla Jónssnar frá Njarðvík í Norður-Múlasýslu, er nam landið Setberg í Árnesbygð; kona Gísla, móðir Elínar, er Vilborg Ásmundsdóttir, bónda á Setbergi í Borgarfirði eystra; móðir Vilborgar, kona Ásmundar, var Katrín Benediktsdóttir bónda á Hofströnd í Borgarfirði Gíslasonar í Njarðvík, Halldórssonar prests á Desjarmýri Gíslasonar. Móðir Katrínar, kona Benedikts á Hofströnd, hét Vilborg Guðmundsdóttir, systir Jóns Guðmundssonar, merkisbónda, er bjó í Kelduskógum á Berufjarðarströnd, og Kelduskógaætt er frá komin.

Annar sonur Árna Oddssonar og konu hans, er Oddur, sem býr á Vigur. Kona hans er Guðlaug Björg, dóttir Gísla og Vilborgar, sem áður er getið. Oddur nam land hálfa



*Guðlaug Björg Gísladóttir.*

aðra mílu vestur af Laufskála. Börn þeirra hjóna eru fimm: Guðrún Vilborg, Stefán, Sigurlaugur, Árni Sigurjón, Gísli Einar og Lára Sigurlaug Ágústa.

Baldvin, eldri sonur Árna Oddssonar, er fæddur í Grenivík í Eyjafjarðar sýslu 15. febrúar 1866. Framan af árunum hér í landi var hann með foreldrum sínum í Nýja Íslandi og Winnipeg, vann á þeim tíma hjá ýmsum, í Nýja Íslandi um tíma hjá Skapta Arasyni og Sigurði Kristóferssyni og í Winnipeg vann hann ýmsa vinnu. Seldi þar blöð um tíma. Hann fór ári fyrr en foreldrar hans til Nýja Íslands aftur til að sjá um gripi, sem þau áttu, og var hjá þeim um tíma eftir að þau settust að á



*Baldvin Árnason og Elín María Gísladóttir og börn þeirra.*

Vigur. Eftir að hann fór frá þeim, var hann fram að aldamótum á Gimli og í Selkirk, og í Winnipegosis var hann tvö ár við fiskiveiðar. Á Gimli hafði hann greiðasölu og bygði þar tvö gistihús; það fyrra nefndi hann Baldurshaga og stendur það enn. Á meðan Baldvin var í Selkirk, vann hann á gufubát í 15 ár, fyrst sem skipseigandi i félagi við tvo aðra. Þeir fluttu fólk og vörur til Selkirk í þrjú ár. Síðar var Baldvin skipstjóri á gufubátnum Áróra.

Þegar byrjað var að leggja járnbrautina til Winnipeg Beach, flutti Baldvin þangað og nam 80 ekrur af landi, en gaf þær aftur inn til stjórnarinnar með þeim skilmála, að heimilis landtökuréttur hans væri óskertur. Hann nam svo í annað sinn land og nefndi Systrastaði, eftir tveimur fögrum greniviðartrjám, sem stóðu þétt saman. Það land seldi hann Robinson stórkaupmanni í Selkirk.

Árið 1901 keypti Baldvin af Stefáni O. Eiríkssyni land hans við merkilækinn, flutti þangað og hafði þar gistihús, verzlaði með hesta og nautgripi og tók að sér samningsvinnu fyrir C.P.R. félagið við að hreinsa land fyrir sumarbústaði, og gaf mörgum vinnu. Þar græddist honum fé, þó fyrir miklu tapi yrði líka með köflum.

Þegar C.P.R. félagið var búið að mæla fyrir járnbraut til Gimli, keypti Baldvin átta bæjarlóðir í nánd við þar sem vagnastöðin er, og bygði þar gistihús, sem síðar var nefnt Gimli Hotel. Þar var Baldvin í fjögur ár og hafði mikla aðsókn af gestum. Þegar hann fór þaðan, flutti hann á 80 ekrur af landi, sem hann erfði eftir föður sinn; bæ sinn þar nefndi hann Laufskála. Auk þessara 80 ekra á Baldvin 140 ekrur af landi á Víðirtanganum, sem hann notar til heyskapar.

Eftir fárra ára dvöl á Laufskála, flutti Baldvin ásamt þremur öðrum fjölskyldum út í Mikley, settist að sunnarlega á eyjunni, stundaði þar griparækt og fiskiveiðar í þrjú ár. Flæddi þá vatnið á land upp og gerði búendur útlæga. Flutti þá Baldvin aftur suður að Laufskála og hefir síðan búið þar.

Kona Baldvins er Elín María Gísladóttir frá Njarðvík í Norðurmúlasýslu, sem áður er getið; þau giftust 1897 og eiga son, er Elis Gladstone heitir, er býr félagsbúi með föður sínum á Laufskála, kvæntur Gæfrós Katrínu Árnadóttur, Kristjánssonar frá Geitareyjum, nafnkends gáfumanns. Móðir Gæfrósar heitir Jónína Sigurrós Jónsdótt-

ir. Elis og Gæfrós eiga son, sem heitir Elert Lorne. — Dóttir Baldvins er Petrína, kona Guðjóns Jóhannssonar á Espihóli. Fóstrað hafa þau Baldvin og Elín fjögur börn fyrir aðra; þau eru: Jóhanna Ingibjörg, gift Bessa Péturssyni að Oak View, Man; Elmar Gilbert Guðbjörn, af enskum ættum; Sigtryggur og Elinborg, systurbörn Elínar. Þau eru börn Sveinbjarnar Jónssonar Eiríkssonar frá Lundi í Víðirnesbygð og konu hans Sigþrúðar Gísladóttur, er lézt árið 1917.

Baldvin hefir ferðast víða. Um eitt skeið vann hann fyrir hreyfimyndafélög suður í Bandaríkjum. Vorið 1920 fór hann til Alaska, kynti sér þar alla aðferð, sem höfð er þar við fiskiveðar. Hann er kjarkmður og hefir verið áræðinn í öllum sínum fyrirtækjum.

**Einar Guðmundsson,** ættaður úr Þingeyjarsýslu, fæddur 17. júlí 1834, dáinn 15. október 1906. Kona Einars hét Rannveig Sveinbjarnardóttir, fædd í Klambraseli í Helgastaðahreppi í Þingeyjarsýslu 1836, dáin í Winnipeg 9. september 1922. Hún var tvígift, hét fyrri maður hennar Brynjólfur og bjuggu þau í Fagradal á Hólsfjöll-



*Ranveig Sveinjörnsdóttir, tvö börn hennar og dóttursonur.*

um. Jónas og Brynjólfína hétu börn þeirra. Jónas býr í Winnipegosis, en Brynjólfína er dáin, var gift enskum manni, Cooney að nafni.

Einar og Rannveig bjuggu átta ár í Fagradal, og

fluttu þaðan vestur um haf til Nýja Íslands árið 1876. Einar nam land skamt fyrir sunnan Gimli og nefndi Engimýri, bjó þar nærri tvö ár; til Mikleyjar flutti hann sumarið 1878, nam land vestan á eyjunni og nefndi Fagratún. Þaðan flutti hann vorið 1882 til Winnipeg og bjó þar til þess hann lézt.

Börn þeirra Einars og Rannveigar voru fimm; tvö dóu í Nýja Íslandi, stúlka úr bólunni, sex ára gömul, og piltur, sem Tryggvi hét, dó 1877. Á lífi eru: Karl Goodman, býr í Winnipeg, kvæntur Friðriku Jónsdóttur frá Breiðstöðum í Skagafirði; Jón Tryggvi, býr í Winnipeg, kvæntur Ólöfu Ólafsdóttur frá Espihóli; Albína gift enskum manni, búa í Winnipeg.

**Grímur Einarsson**, Stefánssonar prests Schevings á Presthólum í Þingeyjarsýslu, Lárussonar. Móðir Gríms, kona Einars, hét Ólöf, ættuð af Langanesi. Börn þeirra, auk Gríms, voru Jón bóndi á Hólalandi í Borgarfirði eystra og Hólmfríður, kona Björns Halldórssonar á Úlfsstöðum í Loðmundarfirði, og Kristín, kona Jóns Ögmundssonar yngra frá Bárðarstöðum í Loðmundarfirði.

Grímur var fæddur á Ytra Lóni á Langanesi 15. marz 1830, dáinn 31. ágúst 1907. Hann bjó í nokkur ár í Klausturseli á Jökuldal og á Hákonarstöðum. Þaðan flutti hann öskufallsvorið, 1875, að Strandhöfn í Vopnafirði og þaðan ári seinna (1876) vestur um haf til Nýja Íslands. Hann nam land skamt fyrir sunnan Gimlibæ og nefndi Grímsstaði, bjó þar nærri fjögur ár, en flutti sumarið 1880 suður til Dakota.

Grímur var tvígiftur; fyrri kona hans var Guðrún Þorgrímsdóttir bónda á Hámundarstöðum í Vopnafirði og konu hans Sigríðar Árnadóttur Schevings, Stefánssonar prests á Presthólum. Þorgrímur var Pétursson bónda á Hákonarstöðum Péturssonar, en móðir Sigríðar konu hans, fyrri kona Árna Schevings var dóttir Guðmundar Filippussonar bónda í Húsey í Hróarstungu.

Sonur Gríms og Guðrúnar er Einar, bóndi við Ethridge í Montana, kvæntur Guðrúnu Björnsdóttur Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði.

Síðari kona Gríms var Margrét Samúelsdóttir, systir Alberts og Kristjáns Samúelssona, bænda í Gardarbygð í Norður Dakota. Börn þeirra: Hólmfríður, ekkja eftir Jóhann Gestsson, búsett í Grafton, N. D.; Kristján Al-

bert og Grímur Ágúst, giftur Elízabetu Jónsdóttur Bergmanns, búa í Garðarbygð.

Grímur Einarsson var dugnaðarmaður, búmaður og bjó góðu búi á Íslandi og Vestan hafs.

**Sigurbjörn Bjarnason,** fæddur á Gvöndarstöðum í Staðarhreppi í Skagafjarðarsýslu, 22. september 1860. Foreldrar hans voru Bjarni Guðmundsson og kona hans Sigurlaug Gísladóttir. Þau bjuggu mestallan sinn búskap á Yztagili í Langadal í Húnavatnssýslu og fluttu þaðan að Gvöndarstöðum.

Sigurbjörn fór til Ameríku árið 1888, fór til Nýja Íslands, vann þar hjá ýmsum í nokkur ár, setti svo heimilisrétt á Grímsstaði og býr þar.

**Jakob Espólín,** fæddur í Stærraárskógi í Eyjafjarðarsýslu 1829, dáinn 1913. Faðir hans var Hákon Espólín prestur síðast á Kolfreyjustað í Fáskrúðsfirði, Jónsson sýslumanns Espólíns, fæddur 1769, dáinn 1836. Kona séra Hákonar Espólíns, móðir Jakobs, var Sigríður dóttir Jóns prests hins lærða í Möðrufelli og konu hans Helgu Tómasdóttur prests á Grenjaðarstað Skúlasonar. Kona Jakobs var Rannveig Skúladóttir bónda í Axlarhaga í Skagafjarðarsýslu og konu hans Margrétar Stefánsdóttur. Rannveig dó 1918. Börn þeirra hjóna voru fimm, þrjú dóu ung, tvö á Íslandi en eitt í Nýja Íslandi úr bólunni; þau, sem eftir lifa, eru: Jón Magnús, býr í Húnavatnssýslu, ólst upp hjá vinafólki foreldra sinna og fór ekki til Ameríku; Sigríður, kona Gunnlaugs Vigfússonar Péturssonar lögmanns í Pembina; hann er ættaður frá Hákonastöðum á Jökuldal.

Jakob bjó á Stóra Búrfelli í Húnavatnssýslu; þaðan flutti hann til Ameríku 1874, var í Kinmount í Ontario og þar í grendinni eitt ár, flutti haustið 1875 til Nýja Íslands, var fyrsta veturinn á Gimli, nam land og nefndi Espihól, þar bjó hann fimm ár, en flutti vorið 1881 til Winnipeg, var þar um sumarið, og flutti um haustið til Dakota. Árið 1901 ferðaðist hann til Íslands, hugðist að setjast þar að, en undi sér ekki, hvarf til baka aftur, og dvaldi í Pembina hjá tengdasyni sínum og dóttur þar til hann lézt.

Jakob var hraustmenni og sterkur vel, sem hann átti kyn til, stiltur og hógvær í framkomu.

**Jóhann Árnason,** fæddur í Syðri Villingadal í Eyjafirði 1850, dáinn 13. ágúst 1918. Foreldrar hans voru Árni Pétursson og kona hans Sigþrúður Þorvaldsdóttir; þau bjuggu í Syðri Villingadal.

Jóhann ólst upp hjá foreldrum sínum. Hann giftist 1878 Dorotheu Soffíu Abrahamsdóttur bónda í Hlíðarhaga í Saurbæjarhrepp í Eyjafirði og konu hans Friðriku Kristjönu Jónsdóttur. Abraham var Hallgrímsson bónda í Syðradalsgerði í Saurbæjarhrepp og konu hans Guðrúnar Soffíu.

Jóhann bjó eftir að hann giftist á föðurleifð sinni í Syðri Villingadal 5 ár. Flutti vestur um haf til Nýja Ís-



*Jóhann Árnason og Soffía Abrahamsdóttir, börn þeirra og fóstursonur.*

lands árið 1883, var þrjú ár á Bólstað hjá Jóhanni Jónssyni; flutti að Espihóli árið 1886, setti heimilisrétt á landið og bjó þar til dauðadags.

Börn Jóhanns og konu hans voru fjögur; lifa þrjú: Friðrika, kona Þorkels Magnússonar á Grund; Vilhjálmur, býr á Gimli, kvæntur Guðrúnu Björnsdóttur; Guðjón, býr á Espihóli, kvæntur Petrínu dóttur Baldvins Árnasonar á Laufskála. Móðir hennar hét Petrína Arngrímsdóttir Gíslasonar í Sköröum í Húsavíkur hrepp í Þingeyjarsýslu. Kona Arngríms, móðir Petrínu eldri, var Þórunn Hjörleifsdóttir prests á Skinnastaðs Guttormssonar og konu hans Guðlaugar Björnsdóttur prests á Eyðum Vigfússonar.

**Jóhann Vilhjálmur Jónsson,** fæddur á Jódísarstöðum í Öngulstaðahreppi í Staðarbygð í Eyjafirði 6. februar 1851. Faðir hans var Jón Jóhannesson bóndi í Torfufelli í Eyjafirði 20 ár. Síðasta ár sitt á Íslandi bjó hann á Nýjabæ í Austurdal í Skagafirði. Þaðan flutti hann til Ameríku 1874, dó á Gimli snemma árs 1876. Jóhannes faðir Jóns bjó í Melgerði í Saurbæjarsókn í Eyjafirði. Kona Jóns Jóhannessonar og móðir Jóhanns hét Bergþóra, fædd 28. ágúst 1821, dáin 9. nóvember 1905; hún var Sigurðardóttir bónda í Gröf í Kaupangssveit í Eyjafirði, Randverssonar bónda á Leyningi í Eyjafirði. Móðir Bergþóru, kona Sigurðar í Gröf, hét Guðrún Sigurðardóttir.

Bræður Jóhanns voru fjórir, fluttust allir vestur um haf: Sigurður, sem bjó mörg ár fyrir norðan Mountain, N. Dak., átti Sigríði Brynjólfsdóttur frá Skeggjastöðum í Húnavatnssýslu; Sigurgeir, Bergþór og Jón.

Jóhann giftist 15. maí 1874 Sigríði Ólafsdóttur smiðs og bónda á Gilsá í Saurbæjarsókn í Eyjafirði, Einarssonar bónda í Samkomugerði í Grundarsókn og konu hans Sigríðar Einarsdóttur. Kona Ólafs á Gilsá, móðir Sigríðar konu Jóhanns, var Una Jónsdóttir bónda í Litladal í Miklagarðssókn og konu hans Sigríðar Jónsdóttur.

Jóhann flutti með foreldrum sínum til Ameríku árið 1874, var í bænum Kinmount í Ontario einn vetur, vann á járnbraut. Næsta vor, 1875, leigði Jón faðir Jóhanns land sex mílur norður af Kinmount. Leigugjaldið var 40 dollarar um árið. Á landinu voru góðar byggingar og 70 ekrur ruddar. Þangað fluttu Jóhann og foreldrar hans um sumarið. Líka voru þar til heimilis um sumarið tveir af frumbyggjum Nýja Íslands, Sigurður Jónsson, er nam Fögruvelli, og Helgi Sigurðsson, er nam land sem nefnt var Helgastaðir.

Jóhann sáði þarna um vorið í tvær ekrur baunum, og faðir hans í sex ekrur höfrum, líka ræktuðu þeir mikið af kartöflum. Keyptu þeir þrjár kýr til búsins, og leit út fyrir að þeir mundu hafa góðan hagnað af þessu fyrirtæki, en það varð ekki. Þeir fluttu til Nýja Íslands um haustið og höfðu engan tíma til að selja uppskeru sína áður en lagt var af stað. Gátu þeir að eins selt kýrnar fyrir hálft verð, og nokkuð af ræktuðu heyi.

Jóhanni er í minni æfintýri, sem kom fyrir á ferðinni frá Winnipeg til Gimli. Þegar komið var nærri norður að lítilli eyju, sem er skamt fyrir sunnan Víðirtangann,

rákst á gufubátinn Colville einn flutningsbáturinn, svo stórt gat kom á hann og vatnið fossaði inn, en báturinn fullur af fólki og farangri. Nú voru góð og fljót ráð dýr. Varð þá Friðjón Friðriksson snarráður, hann lét taka sæng og troða í gatið, og lét menn setjast á sængina; og þetta hindraði vatnið að streyma inn á meðan verið var að tæma bátinn.

Jóhann var á Gimli fyrsta vetur sinn í Nýja Íslandi. Hann nam land tvær mílur suður af Gimli og nefndi Bólstað, og flutti þangað um vorið. Hann ruddi nær ekru og bjó vel undir sáningu með því að höggva upp jörðina með jarðöxi, sáði þar hveiti; það spratt vel. En kýr Austfirðinga gengu yfir akurinn og gerðu miklar skemdir, þann 24. ágúst þegar verið var að reka þær norður að Gimli. Samt fékk Jóhann af blettinum ofurlitla uppskeru; barði úr hýðinu kornið og malaði í stórri kaffikvörn.

Sumarið hið fyrsta, sem Jóhann var í Nýja Íslandi (1876), fór hann suður til Manitoba að fá sér vinnu, fékk vinnu hjá bónda er bjó sex mílur norður af Stoney Mountain, fyrir 20 dollara um mánuðinn. Jóhann vann þar 5 vikur, en bóndi gat þá ekki borgað honum af því engisprettur höfðu gert honum mikið tjón hin undanförnu ár. Næsta sumar fékk hann hjá bónda tvævetrann uxa, og þótti Jóhanni biðin eftir kaupinu hafa borgað sig vel. Það sumar 1877, vann hann skamt frá þessum bónda, hjá bróður hans í 5 vikur, fyrir 25 dollara um mánuðinn, það kaup fekk hann borgað í vörum.

Jóhann bjó á Bólstað 27 ár. Flutti árið 1903 á land, sem hann nam vestar í bygðinni og nefndi Breiðabólstað, var alfluttur þangað 10. júlí.

Sjö börn eignuðustu hjónin; þrjú lifa: Jón Ólafur, fæddur í tjaldi á Víðir-tanganum 9. nóvember 1875; sá fyrsti Íslendingur fæddur í Nýja Íslandi; býr á Bólstað, kvæntur Oddfríði Sveinsdóttur Magnússonar, Sigurpálmi, býr á Breiðabólstað, kvæntur Önnu Jóhannesdóttur frá Dagverðarnesi; María, gift Sigurði Einarssyni frá Auðnum, búa á landi skamt fyrir norðan Breiðabólstað.

Jóhann og Sigríður eru góð hjón, bæði rík af því sem sælt er að vera ríkur af; það er kærleikurinn.

**Sigurður Jónsson**, fæddur á Draflastöðum í Saurbæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu, 29. apríl 1852. Foreldrar

voru Jón Bjarnason og Rannveig Sigurðardóttir. Kona Sigurðar heitir Þóra Hannesdóttir, Jóhannssonar.

Sigurður flutti til Ameríku 1874; var eitt ár í Ontario, fór haustið 1875 til Nýja Íslands; nam land og nefndi Fögruvelliö Flutti þaðan áríð 1886 til Þingvallabygðarinnar í Saskatchewan.

**Ólafur Jónasson,** ættaður úr Þingeyjarsýslu. Flutti til Ameríku 1876; fór til Nýja Íslands, nam land í Víðir nesbygð og nefndi Melstað. Flutti þaðan sumarið 1881 til Dakota.

**Jósep Sigurðsson,** fæddur á Dvergstöðum í Eyjafjarðarsýslu, 17. desember 1842, dáinn 15. febrúar 1915. Foreldrar hans voru Sigurður Sigurðsson og kona hans Guðrún Guðmundsdóttir. Þau bjuggu á Öxnafellskoti í Saurbæjarhreppi í sömu sýslu og á Dvergstöðum. Bæði voru þau ættuð úr Eyjafirði.

Jósep ólst upp hjá foreldum sínum. Þann 20. október 1872 giftist hann Arnbjörgu Jónsdóttur, Jónssonar, og konu hans, Helgu Eyjólfsdóttur; þau bjuggu á Brita á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu.



*Jósep Sigurðsson.*

Jósep flutti frá Stekkjarflöt, bæ sem er skamt frá Möðruvöllum, og sagt er að Guðmundur ríki hefði haft þar stekk, til Ameríku 1876. Hann settist að í Árnesbygð, nam þar llandog nefndi Skógarströnd; bjó þar fjögur ár; flutti að Melstað áríð 1880 og setti heimilisrétt á landið og bjó þar til dauðadags.

Börn hjónanna voru 11, lifa sex: Hólmfríður, Jón, býr á Gimli, kvæntur Önnu Erlendsdóttur frá Hálandi í Geysirbygð; Sigrún, gift Guðmundi Gíslasyni bónda á Gilsbakka í Geysirbygð; Jósepína, gift Jóni Björnssyni bónda á Birkinesi í Víðirnesbygð; Óli, býr á Melstað, kvæntur Rósu Gísladóttur, Tómassonar, Sigmundur.

**Jakob Sigurðsson Eyfjörð,** fæddur á Brekku í Kaupangsveit í Eyjafjarðarsýslu 16. febrúar 1827, dáinn 20.

janúar 1921. Faðir hans var Sigurður bóndi á Brekku, Jónsson bónda á Torfastöðum í Fnjóskadal. Móðir Jakobs kona Sigurðar hét Guðrún Helgadóttir, bónda á Draflastöðum í Fnjóskadal.

Jakob ólst upp hjá foreldrum sínum, til þess hann var 13 ára gamall. Þá dó faðir hans. Jakob var eftir það í Fnjóskadalnum og Eyjafirði, til þess hann var fullorðinn. Fór hann þá austur í Norður-Múlasýslu til séra Þorgríms Arnórssonar í Hofteigi á Jökuldal, og var hjá honum 5 ár og 4 hjá Sigurði Jónssyni óðalsbónda í Möðrudal.

Árið 1857 giftist Jakob Guðlaugu Benediktsdóttur frá Þórustöðum á Svalbarðsströnd. Hún var fædd 1834, dáin 20 febrúar 1908.

Jakob bjó á Öngulsstöðum í Öngulsstaðahreppi í Eyjafjarðarsýslu, og Kristnesi í sama hreppi í 16 ár. Flutti til Ameríku 1873, var tvö ár í Ontario; var meiri part tímans í bænum Parry Sound. Bygði sér þar hús, sem kostaði hann nærri 400 dollara. Honum varð gott til með að fá vinnu meðan hann var í Ontario.

Haustið 1875 flutti Jakob til Nýja Íslands; var fyrsta veturinn þar á Gimli; nam land um það mílu suður af Gimli. Hugði að nefna bæ sinn Kristnes, ef hann dveldi þar áfram, en það varð ekki. Hann flutti á landið vorið 1876, og þaðan eftir tvö ár 1878, til Winnipeg. Bygði sér hús á Notre Dame stræti, skamt fyrir austan aðalstrætið, bjó þar til þess að áliðnum vetri 1881, að hann flutti til Dakota.

**Jón Sigurðsson,** fæddur 20. oktober 1869. Foreldrar hans voru Sigurður Guðlaugsson, er nam Ölduland, og Anna Jónsdóttir, ættuð úr Húnavatnssýslu.

Jón var missiris gamall tekinn í fóstur af föðurbróður sínum, Pálma Guðlaugssyni og konu hans Sigríði Jónsdóttur; þau bjuggu á Bergstöðum í Vindhælishreppi í Húnavatnssýslu. Fóstri Jóns dó, þegar hann var 11 ára gamall, var hann eftir það hjá fóstru sinni, til þess hann var 14 ára gamall, fór þá að vinna fyrir sér, var í vinnumensku í Húnavatnssýslu, þar til hann fór til Ameríku árið 1888. Hann fór til Nýja Íslands; árið 1891 setti hann heimilisrétt á land það sem Jakob Eyfjörð hafði numið; Jón nefndi það Bergstaði, bjó þar 10 ár. Árið 1903 flutti hann til Selkirk, og hefur síðan búið þar.

Kona Jóns, er Anna Ólafsdóttir Ólafssonar bónda á

Keldulandi á Skagaströnd og konu hans Guðríðar Einarsdóttur, Böðvarssonar, bónda á Breiðstöðum í Sauðárhreppi í Skagafjarðarsýslu.




*Jón Sigurðsson og Anna Ólafsdóttir*

Jón og Anna giftust 1895; þau eiga 5 börn: Ólafur Jón, Sigríður, Pálmi, Björn Stefán, Guðríður Liljurós.

**Sigurgeir Björnsson,** fæddur á Geitafelli í Reykjahverfi í Suður-Þingeyjarsýslu 20. september 1848, dáinn 25. ágúst 1920. Faðir hans var Björn bóndi í Presthvammi í Þingeyjarsýslu, Björnsson bónda á Öndólfsstöðum í sömu sýslu, Einarssonar prests í Reykjahlíðar og Skútustaðasókn, Hjaltasonar, og konu hans Ólafar Jónsdóttur, systur Benedikts Gröndals eldra, skáldsins, og séra Þórarins í Múla, og Guðmundar föður séra Jóns á Hjaltastað í Norður-Múlasýslu. Kona Björns á Öndúlfsstöðum, móðir Björns í Presthvammi, hét Þóra Jónsdóttir, ættuð úr Reykjadal. Kona Björns í Presthvammi, móðir Sigurgeirs hét Bóthildur Jónsdóttir bónda á Arnarvatni við Mývatn, Jónssonar bónda á Geirastöðum við Mývatn. Kona Jóns á Arnarvatni, móðir Bóthildar, var Sigríður María Sigurðardóttir, systir Jóns alþingismanns á Gautlöndum.

Sigurgeir var tekinn í fóstur viku gamall af móður foreldrum sínum, Jóni og Sigríði á Arnarvatni, þau dóu

þegar hann var um fermingar aldur. Fór hann þá til Guðna Jónssonar, móðurbróður síns, sem líka bjó á Arnarvatni og var hjá honum til þess Guðni dó. Kona Guðna var Guðfinna Jóhannesdóttir bónda á Stórulaugum, systir Oddnýjar konu Magnúsar Jónssonar, er nam landið Fjón í Víðirnesbygð (sjá hér að framan). Guðfinna var fædd á Tjörn í Aðal-Reykjadal 2. september 1842.

Eftir lát Guðna, tók Sigurgeir við búsforráðum hjá Guðfinnu, þau fluttu austur að Haga í Vopnafirði vorið 1871, og giftust þar 12. júlí sama ár; þau bjuggu í Haga 5 ár. Fluttu til Ameríku 1876, fóru til Nýja Íslands og





*Sigurgeir Bjornsson og Guðfinna Jóhannesdóttir.*

voru fyrsta veturinn þar á Gimli. Sigurgeir nam land og nefndi Grund; bjó þar rúm þrjú ár. Flutti til Dakota 1880.

Dóttir Guðfinnu og Guðna, fyrri manns hennar, var Petrína, kona Jóns Þorlákssonar frá Stórutjörnum. Hún dó 9. janúar 1912. Börn Sigurgeirs og Guðfinnu voru 10 á lífi eru fjögur: Jóhannes prófessor M. A. við Vermillion háskólann í Suður Dakota; Aurora Ingibjörg; Friðrika Bothildur, kona séra Kristins K. Ólafssonar, Mountain, N. D.; Aðalsteinn gullsmiður í Devils Lake, N. Dak., kvæntur hérlendri konu.

Sigurgeir var fjörmaður og vaskur glímumaður. Hann stundaði silungsveiðar á Mývatni í æsku. Eg man að mér

þótti hann fimur að taka veiðivakir á Winnipegvatni vorið 1877. Hann og fleiri, sem eg þekti á fyrstu árum mínum hér í landi, æfðu á Mývatnsís ýmsa fimleiki og glímur og létu ei bugast af köldum vindblæstri né hörðu frosti.

Guðfinna, kona Sigurgeirs, er greind og minnug vel.

**Sigvaldi Jóhannesson,** fæddur á Sölvanesi í Skagafirði 8. október 1848. Foreldrar hans voru Jóhannes Einarsson og Guðrún Ólafsdóttir. Móðir hennar hét Guðrún, systir Einars á Mælifelli.

Fjögra ára gamall fluttist Sigvaldi með foreldrum sínum að Gröf á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, og ólst þar upp til fullorðins ára.

Haustið 1878, giftist Sigvaldi Ingibjörgu Steinunni Magnúsdóttur. Foreldrar hennar hétu Magnús Ísleifsson og Oddbjörg Oddsdóttir.

Árið 1883, flutti Sigvaldi og Ingibjörg frá Víðidalstungu í Víðidal til Ameríku. Þau fóru til Dakota og voru komin þangað 18. september. Fluttu næsta vor til Winnipeg, og voru þar til heimilis þar til 17. marz 1885, að þau fluttu til Nýja Íslands; þar settust þau að hjá Sigurði Jónssyni á Fögruvöllum í Víðirnesbygð.

Snemma í nóvember 1887, setti Sigvaldi heimilisrétt á Grund og flutti þangað. Daginn sem hann var að flytja byrjaði að snjóa, og tók þann snjó ekki upp fyr en næsta vor, og var það afar harður vetur.

Sigvaldi bjó á Grund, þar til hann árið 1910 seldi Þorkeli Magnússyni landið, sem þar býr nú. Flutti Sigvaldi þá til Víðir-bygðarinnar, þar sem synir hans þrír voru búsettir. Kom hann sér þar upp heimili, og hefir verið þar síðan.

Börn hjónanna, sem eru á lífi, eru Jóhannes Lindal, giftur Þorbjörgu Davíðsdóttur, ættuð úr Vatnsdal, Húnavatnssýslu; þau búa á heimilisréttar landi í Víðirbygð; Björn Ingvar, giftur Láru Guðnadóttur, frá Þingvalla nýlendunni í Sask., þau búa í Árborg; Ólafur kaupmaður í Battleford, Sask., giftur konu af enskum ættum; Jakob, býr í Víðirbygð, kona hans heitir Unnur Snorradóttir, Jónssonar; Anna býr með foreldrum sínum; Sigurður, giftur Eggertínu Þorleifsdóttir, Sveinssonar, þau búa í Víðirbygð.

Þess skal getið, að bræðurnir Jóhannes, Björn og Jakob, voru fyrstu menn er námu lönd í Víðirbygð.

**Einar Einarsson**, fæddur á Auðnum í Laxárdal í Þingeyjarsýslu, 2. febrúar 1835, dáinn 21. janúar 1921. Foreldrar hans voru Einar Jónsson og kona hans Friðfinna Kristjánsdóttir, þau bjuggu á Auðnum allan sinn búskap. Jón faðir Einars bygði upp bæinn í Reykjahlíð eftir að brann þar og bjó í Reykjahlíð allan sinn búskap.

Einar ólst upp á Auðnum. Árið 1862, giftist hann Guðbjörgu Grímsdóttur, bónda á Oddstöðum á Sléttu á Langanesi. Móðir Guðbjargar hét Helga Bergsdóttir ættuð úr Eyjafirði.





*Einar Einarsson og Guðjörg Grimsdóttir.*

Einar bjó á Hrauni í Helgastaðahreppi í Þingeyjarsýslu 11 ár, og þrjú ár í Klömbru í sömu sveit. Flutti þaðan til Ameríku 1879, settist að í Nýja Íslandi; nam land árið 1889 og nefndi Auðna, og bjó þar til dauðadags.

Af börnum þeirra hjóna eru sex á lífi: Kristján, Friðfinnur, býr á Keldulandi, kvæntur Jakobínu Jóhannsdóttur; Sigurður, á Maríu Jóhannsdóttur frá Bólstað; Ásmundur; Jakobína, kona Guðmundar Fjeldsteðs á Öldulandi; Einar, býr á Auðnum, kvæntur Önnu, Sigríði Jónsdóttur, Péturssonar.

**María Abrahamsdóttir**, frá Hlíðarhaga í Saurbæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu, systir Soffíu ekkju Jóhanns Árnasonar á Espihóli. María og maður hennar, Jón Þórð-

arson, ættaður úr Eyjafirði, fluttust til Ameríku 1883. Jón andaðist á Fögruvöllum í Víðirnesbygð. Eftir lát hans nam María ekkja hans land og nefndi Kelduland. Flútti þaðan til Selkirk, og er nú vestur við haf.

**Kristján Abrahamsson,** bróðir Maríu nam land í nánd við Kelduland og nefndi Reynistað. Flutti þaðan til Pipes-



*Kristján Abrahamsson og dóttir hans.*

ton-bygðarinnar í Sask. Kristján var fæddur í Hlíðarhaga 1853, dáinn í Winnipeg 27. febrúar 1911. Kona hans hét Jakobína Ketilsdóttir, ættuð úr Eyjafirði. Af börnum þeirra er á lífi ein dóttir sem Jóhanna heitir.

**Sigurður Guðlaugsson,** fæddur á Tjörn á Skagaströnd í Húnavatnssýlu 27. júní 1830, dáinn 1914. Guðlaugur Guðlaugsson, faðir han bjó á Tjörn. Sigurður bjó á Ásbúðum í sama hreppi. Flutti þaðan til Ameríku 1875, og fór það ár til Nýja Íslands. Var á Gimli nærri tvö ár; nam land í Árnesbygð og var þar nokkur ár. Nam í annað sinn land í Víðirnesbygð og nefndi Ölduland. Flutti þaðan eftir 5 ár, var síðustu ár æfi sinnar hjá Jósep bónda Sigurðssyni á Melstað og lézt þar.

Kona Sigurðar hét María. Hún og þrjú börn þeirra og systir Sigurðar dóu úr bóluveikinni. Son áttu þau hjón sem Ólafur hét; hann dó ungur.

**Guðmundur Fjeldsted,** fæddur á Hamraendum í Mýrasýslu 1. nóvember 1872. Faðir hans er Þorbergur Fjeldsteð, er lengi hefir búið í Mikley og verið þar vitavörður. Faðir Þorbergs var Andrés Fjeldsted er bjó síðari hluta æfi sinnar á Hvítárvöllum í Borgarfirði. Móðir Guðmundar, kona Þorbergs, var Helga Guðmundsdóttir Jónssonar bónda á Hamraendum og konu hans Guðrúnar Gísladóttur.

Guðmundur ólst upp hjá foreldrum sínum á Hreðavatni í Mýrasýslu og Jörfa í Hnappadalssýslu til þess hann var hálfs 14 ára gamall. Fór hann þá til Ameríku árið 1886. Fylgdist með Hinriki Jónssyni, er síðast á Íslandi var við verzlun í Borgarnesi.

Eftir að Guðmundur kom vestur, vann hann hjá ýmsum, þar til haustið 1887, að hann fór til Mikleyjar og var þar tvö og hálft ár til heimilis hjá föður sínum, er kom að heiman sumarið 1887, og settist að í Mikley.

Árið 1890 fór Guðmundur aftur til Winnipeg og var þar átta ár. Til Nýja Íslands fór hann vorið 1898. Hann vann við skipalendingar bryggjusmíði á Gimli veturinn 1899—1900. Árið 1902 keypti hann Ölduland; hefir síðan búið þar.

Árið 1901 giftist Guðmundur Jakobínu Einarsdóttur frá Auðnum. Börn þeirra eru sjö: Sigtryggur, Andrés, Helga Guðbjörg, Friðrik, Bergur Emil, Guðrún Lovísa Ásgeir.

**Friðrik Abrahamsson,** fæddur á Hólum í Saurbæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu 1. júní 1861. Friðrik er bróðir Soffíu ekkju Jóhanns Árnasonar á Espihóli, sem er getið hér að framan; en bræður hans voru Jón og Kristján Abrahamssynir, sem hér er getið.

Friðrik var á öðru aldursári, þegar faðir hans dó, ólst hann eftir það upp hjá móður sinni. Hann kvæntist 1883 Sigríði Árnadóttur bónda á Espihóli, Þorsteinssonar bónda á Stokkahlöðum í Eyjafirði, Gíslasonar. Árni, faðir Sigríðar var bróðir Dómhildar konu Ólafs Briem timburmeistara á Grund. Móðir Sigríðar, kona Árna á Espihóli, hét Ingibjörg Sigurðardóttir, ættuð úr Skagafirði.

Friðrik bjó á Strjúgsá í Saurbæjarhreppi þrjú ár Flutti til Ameríku 1887, fór til Nýja Íslands og nam land í Víðirnesbygð og nefndi Víðivelli, bjó þar 4 ár. Flutti til Pipeston-bygðarinnar í Saskatchewan og bjó þar til þess

hann árið 1919 flutti til Vatnabygðarinnar í Saskatchewan og býr þar í Leslie-bygðinni.

Börn Friðriks og Sigríðar voru sjö: sonur, sem Abraham hét, lézt 25 ára gamall, þau sem lifa eru Friðrika Þuríður, gift Jóhanni Davíðssyni bónda í Kristnesbygð, Sask.; Valgerður, gift Benedikt Björnssyni, Jósepssonar



*Friðrik Abrahamsson og Sigríður Árnadóttir.*

bónda í Kristnesbygð; Guðjón, býr í Framnesbygð, Man., kvæntur Idah Hjálmarsdóttur; Valdimar Briem, kvæntur Jónasínu Jónasdóttur, Stefánssonar, þau búa á landi því sem Kristnespósthús er á; William Alfred, Elenóra Aðalbjörg; fósturson eiga hjónin sem heitir Haraldur Niels.

**Magnús Narfason,** fæddur í Traðarkoti á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu 1. júní 1853. Foreldrar hans voru Narfi Magnússon, bóndi í Traðarkoti 45 ár, og kona hans Þuríður Snorradóttir, ættuð úr Rangárvallasýslu. Magnús, faðir Narfa, bjó á Litla Hálsi í Grafningi í Árnessýslu og í Grímsnessveit í sömu sýslu.

Magnús ólst upp hjá foreldrum sínum í Traðarkoti og var þar til þess hann fór til Ameríku árið 1886; fór til Nýja Íslands og var þrjú ár á Gimli. Árið 1892 nam hann land tvær mílur fyrir vestan Gimli og nefndi Eiða, bjó þar tvö og hálft ár. Flutti aftur að Gimli, var þar til þess árið 1895 að hann setti heimilisrétt á Víðivelli og flutti

þangað. Fékk skift um land; gaf Eiða inn til stjórnarinnar.

Kona Magnúsar hét Emerientiana Jónsdóttir, bónda í Skammadal í Mýrdal í Vestur-Skaftafellssýslu, og konu hans Guðrúnar Jónsdóttur. Emerientiana var fædd 6. desember 1855, dáin 30. marz 1912. Börn þeirra hjóna voru 5; lifa tveir synir, Guðmundur Narfi og Guðjón Erlendur, hann býr á Víðivöllum, kvæntur Guðrúnu Jökulrósdóttur, Ágúst Ísfelds bónda á Hofi í Víðines-bygð.

**Jónas Jónasson Bergmann**, fæddur á Dalgeirsstöðum í Miðfirði í Húnavatnssýslu 16. september 1829, dáinn 24. apríl 1922. Foreldrar hans voru Jónas Bjarnason og kona hans Ragnhildur Sigfúsdóttir Bergmann.

Foreldrar Jónasar bjuggu á Dalgeirsstöðum og fluttu þaðan að Rófu í Miðfirði og bjuggu þar lengi. Eftir að Jónas giftist bjó hann lengi á sama bæ, flutti til Ameríku 1887, fór til Nýja Íslands og nam land vorið 1887 norðan við Víðirá og nefndi Víðirnes, og bjó þar til þess hann lézt.

Jónas var tvíkvæntur, fyrri kona hans hét Soffía Björnsdóttir. Af 10 börnum þeirra lifa þrír synir: Jónas Bergmann, býr í Winnipeg, og Björn og Guðmundur búa í Geysirbygð.

Síðari kona Jónasar, Kristín Jóhannesdóttir, bónda á Múla í Húnavatnssýslu og konu hans Lilju Guðmundsdóttur. Með henni eignaðist Jónas 10 börn, af þeim lifa 6: Jóhannes, býr í Geysirbygð, kvæntur Lilju Davíðsdóttur, Guðmundur, heima á Íslandi, býr á Reykjum í Miðfirði, Sigfús Bergmann, býr í Víðirnesi, kvæntur Vigdísi Gunnlaugsdóttur, Hinrikssonar; Kristín Lilja, gift Guðmundi Hanssyni bónda í Geysirbygð. Sigríður Salóme, gift enskum manni í Winnipeg; Ásta Marsibil, gift Kristni Lárussyni bónda á Fögruvöllum í Víðirnesbygð.

Jónas Bergmann kvað hafa verið bjartsýnn og blíðlyndur og bezti drengur; var búinn að vera blindur í mörg ár, þegar hann lézt.

**Þorsteinn Sigfússon**, fæddur á Þóroddsstöðum í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu 13. október 1832, dáinn 6. október 1912. Faðir hans var Sigfús Bjarnason hreppstjóri og bóndi á Þóroddstöðum. Kona Sigfúsar og móðir Þorsteins hét Ásta Daníelsdóttir bónda á Skipalóni í Eyjafjarð-

arsýslu. Bróðir Ástu var Þorsteinn dannebrogsmaður og bóndi á Skipalóni.

Þegar Þorsteinn var 5 ára gamall fluttu foreldrar hans að Hvammi í Möðruvallasókn, þar var Þorsteinn með þeim til þess hann var 19 ára. Næst var hann 5 ár á Skipalóni hjá Þorsteini móðurbróður sínum til að læra smíðaiðn. Útskrifaðist eftir þau 5 ár, sem lærður smiður með sveinsbréfi. Fór svo aftur til foreldra sinna að Hvammi, giftist þar Önnu Halldórsdóttur, bónda á Kjarna í Möðruvallasókn. Kona Halldórs og móðir Önnu hét Margrét Flóventsdóttir. Hún var föðursystir Flóvents Jónssonar er nam Skriðuland við Íslendingafljót.

Þorsteinn, eftir að hann giftist, bjó í Hvammi til þess hann árið 1876 flutti vestur um haf til Nýja Íslands, var fyrsta árið í nýlendunni hjá Helga Sigurðssyni frá Vatnsenda í Eyjafirði, er bjó á landi, sem nefndt var Helgastaðir skamt fyrir vestan Víðirnes. Nam þá um haustið, 1876, land og nefndi Hvamm; ætlaði í októbermánuði í félagi við aðra að fara að byggja hús; vildi það þá til, þegar hann var að fella við út í skógi að tré slóst við hann svo hann lærbrotnaði. Af því ekki var hægt að ná til læknis, varð samsetningin ekki upp á það bezta, svo Þorsteinn fékk ekki fullkomna bót á meiðslinu það sem eftir var æfinnar. Hann lá allan veturinn og fram á sumar í rúminu. Nágrannar hans bygðu hús á landi hans, og John Taylor, umboðsmaður, gaf við í gluggakistur og hurðina og fjalir yfir kjallarann. Í september 1877 flutti Þorsteinn að Hvammi og bjó þar til þess hann lézt. Hann var vel gefinn maður, trésmiður góður og vann oft við smíðar hjá nágrönnum sínum við að leggja gólf í hús og ýmislegt fleira, sem hann smíðaði fyrir þá.

Anna kona Þorsteins var fædd 11. nóvember 1837, dó 23. marz 1921. Þau áttu fjögur börn, tvö dóu á barnsaldri á Íslandi; á lífi eru tveir synir, Sigfús Valdimar, býr í Hvammi, og Þorsteinn Davíð, býr einnig í Hvammi; hann er tvígiftur, fyrri konan hét Vilhelmína Jóhannsdóttir Bjerring, síðari konan Lilja Lífmann, fósturdóttir Kristíans Lífmanns, er bjó á Gimli.

Þorsteinn, yngri bróðirinn, nam land í Víðirnesbygð. North-West 1/4 Sec. 31, T. 18, R. 4; hefir nú selt það land.

**Björn Jónsson** Ásmundssonar bónda í Haga í Helgastaðahreppi í Þingeyjarsýslu.

Björn bjó á Íslandi síðast á Sleitustöðum í Hólahreppi í Skagafjarðarsýslu. Þaðan flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands 1876, nam land í Viðirnesbygð skamt fyrir norðan Víðirá og nefndi Víðirás; bjó hann þar fjögur ár, flutti til Dakota árið 1880 og dó í Hallsonbygð haustið 1896.

Kona Björns hét Sigríður, fædd 1838, dáin 1. október 1918. Hún var Þorláksdóttir, bónda á Miðgrund í Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu, Jónssonar, Magnússonar bónda á Hóli í Tungusveit í sömu sýslu. Móðir Þor-



*Sigríður og Björn frá Sleitustöðum og dóttir þeirra.*

láks var Guðrún Konráðsdóttir, hálfsystir Gísla sagnafræðings Konráðssonar. Kona Þorláks á Miðgrund, og móðir Sigríðar, var Sigríður Hannesdóttir prests á Ríp Bjarnasonar.

Börn Björns og Sigríðar, sem á lífi eru: Sigurbjörn bóndi í Mountain-bygð, N. D., kvæntur Helgu Guðmundsdóttur, stjúpsystur Eggerts Jóhannssonar, fyrrum ritstjóra Heimskringlu; Ólína, tvígift, var fyrri maður hennar Egill Gíslasn frá Skarðsá í Staðarhreppi í Skagafjarðarsýslu; síðari maður er Sigurður Andersn járnsmiður, þau búa vestur við haf; Þorlákur, býr í Edinburg, N. D, kvænt-

ur Kristínu Jónsdóttur, ættaðri úr Skagafirði; Gísli Sigurjón, sveitarddviti og bóndi á Stóruökrum í Akrahreppi í Skagafjarðarsýslu, kvæntur Þuríði Jónínu Árnadótttur bónda á Stóruökrum; Sigríður, gift Gunnari Þorbergssyni frá Neshjáleigu í Loðmundarfirði; þau búa að Brown P.O., Man.; Halldór, býr í Blaine, Wash., tvígiftur, fyrri kona hans var Ingibjörg Pétursdóttir Hanssonar, síðari kona heitir Kristín, skagfirzk að ætt; Anna, gift Árna Jóhannssyni frá Steinsstöðum í Skagafirði, búa í Hallson-bygð, N. D. Fjórða dóttir hjónanna hét Sigríður Rannveig, látin fyrir mörgum árum, var tvígift, hét fyrri maður hennar Sigurjón Kristjánsson, bjó í Hallson-bygð, N.D.; síðari maður var Jóhann Þorbergsson, bróðir Gunnars, sem áður er nefndur.

**Bjarni Pálmason,** fæddur á Skálahnjúki í Sauðárhreppi í Skagafjarðarsýslu 10. júlí 1854. Foreldrar hans voru Pálmi Guðmundsson og Sigríður Ólafsdóttir, ættuð úr Skagafirði.



*Anna Eiríksdóttir.*

Bjarni kvæntist árið 1880 Önnu Eiríksdóttur, bónda í nokkur ár í Miklabæ í Óslandshlíð og á Vöglum í Blönduhlíð. Eiríkur var Hjálmsson Eirikssonar bónda á Hamri í Svartárdal í Skagafjarðarsýslu. Kona Hjálms og móðir Eiríks hét Guðrún Rafnsdóttir ; bróðir hennar hét Rafn, kallaður hinn sterki. Kona Eiríks og móðir Önnu, hét Þórunn Bergsdóttir bónda á Rauðalæk í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu.

Eftir að Bjarni giftist, bjó hann fjögur ár í Hvammshlíð í Húnavatnssýslu, var svo um tíma á Sauðárkróki og fór þaðan til Ameríku árið 1887 fór til Nýja Íslands, var fyrsta veturinn í Hvammi hjá Þorsteini Sigfússyni, svo eitt ár á Hólmi hjá Sturlaugi Fjeldsted. Árið 1888 setti hann heimilisrétt á Víðirás og hefir búið þar síðan.

Börn þeirra hjóna voru sex. Á lífi eru fimm: Anna

Þórey, gift Karli Anderson, ættuðum úr Borgarfirði eystra, þau búa í Winnipeg; Þorkell, Ingimar, til heimilis hjá foreldrum sínum; Jón, býr í Riverton, kvæntur Stefaníu Gestsdóttur Oddleifssonar; Guðrún, Sigríður, Pálmi Vilhjálmur.

**Kristján Vilhelm Kernested,** fæddur á Krossanesi við Eyjafjörð 1826, dáinn 23. janúar 1908. Faðir hans var Jón Kernested Þorláksson bónda á Skriðu í Hörgárdal. Kona Jóns og móðir Kristjáns hét Elíná Elíasdóttir.

Kristján ólst upp hjá afa sínum á Skriðu, og byrjaði þar búskap tvítugur að aldri; bjó eitt ár í Saurbæ í



*Kristján Vilhelm Kernesteð.*

Hörgárdal, á Vindheimum á Þelamörk níu ár og átta ár á Hólum í Hjaltadal; þaðan flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands árið 1876. Nam hann þá um haustið land í Víðirnesbygð og nefndi Kjarna; bygði hús 20 fet á lengd og 16 fet á breidd; renglur voru lagðar á bitana fyrir loft. Húsið stendur enn. Í því voru bóluveturinn 18 manns.

Kristján bjó á Kjarna 30 ár. Síðustu tvö ár æfi sinnar var han hjá Páli syni sínum við Narrows, Man., og andaðist þar. Lík hans var flutt til Nýja Íslands eftir hans eigin ráðstöfun og grafið í reit á Kjarnalandi, þar sem tvær konur hans hvíla.

Kristján var þrígiftur. Fyrsta kona hans var Þorbjörg Pálsdóttir prests á Barði í Fljótum og síðar á Bæg-

isá, Árnasonar biskups á Hólum, Þorarinssonar. Kona séra Páls og móðir Þorbjargar var Þórdís dóttir séra Stefáns Schevings Lárussonar á Presthólum. Sonur Kristjáns og Þorbjargar er Páll bóndi við Narrows, sem áður er nefndur.

Önnur kona Kristjáns hét Sigurlaug Sæmundsdóttir. Hún var ekkja, þegar hún giftist Kristjáni, átti þá unga dóttur, Jónínu að nafni, sem ólst upp hjá móður sinni og stjúpa; hún er kona Jóns Júlíusar, er lengi bjó í Winnipeg, en nú er í Selkirk. Börn Kristjáns og Sigurlaugar eru Halldór, bóndi á Kjarna, er síðar verður getið, og Þorbjörg, kona Kristjáns Péturssonar Pálssonar, er lengi bjó í Selkirk, en er nú í Mikley. — Þriðja kona Kristjáns hét Sigríður Kristjánsdóttir; þeim varð ekki barna auðið.

Mannkostum Kristjáns og hæfileikum lýsir Wilhelm Pálsson í æfiminning, sem hann ritaði eftir hann látinn, þannig: "Kristján var mikill hagleiksmaður, listamðaur og íþrótta, langt á undan samtíð sinni, sundmaður og vel æfður í ýmsum öðrum líkamsfimleikum; var vísindamaður við jarðyrkju, og fékst við ýmsar slíkar tilraunir eins og forfeður hans á Skriðu, þar sem enn sjást menjar hinnar fyrstu trjáplöntunar á Íslandi. Hann var vinsæll og velmetinn af öllum, sem þektu hann, en þó mest af öllu fyrir hansljósglöðu lund og viðkvæma hjarta."



*Halldór Kernested og Sigrún Benediktsdóttir.*

**Halldór Kristjánsson Kernested,** fæddur á Hólum í Hjaltadal 16. nóvember 1869. Hann nam land í grend við

Kjarna. Kona hans er Sigrún Benediktsdóttir Arasonar frá Kjálvík. Þau eiga tvo sonu, er heita: Snorri Kernested og Kristján Vilhelm Kernested. Fósturson eiga þau, er Lawrence heitir.

**Þorvaldur Sveinsson**, fæddur á Enni í Viðvíkursveit í Skagafjarðarsýslu 6. janúar 1860. Foreldrar hans voru Sveinn Sveinsson bóndi á Enni, dáinn 1866, og kona hans



*Þorvaldur Sveinsson, kona hans og barn þeirra.*

Anna Soffía Pétursdóttir. Hún andaðist á Steinsstöðum í Víðirnes-bygð árið 1899, 84 ára gömul.

Þorvaldur var 6 ára gamall, þá faðir hans dó; var hann þá tekinn í fóstur af hjónunum Pétri Guðmundssyni og Lilju Sigurðardóttur, er bjuggu á Læk í Viðvíkursveit; hjá þeim var hann til þess hann fór til Ameríku árið 1881. Hann fór til Minnesota og var þar eitt ár, svo sex ár í Winnipeg. Til Nýja Íslands fór hann árið 1888, vann í nokkur ár við fiskiveiðar á vetrum, en á sumrum suður í Dakota hjá skozkum manni fyrir austan St. Thomas, og féll mjög vel við þann mann. Árið 1899 setti hann heimil-

isrétt á land, sem nefnt var Hvarf af manni, sem þar hafði búið áður, Sveinbirni Soffoníassyni; sá nefndi bæ sinn eftir Hvarfi í Svarfaðardal, þar sem hann bjó síðast á Íslandi.

Þorvaldur hefir búið á Hvarfi síðan 1899. Kona hans er Halldóra Guðrún Albertsdóttir frá Steinsstöðum; þau giftust 18. janúar 1896 og eiga sjö börn er heita: Elín Albertína, Lilja Valdína, Pétur Skúli, Albert Valtýr Sveinn, Emil Einar, Anna Soffía, og Theodora Þorsteina. Tvær eldri systurnar hafa verið skólakennarar.

**Albert Þiðriksson,** fæddur á Sviðningi í Kolbeinsdal í Skagafirði 24. október 1845, dáinn 14. febrúar 1916. Faðir hans var Þiðrik Ingimundarson, bóndi á Sviðningi.





*Albert Þiðriksson og Elín Petrína Pétursdóttir.*

Ingimundur faðir hans bjó á Skeiði í Svarfaðardal, keypti jörðina Sviðning, flutti þangað og bjó þar síðari hluta æfi sinnar. Kna Þiðriks á Sviðningi, móðir Alberts, hét Helga Bjarnadóttir, bónda á Mannskapshóli á Höfðaströnd.

Albert ólst upp hjá freldrum sínum til 10 ára aldurs; þá dó móðir hans; var hann eftir það á Reykjum í Hjaltadal átta ár, fór þaðan að Hólum og var þar eitt ár. Hann giftist á Hólum 18. júní 1874 Elínu Petrínu Pétursdóttur, f. 10 október 1851; faðir hennar var Pétur Guðlaugsson bóndi á Miklahóli í Skagafirði, dáinn 16. janúar 1893; Guð-

laugur faðir hans bjó á Bjarnastöðum í Kolbeinsdal, var Jónsson prests á Barði í Fljótum; kona Guðlaugs,, móðir Péturs, hét Sesselja Einarsdóttir prests á Knappstöðum í Fljótum og konu hans Ólafar Steinsdóttur. Móðir Guðlaugs, kona Jóns prests á Barði, hét Guðrún Jónsdóttir. Móðir Elínar, konu Alberts, hét Anna Kristjánsdóttir, var sá Kristján ættaður úr Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Móðir Önnu, konu Kristjáns, hét Ólöf Jónsdóttir, ættuð úr Svarfaðardal.

Albert bjó, eftir að hann giftist, eitt ár á eignarjörð sinni Sviðningi. Þaðan flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands árið 1876. Jörðina gat hann selt fyrir mjög lágt verð, en lánaði ýmsum fargjald, svo peningaeignin var nú lítil, þegar hann kom til Gimli, að eins einn dollar.

Albert var fyrsta veturinn í Nýja Íslandi í húsi hjá Kristjáni Kernested á Kjarna. Í húsinu voru um veturinn 18 manns, sem áður hefir verið getið.

Albert fór um haustið í vegavinnu í suðurparti nýlendunnar, en varð að hætta eftir rúmar tvær vikur af því kona hans veiktist hættulega. Hún komst ekki á fætur fyr en viku fyrir jól, en veiktist aftur á þriðja í Jólum úr bólunni og lá þar til í febrúar.

Vorið 1877 nam Albert land og nefndi Sviðning, bjó þar þrjú og hálft ár, vann meðan hann var þar þrjú sumur hjá Jóni bónda Jónssyni frá Gilsárstekk í Breiðdal; hann bjó í Laufási skamt frá Sviðningi. Jón reyndist Alberti vel, lét hann hafa í kaup 60 cent á dag og tvær máltíðir, og þetta hjálpaði Albert til að koma upp gripum.

Annan veturinn, sem þau hjón voru á Sviðningi, fór Elín upp til Winnipeg að fá sér vinnu. Næga atvinnu var þar efra að fá fyrir kvenfólk, en enga fyrir karlmenn. Hún varð samferða Páli Kernested og Guðmundi Péturssyni, er bjó á landi sem nefnt var Neðrihvammur. Þau óku á uxum, voru þrjá daga á leiðinni. Barn hafði Elín þá á brjósti, sem hún kom í fóstur hjá konu Guðmundar fyrir 4 dollara meðgjöf um mánuðinn.

Eftir nokkurra daga dvöl í Winnipeg fékk Elín vinnu hjá bónda, er Robert Tait hét og bjó 4 mílur fyrir vestan bæinn. Hann ferjaði fólk yfir Rauðá. Kaupið, sem lofað var um mánuðinn, var 7 dollarar. Elín var þar tvo mánuði. Konan vildi að Elín ynni hjá sér til næsta hausts, en það var Elínu ekki hægt að gera; það mislíkaði húsfreyju

og galt Elínu ekki nema þrjá dollara fyrir seinni mánuðinn, en 7 fyrir þann fyrri.

Eftir að Elín fór frá Tait, fékk hún vinnu á Davis House (hótel, sem var að vestan verðu á Aðalstræti Winnibæjar, skamt fyrir sunnan City Hall) fyrir 8 dollara um mánuðinn. Hún var þar þrjá mánuði, fór að þeim tíma liðnum heim.

Þegar útflutningar byrjuðu til Argyle frá Nýja Íslandi var Albert nærri ráðinn í því að flytja þangað; þó varð nú ekki af því. Hann var einn vetur í Laufási, eftir að hann fór frá Sviðningi, og eitt ár á Hólmi. Land nam hann á ný og nefndi Steinstaði, flutti þangað á vortíma 1882 og bjó þar til dauðadags.

Börn Alberts og Elínar voru átta. Eitt dó á fyrsta ári, stúlka sem hét Anna Sigríður, og þrjú dáin fullorðin: Þorsteinn Hillmann, dáinn 1917; Lárus Tryggvi, dáinn 1919; Helga Victoria, gift Andrési Ísfeld á Winnipeg Beach, dáin 1920. Systkinin, sem lifa, eru: Halldóra Guðrún, Gift Þorvaldi Sveinssyni bónda á Hvarfi; Pétur Karl, býr á Steinstöðum, kvæntur Margrétu Jósefsdóttur; Stefán Alex, býr í Selkirk, kvæntur Guðmundu Jósefsdóttur; Þórdís Emilía, gift Eyjólfi Þorkelssyni Eiríkssonar, búa í Selkirk.

Carl J. Olson, sem var prestur Víðinessafnaðar þegar Albert lézt, lýsir honum í æfiminningu, er hann ritaði eftir hann, þannig: "Albert var mesta valmenni í öllu. Má telja honum til gildis flestar þær dygðir, sem helzt prýða mannlegt líf á þessari jörð. En aðal lyndiseinkunn hans var samt trúin á Krist· Hún var ávalt sálarljós hans og leiðarstjarna."

**Erlendur Ólafsson,** fæddur á Ytri Brekkum í Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu 1838, dáinn 15. desember 1921. Faðir hans var Ólafur Jónsson bóndi í Pottagerði í Staðahreppi í sömu sýslu.

Erlendur flutti vestur um haf til Ontario árið 1874, var eitt ár í bænum Kinmount, fór til Nýja Íslands haustið 1875, nam land í Víðinesbygð og nefndi Hólm; þar bjó hann fjögur ár. Árið 1879 flutti hann til Winnipeg, var þar eitt ár, en flutti árið 1880 til Pembina og bjó þar til þess hann lézt.

Erlendur var tvíkvæntur; fyrri kona hans hét Ingibjörg Jóhannesdóttir; sonur hennar og fyrri manns henn-

ar, Bjarna Frímanns, var Andrés Freeman, er lengi bjó í Winnipeg og vann þar á skrifstofu; síðari kona Erlendar, Halldóra Magnúsdóttir, fædd á Kleifarvöllum í Miklaholtshreppi í Snæfellsnessýslu 1853. Börn þeirra fimm eru: Jóhannes, kvæntur hérlendri konu; Ingibjörg, gift Guðmundi Þorgrímssyni, býr í Pembina; Sigrún, gift hérlendum manni; Óli Valdemar, kvæntur hérlendri konu; og Dóra Margrét, Gift hérlendum manni.

**Þorsteinn Jónsson**, fæddur í Holtakoti í Ljósavatnshreppi í Þingeyjarsýslu 21. júní 1850. Faðir hans var Jón bóndi á Hriflu í sama hreppi (dáinn 1885), Þórarinsson bónda á Hriflu.



*Þorsteinn Jónsson og Ingibjörg Einarsdóttir og dótturdóttir hennar.*

Kona Þórarins, móðir Jóns, hét Ingibjörg Kolbeinsdóttir; þau hjón voru ættuð úr Þingeyjarsýslu. Móðir Þorsteins, kona Jóns á Hriflu, var Hólmfríður Aradóttir bónda í Sandvík í Bárðardal og konu hans Hólmfríðar Aradóttur bónda á Skútustöðum Ólafssonar.

Þorsteinn var hjá foreldrum sínum á Hriflu til þess hann var 25 ára gamall. Árið 1875 fór hann austur í Norðurmúlasýslu og var þar vinnumaður í sjö ár, og eitt ár á Eyjólfsstöðum á Völlum í Suðurmúlasýslu. Árið 1883 fór hann að Fjarðarkoti í Mjóafirði til ekkjunnar Ingibjargar Einarsdóttur og giftist henni ári seinna, 17. júlí 1884.

Fyrri maður Ingibjargar var Eiríkur Pálsson Ísfeld; hann druknaði á Mjóafirði 15. desember 1881. Faðir Ingibjargar var Einar bóndi í Firði í Mjóafirði, Halldórsson Pálssonar. Kona Halldórs, móðir Einars, var Þórunn Ólafsdóttir bónda í Húsavík í Borgarfjarðarhreppi eystra, Hallgrímssonar. Móðir Þórunnar, fyrri konu Ólafs í Húsavík, hét Sigþrúður Einarsdóttir bónda á Úlfsstöðum í Loðmundarfirði, Hávarðssonar stóra á Gilsárvelli í Borgarfirði eystra, Magnússonar prests á Desjarmýri, Hávarðssonar. Kona séra Magnúsar og móðirHávarðs var Herborg dóttir Einars digra í Njarðvík, Magnússonar. Kona Einars í Firði og móðir Ingibjargar var Anna Jónsdóttir, Árnasonar bónda á Urriðavatni í Fellum í Norðurmúlasýslu.

Þorsteinn flutti frá Fjarðarkoti til Ameríku árið 1886, settist að í Akrabygð í Norður Dakota og var þar þrjú ár. Árið 1889 flutti hann til Nýja Íslands, setti heimilisrétt á landið Hólm og hefir síðan búið þar.

Sonur Þorsteins og Ingibjargar heitir Ólafur, býr á Hólmi, kvæntur Kristínu Andrésdóttur Skagfield bónda í Shoal Lake bygð og konu hans Steinunnar Þórarinsdóttur.

Þegar Þorsteinn var fluttur til Ameríku tók hann sér auknefni, nefndi sig Mjófjörð, hefir síðan verið þektur með nafninu Þorsteinn Mjófjörð. Hann er vel greindur og bókhneigður, ávalt hress í tali og glaðlyndur. Ólafur sonur hans er vel gefinn maður; hagleiksmaður á hvað sem hann leggur hönd, smíðar hljóðfæri (fiðlur), er hneigður fyrir sönglist og kennir hljóðfærasöng.

**Skapti Arason,** síðast á Íslandi á Hringveri á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. (Sjá sögu hans í Austri til vesturs). Nam land í Víðirnesbygð fyrsta veturinn sem hann var í Nýja Íslandi 1875-76 og nefndi Kjalvík, eftir kjöl af litlu skipi, sem fanst rekinn á land í vík lítilli, er skerst inn í landið. Skapti bjó í Kjalvík 5 ár, flutti til Argyle í marzmánuði 1881.

**Ágúst Ísfeld,** fæddur í Fjarðarkoti í Mjóafirði 31. ágúst 1870. Foreldrar hans voru Eiríkur Pálsson Ísfeld og kona hans Ingibjörg Einarsdóttir, er síðar átti Þorstein Jónsson Mjófjörð, sem áður er getið. Faðir Eiríks var Páll Ísfeld bóndi í mörg ár á Eyvindará í Eiðaþinghá í Suðurmúlasýslu. Faðir Páls var Eyjólfur Ísfeld, nafnkendur maður fyrir fjarsýni, sem honum var gefin líkt og Oddi



*Ágúst Ísfeld.*

biskupi Einarssyni í Skálholti. Ýmsar sagnir hafa verið um að Eyólfur hafi séð ýmislegt, sem skeði í langri fjarlægð við hann. Til dæmis hefi eg heyrt, að hann hafi eitt kvöld sagt: "ekki þessa götu, Páll," og twítók það. Þá var Páll sonur hans í Kaupmannahöfn að læra smíðaiðn. Hann var á heimleið eitt kvöld og orðið mjög dimtAlt í einu gætti hann að því, að hann var ekki á réttum vegi, var kominn á götu, sem lá heim að húsi, sem ekki fór gott orð af; og er feðgarnir fundust og Eyjólfur sagði syni sínum hvað fyrir hann hafði borið, kvað Páll það hefði verið einmitt á sama tíma og hann gætti að því að hann var orðinn viltur á leiðinni heim til sín.



*Olina S. Ólafsdóttir, sonur hennar Einar og systir hennar*

Kona Páls Ísfelds, móðir Eiríks í Fjarðarkoti, var Gróa Eiríksdóttir bónda á Egilsstöðum á Völlum, Jónsson-

ar prests í Vallanesi, Stefánssonar prests í Vallanesi. Pálssonar prests á Valþjófsstað, Högnasonar. Móðir séra Séra Stefáns, kona séra Páls á Valþjófsstað, var Þóra, dóttir Stefáns prófasts í Vallanesi, skáldsins, Ólafssonar. Kona séra Jóns í Vallanesi, móðir Eiríks á Egilsstöðum, var Gróa Eiríksdóttir prests á Kolfreyjustað Einarssonar.

Ágúst var 11 ára gamall, þegar það hörmulega slys skeði, að faðir hans druknaði á Mjóafirði, sem áður er getið. Var hann eftir það með móður sinni og stjúpa til þess hann með þeim og sumum systkinum sínum fluttist til Ameríku 1886. Fjölskyldan settist að í Norður Dakota og var Ágúst þar tvö ár, fór til Nýja Íslands 1888, vann hjá ýmsum fyrstu sumurin sem hann var í Nýja Íslandi; land nam hann stuttu fyrir jól 1889 og nefndi Hof.

Ágúst gekk til Winnipeg til að setja heimilisrétt á landið og fór heim aftur gangandi; þetta voru 104 mílur til og frá. Einar Ísfeld bróðir hans var með honum; þeir voru sólarhring í burtu, stönzuðu í Selkirk og fengu sér hressingu; þeir lögðust til hvíldar í heystakk, en þar eð þeir voru heitir af ganginum sló fljótt að þeim kulda svo þeir gátu ekki sofnað. Ágúst minnist þess, hvað Páll Sigurgeirsson Bardal, er þá hafði harðvöruverzlun í Winnipeg, hjálpaði honum án nokkurrar borgunar að koma í framkvæmd erindi hans á landskrifstofunni.

Landið, sem Ágúst nam, hafði áður verið numið af Þorsteini Jónssyni, eyfirzkum manni. Hann nefndi það Steinkirkju, eftir Steinkirkju í Fnjóskadal.

Á frumbýlingsárunum í Nýja Íslandi var kirkja bygð á suðausturhorninu Hofslandi; þar var grýtt mjög, og af því er sennilegt að frumbyggjanum á landinu hafi þótt vel við eiga að bær hans héti Steinkirkja. Grafreitur var gjörður á landinu, og sést hann enn.

Ágúst keypti kirkjutóftina af stjórninni og bygði yfir hana og bjó í því húsi nokkur ár.

Ágúst giftist 10. febrúar 1892; kona hans heitir Ólína Sigurbjörg, er af dönskum ættum í föðurætt. Faðir hennar heitir Óli Béring, en móðir hennar hét Guðrún Jónatansdóttir. Ólína fluttist með móður sinni til Ameríku árið 1888.

Börn Ágústs og Ólínu voru 13, þrjú eru dáin, en þau sem lifa, eru: Eiríkur Ísfeld, býr í Winnipeg, gekk þar á starfsmálaskóla Business (College), er kvæntur Björgu Hermannsdóttur; Guðrún Jökulrós, gift Guðjóni Erlendi

Narfasyni á Víðivöllum; Lena Ingibjörg, Ólöf Sigurbjörg, Anna Jarðþrúður, Olgeir Hans Trausti, Einar Páll Helgi, Ágúst Victor Oddur, Guðmundur Björgvin Arelíus, Kristinn Jóhannes.

Ágúst er laglega hagyrtur og vel skýr í tali. Fyrstu vísur, sem hann orti, urðu til hjá honum síðasta sumarið, sem hann var á Íslandi, eitt fagurt kvöld, þegar hann var að reka ær heim til mjalta. Sólin var að renna til viðar og skein fagurt. Vísurnar nefndi hann Sólsetur:

*Syngur fuglinn sorgaróð,*
samspil lækur niðar,
er móðir dagsins röðul-rjóð
rennur hægt til viðar.

Jökuls gyllir brjóstin ber
blossi sólar veikur,
*í skýja-falda ofinn er*
aftanroði bleikur.

**Sigurður Kristófersson**, fæddur á Neslöndum við Mývatn 9. júlí 1848, dáinn að Crescent, B.C., á páskadag, 27. marz 1921. Faðir hans var Kristófer Andrésson bóndi á Neslöndum, dáinn á fimtugsaldri 1865. Andrés faðir hans bjó í Márskoti í Aðal-Reykjadal. Kona hans, móðir Kristófers, hét Ólöf, ættuð úr Höfðahverfi.

Móðir Sigurðar, kona Kristófers, hét Sigurveig Sigurðardóttir bónda í Skógum í Reykjahverfi og konu hans Elísabetar, ættaðri úr Þingeyjarsýslu. Sigurveig dó í Argyle nýkomin þangað frá Íslandi árið 1893, var áttræð að aldri.

Sigurður ólst upp hjá foreldrum sínum fram undir fermingaraldur; fór þá í vist til vandalausra. Síðustu ár sín á Íslandi var hann hjá Jóni Jónssyni bónda í Garði við Mývatni. Árið 1873 fór hann til Ameríku; fór frá Húsavík á Seglskipi til Englands. Honum urðu samferða fáeinir Ameríkufarar. Einn af þeim var Sigfús Magnússon frá Grenjaðarstað. Þegar til Ameríku var komið, fór Sigurður til Wisconsin í Bandaríkjunum; var hann þar nærri tvö ár í vinnu hjá bændum; vann líka um tíma í bænum Milwaukee.

Snemma í júlímánuði 1875 komu til Milwaukee frá Ontario þeir Skapti Arason og Kristján Jónsson frá Héðinshöfða; þeir voru á leiðinni vestur til Manitoba að skoða

þar land. Slóst Sigurður þá í för með þeim, sem áður hefir verið getið á landnámsþáttum.

Eftir að búið var að afráða af landskoðunarmönnum að velja vesturströnd Winnipeg-vatns fyrir nýlendu handa Íslendingum, vann Sigurður ásamt þeim Skapta og Kristjáni við C.P.R. járnbrautina í Austur-Selkirk þar til í október að þeir fóru með innflytjendahópnum til Nýja Íslands. Sigurður var á Gimli yfir veturinn, nam land í suðurparti Víðirnesbygðar og nefndi Húsavík; flutti hann þangað vorið 1877, bjó þar fjögur ár og flutti til Argyle-bygðar vorið 1881.

Sigurður kvæntist 22. janúar 1877 Carolínu Taylor, dóttur Williams Taylors, bróður Johns Taylors umboðsmanns. Carolina var fædd 11. maí 1856. Þegar Sigurður giftist, var Nýja Ísland í sóttverði sökum bóluveikinnar, svo Sigurður varð að aka í björtu og köldu Þorraveðri (mánudag fyrstan í Þorra) suður að Nettley læk, þangað sem sóttvörðurinn var, og láta kynblendingaprest framkvæma hjónavígsluna. Brúðhjónin stóðu, meðan á vígslunni, stóð norðan við varðlínuna, en presturinn sunnan við hana.

Börn Sigurðar og Carolinu eru: Jón Sigurður, býr vestur við haf, giftur Valgerði Jónsdóttur Þórðarsonar bónda í Argylebygð; William Kristófer, býr á landi því, sem faðir hans nam í Argyle og nefnt er Grund, kvæntur Kristínu Jónsdóttur frá Höskuldsstöðum í Reykjadal; Halldór, býr í Vancouver, B.C., kvæntur Ragnheiði Sigmundsdóttur frá Hjarðarhaga á Jökuldal; Sigurveig, var mörg ár skólakennari, nú gift Mr. Dawe að Port Essington, B.C.; Súsana, gift Inga Sveinssyni Brynjólfssonar, búa í Winnipeg; Kjartan, býr í Crescent, B.C., og heitir kona hans Guðrún Þorsteinsdóttir. Sjöunda barn hjónanna hét Lilja Sigurborg, dó 10 ára gömul.

Sigurður Kristófersson var afburða fjörmaður. Ruddi sér braut sem hugdjörf hetja gegn um torfærur, á meðan honum entist aldur til.

**Jón Abrahamsson,** fæddur á Nesi í Saurbæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu 14. janúar 1846, dáinn 24. september 1914. Jón var bróðir Kristjáns og Friðriks Abrahamssona, sem getið er hér að framan, og Dorotheu Soffíu, konu Jóhanns Árnasonar á Espihóli.

Kona Jóns var Anna Stefánsdóttir Jónssonar frá Ásláksstöðum í Lögmannshlíð í Glæsibæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Önnu, kona Stefáns, hét Anna Soffía Hallgrímsdóttir.

Jón og Anna giftust 1871, bjuggu fyrst á Hrappstöðum í Lögmannshlíð, svo á Hálsi í Saurbæjarhreppi; þaðan fluttu þau vestur um haf til Nýja Íslands 1883. Jón setti heimilisrétt á Húsavík og bjó þar 9 ár, flutti árið 1892 til Pipestone bygðarinnar í Saskatchewan, en flutti þaðan árið 1911 til Winnipeg og andaðist þar,. Anna kona hans andaðist í Winnipeg 27. október 1915.

Börn þeirra hjóna voru sex; dóu fjögur ung. Fullorðin urðu: Kristín, látin í Winnipeg fyrir nokkrum árum, var gift Guðmundi Gíslasyni trésmið frá Reykjavík; Stefán, til heimilis í Winnipeg.

Jón Abrahamsson var vel gefinn maður, var gefin mjög skýr dómgreind um andleg og veraldleg málefni.

**Guttormur Þorsteinsson,** fæddur í Krossavík í Vopnafirði 24. ágúst 1838, dáinn 16 janúar 1919. Faðir hans var Þorsteinn bóndi í Krossavík, Guðmundsson sýslumanns í Krossavík, Péturssonar sýslumanns á Ketilsstöðum á Völlum, Þorsteinssonar. Móðir Þorsteins í Krossavík, kona Guðmundar sýslumanns, var Þórunn Guttormsdóttir lögsagnara, Hjörleifssonar prófasts á Valþjófsstað, Þórðarsonar. Kona Þorsteins, móðir Guttorms, hét Guðríður, dóttir séra Sigurðar Árnasonar á Hálsi í Fnjóskadal.


*Guttormur Þorsteinsson*

Þorsteinn í Krossavík var afar sterkur maður. Hjörleifur hinn sterki Hafnarbróðir sagði eitt sinn við hann á Vopnafirði: "Þú ert fylginn þér, vezlingur." Sagði það af því honum þótti Þorsteinn taka sterklega á því, sem hann var að vinna að.

Kona Guttorms var Birgitta Jósefsdóttir frá Syðri-Vík í Vopnafirði. Hún var fædd á Siglufirði. Faðir hennar var þar verzlunarstjóri áður en hann flutti til Vopnafjarðar. Guttormur og Birgitta giftust 1870. Hún dó 1904.

Guttormur bjó mörg ár í Krossavík, flutti þaðan til Ameríku 1893, fór til Nýja Íslands og var á Gimli þrjú ár. Árið 1896 keypti hann Húsavík, flutti þangað og bjó þar til dauðadags.

Börn hjónanna voru 10. Á lífi eru: átta: Þorsteinn Jósef, bóndi í Geysirbygð, kvæntur Jóhönnu Jónasdóttur Þorsteinssonar bónda í Djúpadal í Geysirbygð; Stefán, landmælingamaður, býr í Winnipeg, giftur Ragnhildi Gísladóttur Jónssonar bónda við Narrows, Man.; Oddur, býr í Húsavík, kvæntur Guðnýju Hermannsdóttur Hermannssonar og konu hans Snjólaugar Jónsdóttur Eiríkssonar, er bjó á Lundi í Víðirnesbygð og síðar verður getið; Guttormur, prestur í Minneota, kvæntur Rannveigu Gísladóttur Egilssonar bónda í Lögbergs bygð, Sask.; Björn, býr í Winnipeg, kvæntur Helgu Jónsdóttur Kernested lögregluþjóns á Winnipeg Beach og konu hans Svöfu Jónsdóttur; Einar, kvæntur Hólmfríði Jónasdóttur Jóhannessonar, búa að Poplar Park; Guðlaug, kona Skapta bónda í Kjalvík Benediktssonar Arasonar; Björg, til heimilis í Húsavík.

**Benedikt Arason,** fæddur : Stóruvöllum í Bárðardal 14. október 1837, dáinn 5. maí 1923. Bróðir Benedikts var Skapti Arason, er nam landið Kjalvík, og er ætt bræðranna rakin í sögu Skapta (sjá "Austri til Vesturs" bls. 69—70).

Benedikt ólst upp hjá stjúpföður móður sinnar, Benedikt Indriðasyni á Stóruvöllum, til 15 ára aldurs, fór þá til foreldra sinna að Hamri í Laxárdal og var hjá þeim meðan þau lifðu.

Árið 1866 giftist Benedikt Sigurveigu Jónasdóttur, Hún var fædd á Halldórsstöðum í Laxárdal 13. desember 1847. Faðir hennar var Jónas síðast bóndi á Helgastöðum í Reykjadal, Jónsson bónda á Sýrnesi í sömu sveit, Kristjánssonar. Móðir Jónasar, kona Jóns í Sýrnesi, hét Rannveig Jónsdóttir prests á Helgastöðum í Reykjadal. Hún var systir Stefáns umboðsmanns á Skriðuklaustri í Fljótsdal í Norðurmúlasýslu, föður Björns í Dölum í Fáskrúðsfirði, föður séra Stefáns á Hólmum í Reyðarfirði, fyrrum

ritstjóra Lögbergs í Winnipeg. Móðir Sigurveigar hét Sigríður Magnúsdóttir bónda á Halldórsstöðum.

Benedikt og Sigurveig bjuggu átta ár á Hamri í Laxárdal, fluttu þaðan til Vesturheims 1874, voru eitt ár í Kinmount, Ontario, fóru til Nýja Íslands 1875; á Gimli voru þau fyrsta veturinn, en fluttu snemma vorið 1876 með Skapta bróður Benedikts suður að Kjalvík og voru þar eitt ár.

Haustið 1876 ritaði Benedikt bréf til Íslands. Maðurinn, sem bréfið var sent til, lét prenta það í Norðanfara, og er það hér endurprentað.

**Úr bréfi frá Nýja Íslandi.**

Af því bréf það, sem hér fylgir, er skrifað af greindum og áreiðanlegum manni og ber líka með sér, að það er lausara við hlutdrægni og yfirhylming, en sum önnur, sem koma að vestan, þá ætla eg tilhlýðilegt, ef þér, herra ritstjóri, vilduð gjöra svo vel, að lofa lesendum Norðanfara að sjá það, einkum þeim til íhugunar, sem nú kynnu að hugsa til burtflutninga. J. H.

Gimli, 15. september 1876.

Innflytjendur að heiman komu hingað, þeir fyrstu í miðjum ágúst síðastl., og svo dagana þar á eftir; þá var hér gestagangur mikill. Eg á heima sex mílur enskar suður frá Gimli. Fólkið var flest lúrið og lasið af ferðalaginu, og nú eru um eða yfir 60 dánir af hópnum, flest börn á fyrsta og öðru ári. Kristján Sigurðsson frá Litlu Reykjum, sem sagt var að hefði farið veikur af stað, komst til Winnipeg og dó þar; Pálmi nokkur, gamall maður (hómopati), datt út af flatbát um nótt og druknaði. líka druknaði ungur maður af Suðurlandi og báðir þessir í Rauðá. Maður nokkur, sem kominn var til Gimli, fann rót, sem hann hélt að væri hvannarót, át talsvert af henni og dó snögglega á eftir.*)

Nú eru komnir hingað að heiman í sumar um 1200 Íslendingar, og þykir mér það fullmargt í bráð, og margt af þessu fólki er nú fremur óánægt, eins og allir mega búast við, einkum fyrst í stað. — Eg er nú búinn að vita, eftir því sem innflytjendur segja, að sumir hafa skrifað

*) Það var Jón Þorkelsson frá Klúku í Hjaltastaðaþinghá; hann dó í húsi Jakobs Eyfjörðs.

full-glæsilega héðan til Íslands. Veit eg ekki hvað þeir menn hugsa, sem eggja menn til vesturfarar, og verða svo fyrir óbænum þeirra sem þykjast gintir. Eg álít nú bezt, að láta útflutninga hætta um 2—3 ár, og sjá hvernig þessum gengur, sem nú eru komnir. Fjölskyldumenn, sem láta sér ant um líf og heilsu barna sinna (eg meina börn innan 8 ára) og gamalt fólk, einkum það sem lifað hefir við góð kjör, eftir því sem kostur er á heima, ættu að hugsa sig vel um, áður en þeir ráðast í að flytja hingað. Það er hætt við, að sumir af þeim sæi líka eftir hestum sínum og kindum, og að þeir felli sig ekki við lífið hérna, sem ætíð verður að vera mikið frábreytt því, sem heima er. Annað mál er máske um ungt fólk fulltíða, laust og liðugt.

Ef þú hefir heyrt hver hefir ritað greinina í 20. blaði Norðlings, þá segðu honum, að eg biðji hann að skrifa aldrei í blöð annað eins rugl. Það gjörir meira til þess að æsa til útflutnings, en spekja menn, þegar alveg ókunnugir menn heima á Íslandi geta hrakið greinina; hvað munu þeir þá treysta sér til, sem hér eru kunnugir? Skýrsla hr. Jóns Taylors, er að sönnu um of glæsileg, en ekki held eg þar sé neitt sagt, sem ekki getur átt sér stað; t.a.m., það er mikill heyskapur á sumum löndum, en alls enginn á sumum, og sum eru næstum óbyggileg vegna fenja og foræðis. Eg held ekki verði góð jarðyrkja hér, meðan menn hafa ekki tök á að plægja jörðina; en þó hefi eg séð hér fallegt hveiti, sem sáð var í óplægða jörð og einungis rifið ofan af með herfi; jarðepli hafa sprottið sumstaðar vel og alstaðar nokkuð, og aðrar matjurtir eins, en annað mjög misjafnt og sumt hefir næstum orðið ónýtt vegna þess, að svo vott var landið í vor, að ekki gat eldur hlaupið um rótina, og villigrasið kæfði niður það sem sáð var, eður dró vöxt úr því.

Hér eru þrír aðal ókostir, sem eru: langur og kaldur vetur, of blautt land og flugur. Veturinn síðastliðni gekk hér í garð með nóvemberbyrjun, oft voru hríðar en aldrei miklar, varla kom frostlaus stund til þess seinustu dagana í marz; með apríl kom stiltasta og bezta vortíð, og á miðvikudag seinasta í vetri (19. apríl), var hér mesta þrumurigning og hlýindi, og þá orðið næstum snjólaust; mest frost var 4. febrúar 37 gr. Reum. og oft kom 30 gr. frost; með maíbyrjun gjörði norðvestan kuldakast fáa daga, og einu sinni gránaði jörð, svo var góð tíð til mánaðarloka; í

byrjun júnímánaðar kom kulda kraparigning, en hlýindi fljótt aftur; en til þessa tíma hefir sumarið verið úrkomusamt, svo illa hefir gengið að þurka hey eins og í óþurkasumri heima.

Eg er í húsi með systkinum mínum, Skapta og Guðnýju; við höfum 4 kýr og 2 uxa; kýrnar kostuðu 42 dollara hver, og uxarnir eins; við höfum haft þá til að draga heim heyið á sleða; við byrjuðum heyskap 2. ágúst og hættum í fyrradag; ein vika gekk úr fyrir óþurka; við erum búin að heyja nálægt því, sem talið hefði verið á Íslandi 200 hesta. Seinustu dagana áður en ís fór af vatninu í vor, fengum við mikinn fiskafla; eftir að það varð laust, mátti heita uppburður, en við máttum hætta við að afla, vegna þess ómögulegt var að verja fiskinn skemdum; síðan fór aflinn að minka og varð mjög lítill um miðsumarið, þangað til nú fyrir nokkrum dögum fór að verða fiskivart, og eg afla talsvert, en lítið hafa margir aðrir aflað; ekki hefir orðið vart við hvítfisk í haust, en hans er von á hverjum degi.

Þar sem þú skorar á mig að segja þér héðan um gæði landsins, hag Íslendinga, loks vitnisburð Sigtryggs Jónassonar, þá þykir mér vandi að skrifa um það. Um gæði landsins hefir þú bezta lýsingu í ritinu Nýja Ísland, með hliðsjón af því, sem eg hefi drepið á hér að framan. Um Íslendinga hag er nú það að segja, að stjórnin lánaði okkur, sem komum í fyrra, 15,000 dollara ; af því sérðu, að menn eru komnir í skuld, bæði eg og aðrir. Í bréfi, sem komið hefir frá Gimli og prentað er í Norðanfara nr. 23—24 og 25—26 (sjá bls. 52) þ. á., er að lesa góðan og réttan vitnisburð af Sigtr. Jónassyni, svo eg þykist ekki geta bætt þar við eða dregið nokkuð úr. Það sem í hinni áminstu grein í 20. bl. Norðl. er hreytt að honum og þeim öðrum, er fóru til þess að skoða landið fyrir rúmu ári síðan, er alveg ástæðulaust og rangt."

Vorið 1877 nam Benedikt land og nefndi Velli, bjó þar fjögur ár. Vorið 1881 flutti hann frá Völlum að Kjalvík, setti heimilisrétt á landið og bjó þar til dauðadags.

Börn Benedikts og Sigurveigar voru 10; á lífi eru sex, þrír synir og þrjár dætur. Tveir bræðurnir búa í Kjalvík, Vigfús og Skapti, sem er þeirra yngstur, fæddur 1888; kona hans er Guðlaug Guttormsdóttir frá Húsavík; þriðji bróðirinn, Tryggvi, býr skamt frá Kjalvík og nefnir heimili sitt Horn; Tryggvi er tvígiftur, hét fyrri kona hans

Vilfríður Sveinsdóttir frá Völlum; síðari konan heitir Guðlaug Eiríksdóttir Ísfelds og konu Eiríks Ingibjargar Einarsdóttur, sem nú á fyrir síðari mann Þorstein Jónsson Mjófjörð, sem áður er getið.

Systurnar eru: Sigrún, kona Halldórs Kernesteðs á Kjarna; Guðný, gift Guðmundi Jónssyni að Glenboro, Man.; Jóna, gift Guðna Kristjánssyni, búa í Winnipeg.

Benedikt Arason var einn af merkustu frumbyggjum Nýja Íslands. Á síðustu þremur árum hnignaði honum mjög, varð blindur og hans ágætu sálar hæfileikar féllu í dvala. Hann var mjög skýr maður og gefið gott minni, vandaður og áreiðanlegur í viðskiftum.

**Sveinn Sigurðsson**, fæddur á Ási á Þelamörk í Eyjafjarðarsýslu 10. október 1841, dáinn 8. júní 1920. Sigurður faðir hans bjó á Ási, var fæddur í Fornhaga í Hörgár-





*Sveinn Sigurðsson og Signý Vilhjálmsdóttir.*

dal árið 1800, látinn snöggiega 1866. Faðir Sigurðar var Jón bóndi í Fagraskógi í Möðruvallasókn; bjó þar, þegar móðuharðindin gengu. Faðir Jóns var Þorsteinn bóndi á Hálsi yzt á Árskógsströnd. Móðir Sigurðar, kona Jóns í Fagraskógi, var Helga Egilsdóttir bónda á Hjálmsstöðum, fyrir innan Akureyri. Egill var gáfumaður og fróður um margt. Móðir Sveins, kona Sigurðar á Ási, var Guðrún Jónasdóttir bónda á Laugalandi á Þelamörk, Andrés-

sonar bónda á Haukagili í Vatnsdal. Kona Jónasar á Laugalandi, móðir Guðrúnar móður Sveins, var Margrét Árnadóttir bónda á Stóra-Eyrarlandi. Kona Árna, móðir Margrétar, hét Ásgerður. Árni var auðugur maður og hjálpfús, og hjálpaði mörgum fátækum í móðuharðindunum.

Sveinn var hjá foreldrum sínum á Ási til þess hann var 26 ára gamall. Árið 1868 fór hann vestur að Hólum í Hjaltadal með Kristjáni Kernesteð, sem þá fór að búa á Hólum. Var Sveinn hjá honum tvö ár vinnumaður og tvö ár hjá frú Þorbjörgu ekkju séra Benedikts Vigfússonar; hún bjó á parti af staðnum. Árið 1871 giftist hann Hólmfríði Eiríksdóttur frá Djúpadal. Reistu þau bú á Hólum. Konu sína misti hann eftir tveggja ára samveru, var eftir það kaupamaður við sjávar og landvinnu, þar til hann árið 1876 kvæntist Signýju Vilhjálmsdóttur bónda á Dalhúsum á Langanesströnd, Steinmóðssonar, Oddssonar bónda á Bakka á Langanesströnd. Móðir Signýjar, kona Vilhjálms, var Hallfríður Bessadóttir bónda í Fótaskinni í Mývatnssveit.

Eftir að Sveinn giftist í annað sinn, bjó hann á Hólum þrjú ár. En árið 1879 var búnaðarskóli stofnaður á Hólum. Urðu þá búendur á staðnum að víkja burtu. Sveinn fór að Hagakoti, sem er í Hólastaðar landareign, og bjó þar fjögur ár og tvö ár í Bjarnastaðaseli í Kolbeinsdal, svo tvö ár á Brekkukoti í Hjaltadal og flutti þaðan til Ameríku sumarið 1887. Vinnu fékk hann við frystihúsin í Selkirk og vann þar til þess um haustið að hann fór til Nýja Íslands; var eitt ár á Kjarna hjá Kristjáni Kernesteð, er reyndist honum sem sannur velgjörðamaður. Árið 1888 flutti Sveinn að Brautarholti, landi sem lengi hefir ekki verið búið á; þar bjó hann 5 ár, en flutti að Völlum árið 1893, setti heimilisrétt á landið og bjó þar til þess hann lézt.

Börn Sveins og seinni konu hans voru sjö, fjögur dáin: Vilfríður, kona Tryggva Benediktssonar Arasonar í Kjalvík lézt 24 ára gömul; þau sem lifa eru: Jódís Hólmfríður; Sigurjón, býr á Völlum, kvæntur Ingveldi Kristínu Ásmundsdóttur Guðjónssonar bónda í nokkur ár að Sinclair, Man. og konu hans Guðrúnar Jóhannsdóttur; Kristján, Þorsteinn Júlíus, til heimilis á Völlum.

**Sigurður Hannesson,** fæddur á Kjarvalsstöðum í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu 7. ágúst 1861. Faðir hans, Hannes bóndi á Kjarvalsstöðum, dáinn 1863, Þorsteinsson





*Sigurður Hannesson og dóttir hans.*

bónda á Miðhól í Sléttuhlíð. Móðir Sigurðar, kona Hannesar, hét Jóhanna, dáin 1863, Ingimundardóttir bónda á Sviðningi í Kolbeinsdal í Skagafjarðarsýslu.

Bræður Sigurðar voru: Benedikt, dáinn á Mountain í Norður Dakota 1903, söngmaður góður og lærður búfræðingur frá Hólum í Hjaltadal, og Einar, verzlunarþjónn á Mountain í nokkur ár.

Sigurður var ekki fullra tveggja ára, þegar foreldrar hans dóu. Tók þá séra Benedikt Vigfússon á Hólum hann í fóstur um 2 ára skeið. Eftir það ólst hann upp hjá bónda er hélt honum undir skírn, Jóni Árnasyni, og konu hans, Kristrúnu Guðmundsdóttur. Þau bjuggu á Kálfsstöðum í Hólahreppi og líka á Kjarvalsstöðum. Þau reyndust honum sem beztu foreldrar. Hjá þeim var hann til þess hann var 18 ára, er þau hættu búskap; var hann þá eftir það tvö ár í Hjaltadalnum og svo kaupamaður í Viðvíkursveit og Sauðárhreppi í 14 ár.

Þann 26. október 1895 giftist Sigurður Þórdísi Einarsdóttur, fædd á Auðnum í Ólafsfirði 8. apríl 1854. Einar faðir hennar bjó á Bakka í Ólafsfirði, var Einarsson

bónda á Brimnesi í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Einars á Bakka, kona Einars á Brimnesi, hét Anna Helgdóttir. Móðir Þórdísar, kona Einars á Bakka, hét Þórdís Guðmundsdóttir bónda á Auðnum í Ólafsfirði og konu hans Guðrún Magnúsdóttir bónda á Bustarbrekku í Ólafsfirði. Faðir Guðmundar á Auðnum var Jón prestur á Kvíabekk í Ólafsfirði.

Þórdís ólst upp hjá móðurforeldrum sínum á Auðnum til þess hún var 9 ára gömul. Amma hennar dó, þegar hún var 8 ára. Eftir það var hún í sömu sveit, Ólafsfirði, þar til hún var tvítug. Aðal vinna hennar var að annast um börn. Úr Ólafsfirði fór hún að Kýrholti í Viðvíkursveit í Skagafirði og var þar 18 ár og svo á Brúarlandi í Hofshreppi þrjú ár. Að þeim árum liðnum giftist hún Sigurði, sem fyr segir.

Sigurður bjó á Læk í Viðvíkursveit fimm ár, flutti vestur um haf til Nýja Íslands árið 1900, var fyrst tæp tvö ár á Grímsstöðum, nam svo land, nefndi Ás og hefir búið þar síðan haustið 1902.

Börn hjónanna eru tvö: Egill, sonur Þórdísar og Bessa hrepstjóra, er bjó í Kýrholti, og dóttir, er heitir Guðrún Þorbjörg.

**Kristján Jónsson,** fæddur í Fellsseli í Suður Þingeyjarsýslu 29. september 1854, dáinn 30. marz 1919. Foreldrar hans voru Jón Björnsson og kona hans Margrét Bjarnadóttir bónda í Fellsseli og konu hans Kristbjargar Arngrímsdóttur bónda á Sigríðarstöðum í sömu sýslu. Faðir Jóns var Björn bóndi og dannebrogsmaður á Illugastöðum í Fnjóskadal, Kristjánsson bónda og dannebrogsmanns á Illugastöðum. Móðir Jóns, kona Björns á Illugastöðum var Álfheiður Einarsdótir, föðursystir Helga lectors Hálfdánarsonar. Álfheiður var tvígift; fyrri maður hennar var séra Gísli Víum, Evertson Víum bónda í Húsavík í Norðurmúlasýslu, Hanssonar Víum sýslumanns á Skriðuklaustri í Fljótsdal. Sonur séra Gísla og Álfheiðar var Gísli Víum, vel skáldmæltur maður, er bjó á Rangá í Hróarstungu og lengi á Seyðisfirði.

Jón Björnsson bjó á Héðinshöfða á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu; þar ólst Kristján upp, fór þaðan til Ameríku ásamt Arngrími bróður sínum árið 1874; fór til Kinmount í Ontario, vann þar járnbrautarvinnu frá því hann var nýkominn þangað um haustið þar til í marzmánuði; fór þá

í vist til bónda, er bjó fyrir sunnan Kinmount, vann hjá honum einn mánuð, hafði 11 dollara í kaup. Að mánuðinum liðnum, spurði hann bónda hvort hann vildi ekki, ef hann yrði hjá honum lengur, hækka við sig kaupið í 13 dollara um mánuðinn; það var kaupið, sem var borgað þar í grendinni hjá bændum. Bóndi vildi ekki hækka kaupið, en ásakaði sig seinna fyrir að hafa ekki gert það, af því hnum þótti maðurinn, sem hann fékk í stað Kristjáns, ekki jafnast við hann.

Eftir að Kristján fór frá bónda, vann hann við sögunarmylnu þar til í júlímánuði að hann og Skapti Arason



*Kristján Jónsson og Arnbjörg Jónsdóttir.*

lögðu af stað vestur til Manitoba í landkönnunarferð. Hann settist að í Nýja Íslandi þá um haustið 1875, nam land í suðurparti Víðirnesbygðar og nefndi Lund, bjó þar til þess hann vorið 1881, flutti til Winnipeg, var þar þangað til þess sumarið 1883 að hann flutti til Argyle.

Kristján kvæntist 20. júlí 1877 Arnbjörgu Jónsdóttur bónda í Hjarðarhaga á Jökuldal, Eyjólfssonar og konu hans Guðlaugar Sigmundsdóttur. Þau áttu sex börn og

lifa fjögur: Jón Arngrímur, Margrét Guðlaug, Jónína Helga og Tómas Þorvaldur.

Kristján Jónsson var vel gáfaður maður, glaðlyndur og skemtinn í tali, var það á síðustu æfiárum sínum, þótt heilsa hans væri þá mjög farin að bila. Hann tók mikinn og góðan þátt í félagsskapar starfsemi landa sinna, fyrst í Nýja Íslandi, svo í Winnipeg og síðast í Argyle, hvar hann eyddi beztu og síðustu kröftum æfi sinnar.

**Jón Eiríksson**, fæddur á Eyjólfsstöðum á Fossárdal í Berufjarðarhreppi í Suðurmúlasýslu 24. ágúst 1841, dáinn 24. desember 1919. Um ætt Eiríks föður Jóns er þeim,





*Jón Eiríksson og Guðný Magnúsdóttir.*

sem þetta ritar, ekki kunnugt, en móðir hans hét Snjófríður Árnadóttir.

Jón var með foreldrum sínum þar til hann 2. október 1862 kvæntist Guðnýju Magnúsdóttur. Hún var fædd á Birnufelli í Fellum í Norðurmúlasýslu 20. janúar 1841. Magnús faðir hennar bjó á Birnufelli, var Bessason bónda bónda á Ormarstöðum í Fellum, Árnasonar hins ríka a Arnheiðarstöðum, Þórðarsonar, Árnasonar á Móbergi, Þorleifssonar, Jónssonar sýslumanns á Reynistað, Sigurðssonar, Jónssonar á Svalbarði, Magnússonar.

Bróðir Magnúsar á Birnufelli, föður Guðnýjar, var Bessi á Giljum á Jökuldal, faðir Þorkels á Giljum, er nam

landið Reykhóla í Hnausabygð í Nýja Íslandi. Kona Magnúsar, móðir Guðnýjar, hét Hróðný Sigurðardóttir bónda á Krossi á Berufjarðarströnd, Þorvaldssonar bónda á Horni í Hornafirði. Systir Guðnýjar var Kristbjörg kona Bjarna Andréssonar í Meðalnesi í Fellum. Þau voru foreldrar hins alkunna gáfumanns og söguskálds J. Magnúsar Bjarnasonar.

Jón Eiríksson bjó eftir að hann giftist fimm ár á Birnufelli og 12 ár í Víðirnesi á Fossárdal í Berufjarðarsveit. Árið 1879 flutti hann til Ameríku, settist að í Nýja Skotlandi, var þar nærri þrjú ár og vann þar daglaunavinnu fyrir 50 cent á dag; þriðja árið var hann í Lockport, vann þar við fiskiveiðar og við að þurka fisk; kaupið var einn dollar á dag og vinnutími tólf kl.tímar á dag og stundum fjórtán.

Vorið 1882 flutti Jón til Winnipeg og var þar þrjú ár. Árið 1885 flutti hann til Nýja Íslands, setti heimilisrétt á Lund og bjó þar til dauðadags.

Jón og kona hans áttu sex börn, dóu fjögur á barnsaldri, fullorðin urðu: Magnús, bjó mörg ár í Selkirk, dáinn 27. nóvember 1900, var kvæntur Ingibjörgu Jónsdóttur, að ætt úr Húnavatnssýslu; Magnús var í stríðinu við Kynblendinga vorið 1885 og ávann sér þar góðan orðstír; annað barnið, Snjólaug, var gift Hermanni Guðmundssyni Hermannssonar, þau bjuggu á Winnipeg Beach; Hermann dó þar 17. desember 1919.

Börn Jóns, auk þeirra, sem getið hefir verið, eru: Sveinbjörn, og Guðný, gift Pétri Olson, sænskum manni í Selkirk. Kona Sveinbjarnar er látin, hét Sigþrúður Gísladóttir frá Njarðvík í Norðurmúlasýslu. Móðir þeirra systkina var Petrína Jónsdóttir frá Urðarteigi á Berufjarðarströnd.

Jón Eiríksson var vel bygður maður, fjörmaður og framsækinn, að hvaða verki sem hann gekk. Oft reri hann einn á bát frá Lundi upp til Winnipeg og til baka. Hann var vel heppinn veiðimaður á vatni og landi, og af því hann var góðgjarn maður, lét hann ávalt fleiri en sig og fjölskyldu sína njóta góðs af veiðifeng sínum. Hann var einbeittur og einarður við hvern sem var að skifta. Hann vann áfram sem hetja meðan kraftar hans entust.



**Sigmundur Jónsson,** fæddur í Hjarðarhaga á Jökuldal í Norðurmúlasýslu 1. janúar 1845, dáinn 28. apríl 1903. Foreldrar hans voru Jón Eyjólfsson, bóndi í Hjarðarhaga, og kona hans Guðlaug Sigmundsdóttir.

Sigmundur flutti ásamt móður sinni og systkinum vestur um hafa til Nýja Íslands 1876, nam land syðst í Víðirnesbygð og nefndi Hjarðarhaga, bjó þar fjögur ár, en fluttti vorið 1880 til Winnipeg og eftir stutta dvöl þar til Dakota.

Kona Sigmundar var Soffía Björnsdóttir Guðmundssonar frá Áslaugarstöðum í Vopnafirði, fædd 25. september 1850, dáin 1. maí 1903. Börn þeirra hjóna voru sex: Jón, býr í Winnipeg, kvæntur Sigríði Kristjánsdóttur Árnasonar bónda í Argyle; Ragnheiður, gift Halldóri Sigurðarsyni Kristóferssonar, búa í Vancouver; Björn, býr í Argyle, kvæntur Þórhildi Olgeirsdóttur Friðrikssonar; Sigurjón, býr í Argyle, á Sigríði Skúladóttur Árnasonar; Árni, til heimilis í Glenboro; Kári, býr í Argyle, á Önnu Kristjánsdóttur Dalmanns.





*Oddný Kristjánsdóttir og sonur hennar Bjarni.*

**Alexander Árnason,** fæddur á Skarði á Skarðströnd í Dalasýslu 8. ágúst 1865. Faðir hans var Árni Bjarnason, bónda á Kárastöðum í Skagafirði. Kona Árna, móðir Alexanders hét Halldóra Guðrún Jónsdóttir, dáin í Selkirk 1904.

Alexander ólst upp hjá þeim hjónum Ólafi Sigurðssyni og Sigurlaugu Gunnarsdóttur í Ási í Hegranesi. Fór frá þeim 18 ára gamall; var hjá ýmsum vinnumaður í Skagafjarðarsýslu, þar til hann árið 1897 giftist Oddnýju Kristjánsdóttur. Móðir hennar hét Oddný Þorgrímsdóttir, bónda í Syðri-Tungu á Tjörnesi.

Alexander bjó þrjú ár á Borgarlæk í Skagafjarðarsýslu. Árið 1900 flutti hann vestur um haf til Nýja Íslands; setti heimilisrétt á landið Hjarðarhaga og flutti þangað vorið 1901.

Börn þeirra hjóna voru 9; mistu son 17 ára gamlann, þau sem lifa eru: Jóhanna, gift Lárusi Halldórssyni, búa í Winnipeg; Bjarni, Lára Sigurlín, gift Ellett Frímanni Þorlákssyni bónda í Framnes-bygð; Kristín Sigurlaug, gift Jóni Magnússyni, Hjörleifssonar, búa á Winnipeg Beach; Ingibjörg, á svenskann mann, búa á næsta landi við Hjarðarhaga; Sigríður og Helga tvíburar, Sigríður er gift Ólafi Pálssyni Ísfeld; Þorgrímur.

---

**Nokkrir landnámsmenn taldir og getið æfiatriða þeirra, sem námu lönd í Víðirnes-bygð, sem ekki er nú búið á, af Íslendingum.**

**Kristmundur Benjamínsson,** fæddur á Torfalæk í Vatnsdal í Húnavatnssýslu 5. apríl 1841, dáinn 25. ágúst 1914. Kona Benjamíns, móðir Kristmundar, hét Agnes Guðmundsdóttir.

Kristmundur misti móður sína 10 ára gamall. Faðir hans giftist aftur Ingibjörgu Guðmundsdóttur frá Hvammi í Vatnsdal og var Kristmundur hjá þeim til þess hann var 25 ára gamall. Hann kvæntist þá Sigurlaugu Björnsdóttur frá Litluborg í Þverárhreppi í Húnavatnssýslu; þau bjuggu á bæjunum Þóreyjarnúpi og Brekkulæk í sömu sýslu tvö ár, og tvö ár á Litluborg, og fluttu þaðan til Ameríku 1873. Voru tvö ár í bænum Kinmount í Ontario. Flutti til Nýja Íslands haustið 1875. Kristmundur nam land norður af Gimli tvær og hálfa mílu, og nefndi Fenhring. Kona hans var veik af bjúgveiki þegar þau fluttu á landið, og varð að bera hana á ábreiðum frá Gimli norður að Fenhringi. Hún lá í 9 vikur. Veiktist

eftir að hún var búin að hjúkra sjúklingum, börnum sinum og öðrum.

Kristmundur bjó á Fenhringi fyrstu sex árin; flutti að þeim tíma liðnum til Winnipeg og var þar eitt ár, og eitt ár í Pembina, N. Dak. Flutti þaðan aftur til Nýja Íslands og bjó á Fenhring í 10 ár. Flutti þaðan að Gimli og bjó þar 10 ár. Árið 1902 flutti hann til Árdalsbygðarinnar, nam þar annað heimilisréttarland og bjó þar til þess hann lést.



*Kristmundur Benjaminsson og kona hans og dóttir þeirra Helga, Hildur dóttir Helgu og Mildríður dóttir Hildar.*

Börn Kristmundar og Sigurlaugar voru 17, 11 eru dáin; þau sem lifa eru: Björn K. Benson, býr í Selkirk, kvæntur Jóhönnu Jónsdóttur frá Litlu Gilsá í Húnavatnssýslu; Jóhannes K. Benson, býr í Árborg, giftur Jónasínu Guðmundsdóttur; Elizabet, gift enskum manni, T. H. Bell, búa í Los Angeles, Californíu; Ingunn, gift enskum manni, Arthur Smith í sama bæ; Rannveig Sigríður, ekkja, til heimilis í Toronto, Ontario. Hún ólst upp hjá Jóni Taylor umboðsmanni og konu hans; Jónína, gift Gunnari Alex-

anderssyni, þau búa á landi því er Kristmundur nam í Árdalsbygðinni.

**Karvel Halldórsson,** fæddur í Fjarðarkoti í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu 18. janúar 1831. Foreldrar hans voru Halldór Pálsson og Árndís Bjarnadóttir, bónda í Flögu í Skriðdal. Hálfbræður Karvels, samfeðra, voru Hermann á Selsstöðum í Seyðisfirði og Einar í Firði í Mjóafirði.

Karvel ólst upp að mestu leyti hjá móður sinni í Hróarstungu á Kleppjárnsstöðum og Litla-Steinsvaði; var eitt ár í Dölum í Hjaltastaðaþinghá; fór um tvítugs aldur að Mýrum í Skriðdal til Sigurðar bónda Eiríkssonar, var þar 8 ár, svo tvö ár í Firði í Seyðisfirði; fór þaðan að Þorvaldsstöðum í Skriðdal. Hann giftist 1865 Sigrúnu, fædd 17. desember 1843, Runólfsdóttur bónda á Þorvaldsstöðum, Guðmundssonar, bónda á Hallfreðarstöðum í Hróarstungu, Jónssonar. Kona Guðmundar, móðir Runólfs, hét Björg Runólfsdóttir, bónda á Hrafnabjörgum í Jökulsárhlíð. Móðir Sigrúnar, kona Runólfs á Þorvaldsstöðum; hét Guðrún Jónsdóttir, bónda á Þorvaldsstöðum, Runólfssonar á Hrafnabjörgum, sem fyr er nefndur.

Karvel flutti frá Þorvaldsstöðum til Ameríku árið 1893; fór til Nýja Íslands, og var á Gimli tvö ár. Nam land tveim mílum norðar en Gimli-bær er, það land var numið í fyrstu landnámstíð af Guðmundi Ólafssyni frá Ósi á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu og nefnt Víðimýri.

Karvel bjó á Víðimýri 10 ár; flutti að þeim tíma liðnum að Hjarðarhaga til Halldórs sonar síns. Nam svo mörgum árum seinna land í Framnes-bygð fyrir vestan Árborg, bjó þar um tíma, og flutti svo aftur til sonar síns að Hjarðarhaga.

Karvel var fyrir ári síðan furðu ern og hress, þótt 91 ára gamall væri. Börn þeirra hjóna eru: Halldór, bóndi í Hjarðarhaga; Gunnar Runólfur, býr í Blaine, Wash.; Jón, býr í Framnes-bygð, kvæntur Ingibjörgu Sigurðardóttur, ættuð úr Húnavatnssýslu; Svafa, gift enskum manni suður í Bandaríkjum.

**Halldór Jónsson,** fæddur á Litla-Bakka í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu 7. nóvember 1830, dáinn 27. október 1902. Foreldrar hans voru Jón Jónsson, Einarssonar og kona hans Þórunn Rustikusdóttir, bónda á Fossvöllum í Jökulsárhlíð; þau bjuggu allan sinn búskap á Litla-Bakka.

Jón Einarsson, afi Halldórs, var ættaður úr Bárðardal í Þingeyjarsýslu. Bróðir hans var Illugi Einarsson, vel skáldmæltur, og nafnkendur á sinni tíð. Bróðir Halldórs var Rustikus, merkisbóndi, er lengi bjó í Gilsártegi í Eyðaþinghá og á Nesi í Loðmundarfirði.





*Halldór Jónsson og Sigurjörg Jónsdóttir.*

Halldór átti part í jörðinni Litla-Bakka, og bjó þar mest allan sinn búskap á Íslandi. Hann flutti vestur um haf til Nýja Íslands 1876. Vorið 1877, nam hann land í Víðirnesbygð, vestur af Gimli og nefndi Litlumörk, og bjó þar þrjú ár. Flutti vorið 1880 til Dakota, settist að hjá dóttur sinni Þórunni og manni hennar, Óla Lee. Þau bjuggu skamt frá Grafton, var hjá þeim 4 ár. Fór árið 1884 til dóttur sinnar Jóhönnu og manns hennar Stefáns Jónssonar, er þá bjuggu fyrir norðaustan Grafton. Árið 1889, fluttist hann með þeim til Winnipeg, og var hjá þeim ...s hann lést.

Halldór var fjórgiftur, fyrsta kona hans hét Margrét Sigfúsdóttir, ættuð úr Norður-Múlasýslu; þau áttu þrjú börn, tvo syni er dóu á barnsaldri, og Þórunn sem áður er nefnd, gift Óla Lee, norskum manni, þau búa í Alberta; voru fyrrum mörg ár vestur á Kyrrahafsströnd; önnur konan hét Jóhanna Einarsdóttir frá Stóra-Sandfelli í Skriðdal; þau áttu eitt barn ,sem dó ungt; þriðja konan hét Gróa Þorsteinsdóttir, ættuð úr Fáskrúðsfirði. Hún lést eftir

eins árs samveru, eftir nýafstaðinn barnsburð. Fjórða kona Halldórs, sem hann bjó með í farsælu hjónabandi í 37 ár, hét Sigurbjörg Jónsdóttir, Guðmundssonar bónda á Berunesi í Fáskrúðsfirði og konu hans Guðbjargar Þorsteinsdóttur. Sigurbjörg var fædd 27. maí 1840, dáin 13. október 1913. Af sjö börnum þeirra hjóna, lifa þrjár dætur: Margrét Jóhanna, gift Stefáni Jónssyni, ættuðum af Langanesströnd, þau hafa búið í Winnipeg síðan 1889; Helga, gift Laurence Thomphson, dönskum manni í föðurætt, býr í Winnipeg; Halldóra Petrína, gift Guðmundi Matthías Bjarnasyni, búa í Winnipeg.

Halldór var vel kyntur maður. Hann var vel greindur og bókhneigður; var vel að sér í rímfræði. Ritaði Almanök í Nýja Íslandi bólu-veturinn; hafði ekkert sér til hjálpar við verkið, nema sína eigin mentun í rímfræði.



*Rebekka Guðmundsdóttir.*

**Jón Árnason,** fæddur á Sveinsströnd í Skútustaðahreppi við Mývatn. Jón var ættaður úr Þingeyjarsýslu. Árni faðir hans bjó á Sveinsströnd. Kona Jóns hét Rebekka Guðmundsdóttir, ættuð úr Þingeyjarsýslu, fædd 9. febrúar 1830, dáin 31. janúar 1913.

Jón bjó á Meiðavöllum í Kelduhverfi átta ár, og fjögur ár á Máná á Tjörnnesi. Flutti þaðan vestur um haf til Nýja Íslands 1876; nam land og nefndi Meiðavelli. Flutti þaðan árið 1880 til Winnipeg og lést þar fyrir rúmum 40 árum síðan.

Börn Jóns og Rebekku voru 12, fimm dóu á barnsaldri, og þrjú fullorðin: Ari, látinn 1879; Árni, dáinn 22 ára gamall og Björg dáin 22 ára. Á lífi eru: Sigríður, búsett í Winnipeg; Guðmundur, býr í Winnipeg, rak þar verzlun í mörg ár, kona hans heitir Katrín Arngrímsdóttir; Guðrún, ekkja Kristins Stefánssonar skálds, býr á Gimli; Þorlákur, býr í Winnipeg.

Rebekka Guðmundsdóttir var gædd góðum hæfileikum. Hún lærði af Þórði læknir Tómassyni á Akureyri ljósmóðurstörf, og sinti þeim á Íslandi og í Nýja Íslandi, og í Winnipeg og kom það sér vel á frumbyggja árunum, að geta notið hjálpar hennar. Hún var trú kona og sönn kvennhetja.

**Jónas Jóhannesson,** fæddur á Sigríðarstöðum í Holtshreppi í Skagafjarðarsýslu 21. febrúar 1833, dáinn 29. desember 1921. Faðir hans, Jóhannes Jónsson bjó á Höfðaströnd; var lengi formaður við fiskiveiðar, var kominn út af gáfuðu fólki, vel skáldmæltur. Kona Jóhannesar og móðir Jónasar hét Sigríður Jónsdóttir, ættuð úr Fljótum, mjög vel gefin kona.

Jónas misti föður sinn 15 ára gamall; var eftir það í vistum hjá ýmsum, þar til hann árið 1861, giftist Ingibjörgu Jóhannesdóttur, bónda í Fljótum. Reisti hann þá bú á Áshildarholti í Borgarsveit í Skagafirði; bjó þar góðu búi í 22 ár. Bæði voru þau hjón hyggin í búskap; voru gestrisin, og gáfu oft fátækum af efnum sínum.

Árið 1883, flutti Jónas til Ameríku, fór til Nýja Íslands, og var fyrsta veturinn á Gimli. Vorið 1884 setti hann heimilisrétt á land sem numið var í fyrstu landnámstíð af Benedikt Jónssyni Bárdal, frá Mjóadal í Bárðardal í Þingeyjarsýslu, og af honum nefnt Grænmörk. Benedikt flutti til Dakota árið 1878.

Jónas bjó á Grænumörk 21 ár. Hann ruddi mikinn skóg af landinu, ræktaði hey og matjurtir.

Kona Jónasar andaðist 8. október 1904. Þau eignuðust 6 börn, tvö dóu ung, á lífi eru: Ingibjörg, ekkja eftir Guðmund Bjarnason, látinn fyrir mörgum árum. Hann var fóstursonur Stefáns bónda á Heiði í Gönguskörðum





*Jónas Jóhannesson* og *Ingijörg Jóhannesdóttir.*

og konu hans, Guðrúnar Sigurðardóttur skálds, bónda á Heiði; Jóhann, bóndi í Hallson-bygð, N. Dak., kvæntur Ingibjörgu Þorleifsdóttur frá Borgargerði í Borgarsveit; Þorleifur, býr á Smith-eyju, B. C., kvæntur Sigríði Jónsdóttur, Ólafssonar, ættuð úr Húnavatnssýslu; Guðrún, kona séra Jóhanns Sólmundssonar.

Jónas var tvö ár á Grænumörk, eftir að hann hætti að búa. Flutti árið 1907 að Gimli til Ingibjargar dóttur sinnar, var hjá henni til þess hann árið 1916, flutti til gamalmennaheimilisins Betel og andaðist þar.

Jónas var mjög vel kyntur maður; yfirumsjónarkonan á Betel, mintist hans sem besta gamalmennis, sem á heimilinu hefur verið.

Mrs. Ingibjörg Bjarnason, dóttir Jónasar, kveðst líka votta forstöðukonunum á Betel sitt innilegt þakklæti fyrir aðhlynningarnar og alúð á allan hátt, sem þær sýndu föður hennar.

**William Taylor,** fæddur í Bristol á Englandi 9. ágúst 1830, dáinn 2. marz 1903. Foreldrar hans bjuggu lengi í West India-eyjunum, og móðir hans var í kynnisferð á Englandi þegar hann fæddist.

William ólst upp í West-India-eyjunum til þess hann var 18 ára gamall; fór þá til meginlandsins og settist að í Kingston, Ontario. Árið 1867 flutti hann til Michigan í Bandaríkjunum, og var þar til þess hann flutti til Nýja Íslands haustið 1875. Hann nam land sunnan við Kjalvík, en flutti þaðan haustið 1877 á land, sem hann nam norður við Víðirá, sunnan við ána, og bjó þar til þess hann árið 1881, flutti til Argyle.

William var þríkvæntur; fyrsta kona hans var Ísabella Slimmons, ættuð af Englandi, þau giftust 15. ágúst 1851; hún dó 1865, þau áttu 5 dætur; þrjár fluttust til Nýja Íslands: Carolína, fædd 11. maí 1856, kona Sigurðar Kristóferssonar frá Neslöndum við Mývatn; Súsanna, kona Halldórs Briem í Reykjavík; Jane, gift William Hearn í Toronto, Ontario.

Önnur kona Williams hét Eliza J. McNeil. Þau giftust 15. apríl 1867; hún dó í janúar 1884; áttu þau þrjú börn: William Henry Taylor, og Herbert Taylor, báðir í California; og Ísabella, gift Thomasi Badger, búa í Argyle, Man.

Þriðja kona Williams var Sigríður, ekkja eftir Svein amtmannsskrifara Thórarinssen, móðir Friðriks Sveinssonar málara í Winnipeg.

William Taylor, var eins og John Taylor umboðsmaður, bróðir hans, sannur vinur Íslendinga og reyndist þeim vel. Hann var spaugsamur í tali, átti mjög vel við hann að þeir sem hann skifti við væru glaðlyndir.

**Sveinn Kristjánsson,** fæddur 15. september 1836, dáinn 7. apríl 1918. Hann var ættaður úr Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar hans voru Kristján Markússon og Guðný Sveinsdóttir, frá Bjarnarstöðum í Bárðardal.

Sveinn misti móður sína þegar hann var á barnsaldri ólst hann eftir það upp hjá ýmsum, þegar hann var orðinn fullorðinn, fór hann að Bjarnarstöðum, sem ráðsmaður til ekkju, Hólmfríðar Hansdóttur, og giftist henni síðar, og bjuggu þau á Bjarnarstöðum nokkur ár, andaðist þá Hólmfríður, en Sveinn giftist aftur Veroniku Ragnheiði, systur séra Jóhanns Þorkellssonar dómkirkjuprests í

Reykjavík. Þau bjuggu á Bjarnarstöðum þar til þau fluttu vestur um haf til Nýja Íslands 1883. Sveinn nam land það sunnan við Víðirá, sem William Taylor hafði áður numið, og nefndi Sveinn það Framnes; bjó þar yfir 20 ár. Árið 1905 flutti hann til Saskatchewan, og nam þar land skamt fyrir austan þar sem Wynyard-bærinn var síðar bygður. Á síðustu árum sínum dvaldi hann í Wynyard og lézt þar hjá syni sínum Rögnvaldi og konu hans Jóhönnu Björnsdóttur.

Með fyrri konu sinni átti Sveinn tvö börn: Jónína Guðný, dáin, var kona Hjartar Sigvaldasonar, bjuggu í Selkirk; Helgi, býr að Lundar, Man., kvæntur Ljótunni Guðmundsdóttur.

Börn Sveins og síðari konu hans eru: Sólveig, gift Símoni Sveinssyni í Wynyard, Sask.; Rögnvaldur í Wynyard, giftur Jóhönnu Björnsdóttur, Jósepssonar; Óttar, í Wynyard, giftur Magneu Björnsdóttur Jósepssonar; Svanberg, í Dafoe, Sask., giftur Þorbjörgu Sveinsdóttur, systur Símonar tengdabróður Svanbergs; Þorkell, giftur Jóhönnu Eggertsdóttur, Sigurðssonar, búa í Selkirk; Rakel, gift Birni Björnssyni í Kandahar, Sask.; Hólmfríður, gift Guðmundi Björnssyni, Jósepssonar að Elfros, Sask.; Jón Halldór í Wynyard, Sask.; Vernharður, giftur Fríðu Brown. Báðir síðastnefndu bræðurnir voru í herþjónustu í Kanadahernum þrjú ár yfir á Frakklandi. Vernharður var í flugvéladeildinni; Ástríður Björg, gift Schutz lögregluþjóni af enskum ættum í Wynyard, Sask.

Í æfiminning, sem rituð var um Svein og út kom í Lögbergi, er honum lýst þannig, að hann hafi verið frábærum hæfileikum gæddur, andlegum og líkamlegum. Hann var hetja í allri sinni framkomu, glaðlyndur og síungur í anda, mjög góðgjarn maður, ávalt fús og fljótur til að hjálpa þeim bágstöddu.

**Símon Símonarson**, fæddur á Breiðstöðum í Gönguskörðum í Skagafjarðarsýslu 13. desember 1839. Foreldrar hans voru Símon Árnason og kona hans Guðrún Sigmundsdóttir, ættuð úr Grenjaðarstaðarsókn í Eyjafjarðarsýslu. Þau bjuggu á Skarði í Gönguskörðum.

Símon Símonarson kvæntist 11 oktober 1865, Valdísi Guðmundsdóttur, Símonarsonar, bónda á Syðri-Krossum í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu. Móðir Valdísar og kona Guðmundar á Krossum hét Anna Jónsdóttir, ættuð úr

Hnappadalssýslu, Valdís var fædd 3. október 1834.

Símon og Valdís fluttu til Ameríku 1874; voru eitt ár í Ontario og vann Símon þar ýmsa vinnu. Í bænum Lindsey vann hann á sögunarmylnu fyrir einn dollar á dag, en 12 tíma vinna. Hjá bónda vann hann fyrir 50 cents á dag.




*Símon Símonarson og Valdís Guðmundsdóttir.*

Til Nýja Íslands flutti Símon haustið 1875; var á Gimli yfir veturinn, nám land í suðurparti Víðirnesbygðar og nefndi Skóga, var fluttur þangað haustið 1876 og bjó þar hálft fimta ár. Vorið 1881, flutti hann til Winnipeg og var þar eitt ár; bjó í húsi, sem hann leigði á Notre Dame stræti, skamt fyrir austan Aðalstrætið. Í húsinu var margt fólk á meðan Símon leigði það. Hann seldi ýmsum fæði, og hafði kona hans mikil störf á hendi.

Árið 1882, flutti Símon og Valdís til Argyle; bjuggu þar 20 ár. Árið 1902 fluttu þau aftur til Winnipeg og voru þar 19 ár; fluttu til Selkirk vorið 1921 með dóttur þeirra Guðrúnu og manni hennar, Jósep Skaptasyni, sem þau höfðu dvalið hjá síðustu ár sín í Winnipeg. Hjá þeim andaðist Valdís 25. marz síðastliðinn.

Sonur Valdísar er hinn nafnkunni lærdómsmaður Dr. Valtýr Guðmundsson í Kaupmannahöfn, en börn Símonar og hennar voru fimm; eitt dó á Íslandi og eitt í Kinmount, Ontario, og eitt í nýja Íslandi fyrsta veturinn sem þau

voru þar. Á lífi eru Guðmundur ,sem lengi bjó í Argyle, er nú fluttur til Winnipeg, kvæntur Guðrúnu Jónsdóttur, Magnússonar Nordals, og Guðrún kona Jóseps Skaptasonar búa í Selkirk.

Símoni Símonarsyni var fyrir nokkrum árum þannig lýst af séra Friðriki J. Bergmann, að hann sé þrekinn á velli og þrekinn í lund, raungóður og vinafastur. Sú lýsing er rétt. Valdís kona hans var mikil þrekkona, var vel greind og raungóð; gerði sitt ítrasta til að hjálpa þeim sem urðu fyrir þungu mótlæti.

**Eyjólfur Eyjólfsson,** fæddur á Aðalbóli í Hrafnkelsdal í Jökuldalshreppi í Norður-Múlasýslu 1. nóvember 1844. Eyjólfur faðir hans var Jónsson bónda í Kollsstaðagerði á



*Signý Pálsdóttir, Eyjólfur Eyjólfsson, Guðbjörg Pálsdóttir.*

Völlum Oddssonar. Eyjólfur Jónsson sigldi ungur til Kaupmannahafnar og lærði þar trésmíði; var eftir að hann kom frá Höfn alment upp frá því til æfiloka kallaður Eyjólfur timburmaður. Hann var afar harðgjör maður. Bjó um nokkur ár á Eldleysu í Mjóafirði og síðar í Naustahvammi í Norðfirði, og flutti þaðan árið 1883 til Ameríku, fór til Winnipeg til Eyjólfs sonar síns og dvaldi hjá honum til þess hann lézt 1896.

Móðir Eyjólfs Eyjólfssonar var Guðrún Jónsdóttir, Bjarnasonar. Jón bjó á Kleppjárnstöðum í Hróarstungu og síðar í Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð. Sonur hans og bróð-

ir Guðrúnar, var Jón bóndi í Hlíðarhúsum, faðir Jóns alþingismanns frá Sleðbrjót. Kona Jóns Bjarnasonar, móðir Guðrúnar móður Eyjólfs hét Guðrún Björnsdóttir, Vilhjálmssonar.

Eyjólfur fluttist með móður sinni missiris gamall frá Aðalbóli út að Hallfreðarstöðum í Hróarstungu til afabróður síns, Guðmundar bónda Bjarnasonar, og var þar eitt ár. Ólst síðan upp hjá Sigfúsi bónda Einarssyni, fyrst í Skógargerði í Fellum og á Urríðavatni í sama hreppi, og á Stórabakka í Hróarstungu; var þar mörg ár. Sigfús dó þegar hann var 13 ára; Eyjólfur var eftir það hjá ekkju hans Vilborgu Jónsdóttur í 5 ár. Síðan var hann vinnumaður í Hlíðarhúsum hjá Jóni móðurbróður sínum, og á Straumi í Hróarstungu hjá Sigfúsi bónda Þorkelssyni, þar til vorið 1867, að hann fór að Dagverðargerði í Hróarstungu. Bóndinn þar, Páll Ásmundsson hafði andast árið áður; Eyjólfur tók við búsforráðum með ekkju Páls, Þóru Eiríksdóttur, Pálssonar, bónda á Heykollstöðum í Hróarstungu. Eyjólfur kvæntist ári seinna 4. nóvember 1868 dóttur ekkjunnar Signýju Pálsdóttur. Hún var fædd 31. janúar 1848, dáin 21. desember 1913.

Eyjólfur bjó eftir að hann giftist í Dagverðargerði nærri sex ár; flutti vestur um haf til Nýja Íslands 1876, nam land syðst í Víðirnesbygð og nefndi Eyjólfsstaði. Bygði fyrst á landinu lághýsi, sem seinna var notað fyrir fjós. Í því voru, meðan verið var að byggja aðal íveruhúsið, yfir 20 manns.

Eyjólfur bjó á Eyjólfsstöðum hálft fjórða ár. Á meðan hann var í Nýja Íslandi tók hann mikinn þátt í málefnum, sem voru á dagskrá áður en burtfarar hreyfingarnar byrjuðu, og hafði umsjón á að skifta stjórnarláninu í nágrenni sínu, bólu-veturinn.

Vorið 1880, flutti Eyjólfur til Winnipeg og vann þar um sumarið daglaunavinnu. Fór um haustið suður til Dakota og ánafnaði sér land á Pembina-fjöllunum, en af því þá var þar ekki búið að gera neinar landmælingar, gat hann ekki sett heimilisrétt á landið, og misti það svo í hendur annars manns.

Þegar heimilisréttarlögin voru innleidd í Nýja Íslandi, setti Eyjólfur heimilisrétt á landnámsjörð sína Eyjólfsstaði, og átti landið þar til hann seldi það fyrir þremur árum síðan. Hann nam land í Álftavatns-bygðinni með öðr-

um heimilisrétti, en flutti aldrei þangað búferlum; er búinn að vera í Winnipeg 43 ár.

Eyjólfur er tvíkvæntur, síðari kona hans var Guðbjörg Pálsdóttir, systir fyrri konu hans; Guðbjörg var fædd 14. október 1854, dáin 1. apríl 1921.

Með konu sinni Signýju eignaðist Eyjólfur sex börn; fjögur dóu á ómálga aldri. Tveir synir þeirra urðu fullorðnir, Páll, fæddur 14. apríl 1870, dáinn 1905, átti Sólveigu Sigurðardóttur, Bárðarsonar. Páll vann við verzlun um 20 ár, frá því hann var 13 ára gamall. Hinn sonurinn, Ásmundur, fæddur 20. ágúst 1873, býr í Winnipeg, í húsi föður síns, kvæntur Margrétu Þóru Þorgrímsdóttur frá Akri við Íslendingafljót.

Eyjólfur Eyjólfsson var fjörmaður og harðgjör sem faðir hans. Hann og konur hans voru mjög hjálpsöm við bágstatt fólk, og framúrskarandi gestrisin. Í fyrri daga, þegar árlega komu hópar heiman frá Íslandi til Winnipeg, komu margir innflytjendur til Eyjólfs og nutu hjálpar hans og góðsemi; allur greiði þeim í té sem unt var að veita.

Eyjólfur er búinn að vera blindur í nokkur ár, en sálarsjón hans er ekki farin að dofna. Honum er kært að hverfa í samtali við gamla kunningja heim til ættlandsins og tala um Hróarstungu og sveitirnar þar í grend.

Þegar Eyjólfur misti síðari konu sína, flutti Ásmundur sonur hans í hús hans. Hjá syni sínum og tengdadóttur nýtur hann góðrar aðhlynningar.

**Jóhann Baldvin Benediktsson,** fæddur í Hjarðarhaga á Jökuldal 1848, dáinn í Winnipeg 30. nóvember 1919. Foreldrar hans voru Benedikt Guðlaugsson og kona hans Halldóra Jónsdóttir, Bergþórssonar bónda á Öxará í Bárðardal. Guðlaugur, faðir Benedikts bjó á Sörlastöðum í Fnjóskadal, dáinn í Böðvarsnesi í sömu sveit 1856. Kona hans og móðir Benedikts hét Björg, ættuð úr Mývatnssveit.

Foreldrar Baldvins bjuggu á ýmsum bæjum í Múlasýslunum. Benedikt var smiður á tré og járn, og Halldóra kona hans var gáfuð kona; kunni ljósmóðurstörf, var fús og fljót til að hjálpa þeim, sem til hennar leituðu í hættulegum kringumstæðum, hjálp að fá. Hún dó í Nýja Íslandi stuttu eftir að hún var komin þangað, en Benedikt í Argyle hjá Baldvini syni sínum.

Baldvin ólst upp hjá foreldrum sínum. Þegar hann var um tvítugt, vann hann tvö sumur hjá amerískum hvalaveiðamönnum, sem höfðu aðsetur á Seyðisfirði. Þeir sem unnu hjá þeim stórvirku fiskimönnum, þurftu að vera sterkir og laghentir, Baldvin var hvorutveggja.

Baldvin og foreldrar hans fluttu vestur um haf til Nýja Íslands 1876. Baldvin nam land í suðurparti Víðirnes-bygðar og nefndi Baldurshaga, bjó þar hálft fimta ár; flutti til Winnipeg vorið 1881; flutti til Argyle árið 1883.

Árið 1886, 14. janúar, kvæntist Baldvin Guðnýju Antoníusdóttur bónda í Kelduskógum á Berufjarðarströnd, Sigurðssonar og konu hans Sigríðar Jónsdóttur, bónda í Kelduskógum, Guðmundssonar og konu hans Guðrúnar Guðmundsdóttur prests í Berufirði, Skaptasonar.

Antoníus, faðir Guðnýjar, druknaði af hákarlaveiðarskipi árið 1857. Hann var vinsæll maður og varð harmdauði öllum sem þektu hann, og því meira sem fráfall hans skeði með svo hörmulegum hætti. Skáldið Páll Ólafsson orti eftir hann saknaðar minningarljóð, sem prentuð voru í ljóðabók Páls.

Bróðir Guðnýjar, ekkju Baldvins, er Sigurður Antoníusson, aldurhniginn bóndi í Argyle-bygð, Man., mjög vel kyntur maður. Hann kom frá Íslandi til Ameríku 1876. en Guðný systir hans þremur árum seinna, árið 1879.

Baldvin og Guðný áttu 6 syni: Jón, býr í Glenboro, Man., kvæntur Guðnýju Skaptadóttur, Arasonar; Halldór, býr í Winnipeg, stundar úrsmíði, er kvæntur Emilíu, dóttur Jóns Friðfinnssonar tónskálds; Þorvaldur, á Ingibjörgu Gestsdóttur Oddleifssonar; Benedikt, á Sigríði Oddbjörnsdóttur, Magnússonar; Baldvin, á Karólínu Karlsdóttur, Goodmans; Karl, býr í Argyle, á stríðsárunum var hann í herþjónustu yfir á Frakklandi og ávann sér þar góðann orðstýr.

Baldvin var vel gefinn maður, var þjóðhaga smiður á tré og járn. Á æskuárum hans á Íslandi var álitið hann væri í tölu þeirra ungu manna, sem uxu upp honum samtíða, sem bezt voru gefnir að andlegu og líkamlegu atgjörvi.

**Magnús Hjörleifsson,** fæddur á Brekku í Hróarstungu 23. nóvember 1865. Foreldrar hans voru Hjörleifur Jónsson og kona hans Björg Jóhannesdóttir frá Hrollaugs-

stöðum í Hjaltastaðaþinghá. Magnús er bróðir Björns Hjörleifssonar bónda í Fljótsbygð í Nýja Íslandi. Ætt bræðranna er rakin í þætti Björns í landnámssögu Fljótsbygðar. Móðir þeirra andaðist á Rangá í Hróarstungu 1872, en faðir þeirra dó í hárri elli á Litla-Steinsvaði í sömu sveit 1915.

Magnús var missiris gamall tekinn í fóstur á Heykollstöðum í Hróarstungu af Helgu Arngrímsdóttur, ekkju Eiríks Pálssonar bónda á Heykollstöðum. Magnús var hjá henni og Arngrími syni hennar, er stýrði búinu með móður sinni, þar til 1877, að Helga fór til Ameríku. Arngrímur flutti þá að Eyjaseli í Jökulsárhlíð; Magnús fór með honum og var eitt ár í Eyjaseli, svo þrjú ár á Brekku í





*Magnús Hjörleifsson og Guðný Halldórsdóttir.*

Hróarstungu. Árið 1881, fór hann vestur á Jökuldal og var þar vinnumaður í fimm ár. Hann kvæntist 23. október 1886, Guðnýju Halldórsdóttur, bónda, síðast í Mýnesi í Eyðaþinghá, dáinn 1866, Jónssonar bónda á Haukstöðum á Jökuldal, Halldórssonar. Kona Halldórs í Mýnesi og móðir Guðnýjar, var Sigríður Jónsdóttir, bónda í Snjóholti í Eyðaþinghá, Einarssonar, Jónssonar prests Oddssonar á Hjaltastað í Norður-Múlasýslu.

Magnús, eftir að hann giftist, bjó í Mýnesi tvö ár og á Stóra-Steinsvaði í Hjaltastaðaþinghá fjögur ár. Flutti til Ameríku 1983; fór eftir mánaðardvöl í Winnipeg, suð-

ur til Minnesota og var þar nærri tvö ár. Árið 1895, flutti hann norður til Nýja Íslands; setti heimilisrétt á Baldurshaga; flutti þangað í marz mánuði 1896 og bjó þar til þess hann flutti til Vestur-Selkirk 1920.

Börn Magnúsar og Guðnýjar voru níu. Þrjú dóu á barnsaldri, og sonur þeirra sem Arngrímur Jóhann hét, féll á Frakklandi í Bandaríkja-hernum 5. nóvember 1918 sex dögum áður en stríðinu lauk; hann ólst upp í Minnesota hjá ömmusystur sinni, Jóhönnu og manni hennar, Arngrími Jónssyni frá Tókastöðum í Eyðaþinghá, þau tóku hann í fóstur 7 ára gamlann.

Börn hjónanna, sem lifa eru: Anna Sigríður, gift skozkum manni, búsettum í Winnipeg; Halldór Jón, kvæntur Kristínu Sigurlaugu Alexandersdóttur, Árnasonar bónda í Hjarðarhaga; Skúli, verzlunarmaður í Riverton, kvæntur Ósk Pálmadóttur, Lárussonar; Björn.

Magnús, sem fleiri landnámsmenn varð að ganga í gegnum margt erfitt á fyrstu árum sínum hér í landi, til að geta framfært líf sitt og sinna. Hann mintist þess, að Stefán Ó. Eiríksson frændi hans léði honum fyrst húsaskjól þegar hann kom til Nýja Íslands, og var honum ráðhollur þegar hann átti sem bágast.

**Stefán Gunnarsson,** bónda á Bessastöðum í Fljótsdal, Gunnarssonar. Stefán, var bróðursonur Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað; móðir Stefáns hét Sæbjörg Jónsdóttir frá Arnhallsstöðum í Skriðdal.

Stefán ólst upp hjá föðurbróður sínum, Benedikt Gunnarssyni á Arnórsstöðum á Jökuldal. Hann flutti frá Mýrum í Skriðdal til Ameríku 1876; fór til Nýja Íslands og nam land í suðurparti Víðirnesbygðar og nefndi Fensali; bjó þar til vorsins 1881, flutti þá til Winnipeg og dvaldi þar til þess hann lézt fyrir mörgum árum.

Kona Stefáns, var Anna Sigfúsdóttir, Hallssonar frá Sleðbrjót í Jökulsárhlíð. Börn Stefáns og Önnu voru: Sigfús, látinn, og Sigurbjörg, fyrri kona séra Björns B. Jónssonar í Winnipeg, og Margrét, kona Dr. Ó. Stephensen í Winnipeg.

**Sigurður Sigurðsson,** fæddur í Hólshjáleigu í Hjaltastaðaþinghá 1. maí 1859. Faðir hans var Sigurður Jóhannesson skálds Árnasonar Eyjafjarðar-skálds, Jónssonar. Kona Jóhannesar og móðir Sigurðar eldra, var Kristbjörg

Jónsdóttir, Hjörleifssonar bónda á Nefbjarnarstöðum í Hróarstungu. Dóttir Jóhannesar og Kristbjargar og systir Sigurðar, var Ingveldur, kona Antoníusar Eiríkssonar á Steinaborg á Berufjarðarströnd, hefur þeirra áður verið getið í landnámssögu Fljótsbygðar. Móðir Sigurðar Sigurðssonar og kona Sigurðar Jóhannessonar, var Sigríður Jónsdóttir bónda í Gagnstöð í Hjaltastaðaþinghá, Stefánssonar og konu hans Sigríðar Þorkelsdóttur bónda í Gagnstöð, Björnssonar.



*Sigurður Sigurðsson og Járngerður Eiríksdóttir og börn þeirra.*

Foreldrar Sigurðar, bjuggu í Hólshjáleigu. Faðir hans var skáldmæltur og orti stundum gamanvísur eins og Jóhannes faðir hans, einnig var hann vel að sér í skrift, ritaði mjög fagurt snarhandarletur. Þegar hann var um tvítugt misti hann báðar fætur um öklaliði, og hafði það verið afleiðing af illri aðhlynning í taugaveiki, sem hann lá í á-bæ í Hróarstungu. Eftir það, það sem eftir var æfinnar, gekk hann á hnjánum, og furðaði menn á því, hvað mikið hann gat unnið svona hindraður. Í marzmánuði 1859, lét hann líf sitt í óveðri út á gaddi; var á ferð ríðandi, og fanst örendur skamt fyrir austan Lagarfljót á milli bæjanna Hóls og Víðarstaða í Hjaltastaðaþinghá.

Sigurður Sigurðsson. var því ekki fæddur, þegar faðir hans lézt. Hann var tveggja vikna gamall tekinn í fóstur á Nefbjarnarstöðum af ömmusystur hans, Helgu Jónsdóttur, ekkju Halla bónda á Nefbjarnarstöðum, Jónssonar, Björnssonar prests Hallasonar á Kolfreyjustað.

Sigurður var á Nefbjarnarstöðum til þess hann var 10 ára gamall; fluttist þá með Birni Hallasyni og móður hans, fóstru sinni, að Húsey í sömu sveit, og var þar til fullorðinsára; var lausamaður síðustu ár sín á Íslandi; vann hjá ýmsum í Fljótsdalshéraði, mest við smíðar, en hafði heimili sitt í Húsey. Árið 1891 flutti hann vestur um haf. settist að í Nýja Íslandi; vann í nokkur ár á ýmsum stöðum í Winnipeg og suður í Dakota og í grend við heimili sitt. Var til heimilis hjá Stefáni Ó. Eiríkssyni mági sínum. Árið 1899, setti hann heimilisrétt á Fensali og flutti þangað, bjó þar 21 ár; seldi að þeim tíma liðnum landið; keypti land við Poplar Park, Man., og býr þar nú.

Kona Sigurðar er Járngerður Eiríksdóttir, Guttormssonar, systir Stefáns Ó. Eiríkssonar og bræðra hans, er síðar verður getið, þau giftust 9. marz 1892. Járngerður ólst að mestu leyti upp á Hreimstöðum í Hjaltastaðaþinghá, hjá Þorbjörgu ekkju Péturs Gíslasonar, er bjó á Hreimstöðum. Hún reyndist henni góð fóstra, arfleiddi hana að því sem hún átti skuldlaust þegar hún dó, og bað vinkonu sína, Katrínu Einarsdóttur, konu Björns bónda Jónssonar í Sleðbrjótsseli að annast hana þar til hún gæti séð fyrir sér sjálf.

Börn Sigurðar og Járngerðar, voru níu; sex lifa: Helga, Bjarni, Þorbjörg, Þórunn, Kristján, Jón. Stúlkurnar hafa allar verið barnaskólakennarar, með annarar einkunnar kennarapróf.

**Stefán Ólafur Eiríksson,** fæddur á Hrollaugstöðum í Hjaltastaðaþinghá 31. marz 1857. Foreldrar hans voru Eiríkur Guttormsson og kona hans Jóhanna Jóhannesdóttir. Þau bjuggu á ýmsum bæjum í Hjaltastaðaþinghá og í Firði í Seyðisfirði eitt ár, síðast bjuggu þau í Kverkártungu í Skeggjastaðahreppi í Norður-Múlasýslu. Eiríkur dó þar haustið 1872. Hann var gáfumaður og mjög vel að sér til bókarinnar.

Guttormur, faðir Eiríks bjó í Klúku í Fljótsdal, var Guttormsson bónda í Sunnudal í Vopnafirði, Guðmundssonar prests í Hofteigi og konu hans Elísabetar, dóttur

Jens Víums sýslumanns í Múlsýslu. Kona Guttorms í Sunnudag og móðir Guttorms í Klúku, var Guðrún Einarsdóttir, prests á Skinnastað, Jónssonar prests á Skinnastað, er kallaður var "greipaglennir", Einarssonar prests á Skinnastað, er kallaður var "galdrameistari", Nikulássonar.

Móðir Eiríks Guttormssonar og kona Guttorms í Klúku hét Þorbjörg Þorsteinsdóttir, bónda á Melum í Fljótsdal,



*Stefán Ó. Eiríksson.*

Jónssonar og konu Þorsteins, Sólveigar Pálsdóttur bónda á Melum, Jónssonar, Pétursssonar á Surtsstöðum í Jökulsárhlíð, Rustikussonar, Magnússonar á Sleðbrjót. Móðir Jóns, föður Páls á Melum, kona Péturs á Surtsstöðum, hét Broteva, dóttir séra Sigfúsar Tómassonar í Hofteigi.

Bróðir Eiríks Guttormssonar, var Páll bóndi á Árna-



stöðum í Loðmundarfirði, faðir Péturs er nam landið Jaðar í Fljótsbygð, sem áður hefir verið getið.

Jóhanna kona Eiríks Guttormssonar, var dóttir Jóhannesar bónda á Hrollaugstöðum í Hjaltastaðaþinghá, Jónssonar, Ólafssonar lögréttumanns er bjó á Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá og Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð, Péturssonar bónda á Hallgeirsstöðum í sömu sveit, og Torfastöðum í Vopnafirði, Péturssonar eldra á Torfastöðum, Bjarnasonar sýslumanns á Bustarfelli, Oddssonar. Kona Jóns Ólafssonar, móðir Jóhannesar á Hrollaugsstöðum hét Margrét Jakobsdóttir, Sigurðssonar. Jakob bjó á Skálanesi við Vopnafjörð, var ágætur skrifari og ritaði mikið.

Kona Jóhannesar á Hrollaugsstöðum, móðir Jóhönnu móður Stefáns Eiríkssonar, hét Þorbjörg Jónsdóttir bónda á Víðarstöðum í Hjaltastaðaþinghá, Guðmundssonar og konu hans Sesselju Sigurðardóttur.

Bræður Stefáns, voru fimm. Fluttu fjórir af þeim vestur um haf: Ólafur, látinn fyrir mörgum árum, var harðgjör og vel skarpur glímumaður; Sveinn, bóndi í Foam Lake-bygð, Sask.; Jóhannes, skólakennari; Kristján, í Courtenay, B.C., er síðar verður getið, og Pétur, heima á Íslandi; Járngerður heitir systir þeirra, kona Sigurðar Sigurðssonar að Poplar Park, Man., sem getið er um hér á undan.

Stefán var hjá foreldrum sínum til þess hann var 15 ára gamall, að faðir hans dó. Eftir það var hann á Langanesströndinni í 5 ár. Fór vorið 1878, austur í Hróarstungu, og var þar vinnumaður í fjögur ár. Hann kvæntist að þeim tíma liðnum Oddnýju Sigurðardóttur, bónda á Brekku í Hróarstungu, Tunissonar, bónda á Brekku, Guðmundssonar og konu hans Sólveigar Sigurðardóttur bónda Hallssonar á Litla-Steinsvaði í Hróarstungu.

Stefán var á Íslandi síðast á Sleðbrjót í Jökulsárhlíð. Flutti þaðan til Ameríku sumarið 1883; settist að í Winnipeg; hafði heimili sitt þar hjá Eyjólfi Eyjólfssyni frá Dagverðargerði í Hróarstungu. Um jólin 1884, flutti Stefán til Nýja Íslands; nam land næsta vor, 1885 við merkilækinn (Boundary Creek), það land hafði numið í fyrstu landnámstíð John Taylor umboðsmaður; Stefán bjó þar í 16 ár; flutti árið 1901 til Poplar Park, Man., og var þar 6 ár og 12 ár í Oak View bygðinni við Manitoba-vatn. Flutti þaðan vestur til Blaine, Washingtonríki.

Börn Stefáns og Oddnýjar voru níu; fjögur þau fyrstu dóu, á lífi eru fimm synir: Sigurður, bóndi í Oak-Wew; Óli, bóndi þar líka, kona hans heitir Guðrún, ættuð úr Húnavatnssýslu, er stjúpdóttir Sigurðar Sigfússonar bónda á Oak View; Kristján, Helgi og Ármann.

Stefán Eiríksson er vel greindur maður. Hann, sem fleiri, gat ekki sökum fátæktar gengið mentaveginn í æsku en góðrar sjálfsmentunar hefur hann aflað sér. Hann er vel hagorður, sem kunnugt er orðið í seinnitíð.

Stefán hefur vel fylgst með landsmálum. Hann var tvö ár í sveitarstjórn Víðirnesbygðar og í hinum bygðunum sem hann hefur verið í, hefur hann tekið góðann þátt í félagsskap.

**Kristján Eiríksson,** bróðir Stefáns ó. Eiríkssonar, er fæddur á Stóra-Steinsvaði í Hjaltastaðaþinghá 20. október 1866. Hann fluttist barn að aldri með foreldrum sínum norður á Langanesstrandir, og þaðan, eftir lát föður síns, austur í Hjaltastaðaþinghá; var þar og í Hróarstungu og Jökulsárhlíð til fullorðinsára. Bezt kvað Kristján sér hefði liðið í Gagnstöð í Hjaltastaðaþinghá, meðan hann var á Íslandi. Hann var þar þrjú ár hjá Stefáni bónda Árnasyni Scheving og konu hans, Rannveigu Óladóttur, og náði hjá þeim svo miklum þroska, að hann gat farið að vinna fyrir sér, þegar hann fór frá þeim.



*Kristján Eiríksson.*

Sumarið 1887 fór Kristján til Ameríku, var kominn til Winnipeg 31. júlí. Fékk vinnu úti á járnbraut og vann þar til þess í nóvember, að hann fór til Nýja Íslands, settist að á landi Stefáns bróður síns og var þar þrjú og hálft ár; var eftir það í Vestur-Selkirk eitt ár, og eitt og hálft ár í Winnipeg. Árið 1893 flutti hann aftur til Nýa Íslands og nam land við Merkilækinn (Boundary Creek) og nefndi á Gimsum, bjó þar til ársins 1908; flutti þá í marzmánuði norð-

vestur til Dog Lake bygðarinnar í Manitoba, og bjó þar 12 ár; flutti árið 1920 til Vancouver eyjunnar í British Columbia; býr þar austan á eyjunni 140 mílur norður af bænum Victoria.

Kona Kristjáns heitir María Marteinsdóttir, Jónssonar frá Högnastöðum í Reyðarfirði. Þau eiga fjóra syni: Carl Jóhann, Þórarinn, Halldór, Stefán Ólafur. Halldór og Stefán eru giftir, eiga sína systirina hvor; kona Halldórs heitir Margrét, en kona Stefáns Dórbjörg, þær eru dætur Eggerts Stefánssonar og Margrétar Halldórsdóttur, sem lengi bjuggu í Geysirbygð, eru nú við Pebble Beach, Man. Stefán, sonur Kristjáns, býr í Tacoma, Wash., atvinna hans er við að stilla hljóðfæri; hinir bræðurnir fluttu með foreldrum sínum til Vancouver-eyjarinnar.

Kristján Eiríksson er hraustmenni; var góður glímumaður; er bókhneigður sem ættmenni hans hafa verið.

**Bjarni Guðmundsson,** fæddur á Þrastarhóli í Hörgárdal í Eyjafjarðarsýslu 1837, dáinn 1912. Guðmundur faðir hans var Böðvarsson og bjó í Ytrakoti í Hörgárdal. Kona hans og móðir Bjarna, hét María eyfirsk að ætt.

Bjarni flutti frá Ytrakoti til Ameríku 1887, fór til Nýja Íslands og var fyrsta árið þar á Sóleyjallandi. Árið 1888 setti hann heimilisrétt á Bræðraborg, sem Skúli Árnason frá Sigurðarstöðum á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu hafði numið árið 1876, sem áður er getið.

Bjarni bjó 13 ár á Bræðraborg, flutti þaðan 1901 til Poplar Park, og bjó þar til þess hann lézt.

Kona Bjarna hét Ólöf Sigurðardóttir frá Ási á Þelamörk í Hörgárdal, systir Sveins er bjó á Völlum í Víðirnesbygð. Börn þeirra voru fjögur, á lífi eru þrjú: Guðmundur (James Goodmann), býr að Oak Vew, Man, kvæntur Helgu Sigríði Jónasdóttur, ættuð úr Eyjafirði; Sigurður, býr á Poplar Park; Guðrún, gift enskum manni, skamt frá Brokenhead River; Sigurjón Jónasson heitir hálfbróðir þeirra systkina af fyrra hjónabandi móður þeirra; Hann býr fyrir sunnan Lundar í Manitoba. Kona hans heitir Jóhanna Einarsdóttir, Guðmundssonar frá Snotrunesi í Borgarfirði eystra, og konu Einars, Þórstínu Soffíu Þorsteinsdóttur, Vilhjálmssonar frá Hjartarstöðum í Eyðaþinghá.

# Eftirmáli.

## GIMLI.

Í desember 1875, voru fyrstu frumbyggjar Nýja Íslands búnir að byggja nokkur hús í nýmynduðu bæjarþorpi, en voru ekki búnir að ákveða hvað bærinn yrði látinn heita. Jón Taylor umboðsmaður, þurfti þá að skrifa til Ottawa, og sá, að það dugði ekki að skrifa frá nafnlausum stað (No mans land), fór því til Friðjóns Friðrikssonar og Jakobs Jónssonar frá Munka-Þverá, og sagði þeim, að þeir yrðu nú fljótt að afráða, hvað þeir létu bæinn heita. Friðjón og Jakob fóru til Ólafs Ólafssonar frá Espihóli, til að ráðgast við hann um nafnið.

"Kallið þið bæinn Gimli", segir Ólafur, og samþyktu hinir það. Ólafur hafði áður, sem getið er hér að framan stungið upp á Gimlinafninu, en því þá ekki verið slegið föstu.

Árið 1900 var skipalendingarbryggja bygð á Gimli. Árið 1905 var járnbraut komin þangað og var þá byrjað að byggja þar sumarheimili og líka suður í bygðinni, fyrir norðan Merkilæk. Fimm árum áður var byrjað að byggja sumarheimili fyrir sunnan lækinn, sama árið og járnbrautin kom til Winnipeg Beach. Þrjá mánuði dvelur fólk i sumarbústöðum sínum og æfir þá rækilega sundlist í vatninu.

Fjórar hraðlestir renna daglega á sumrin frá Winnipeg til Gimli. Ein þeirra rennur til Riverton og tvær sama dag til baka til Winnipeg.

Síðastliðinn vetur hefur hraðlest gengið daglega frá Winnipeg til Gimli og norður til Riverton, en annanhvern dag vöruflutningslest. Tilhögun á lestagöngunni yfir veturinn var breytt síðastliðið haust. Áður rann hraðlest annanhvern dag í viku, en annanhvern hægfaralest. og þykja farþegjum það góð umskifti sem orðin eru á lestagöngunni.

Árið 1908 var mynduð bæjarstjórn á Gimli. Fyrsti bæjarráðsfundur var haldinn 8. apríl. Kosnir voru í bæjarstjórn, Jóhannes Sigurðsson, bæjarstjóri; Einar S. Jónasson skrifari; meðráðarmenn voru kosnir, Gísli P. Magnússon, Benedikt Frímannsson, Árni Þórðarson, Ketill Valgarðsson.

Árið 1915, var bygt háskólahús á Gimli, og háskólakensla byrjuð þar 1920.

Fólkstala á Gimli er 600.

### Skólahéraðsmyndun í Víðirnesbygð.

Árið 1887, 15. marz, var fyrsti sveitarráðsfundur í Nýja Íslandi undir lögskipaðri sveitarstjórn, haldinn á Laufhóli í Árnesbygð. Þá var byrjað að stofna skóla. Skólahérað fyrir Víðirnesbygð var myndað 1889 og nefnt Gimli-skólahérað. Í Skólanefnd voru kosnir, Gísli Tómasson, Jóhann Árnason á Espihóli, Pétur Pálsson. Skóli var hafður í tveim stöðum. Byrjað var á Gimli og þar kent fyrripart vetrar í húsi norðarlega í bænum; seinnipart vetrar var kent suður í bygðinni. Fyrsti skólakennari var Sigurður Thórarinsen, sonur séra Gísla Thórarinsen prests á Eyrarbakka, Sigurðssonar prests í Hraungerði, Gíslasonar prests í Odda á Rangárvöllum, Þórarinssonar, bróður Stefáns amtmanns Þórarinssonar.

Sigurður Thorarensen er fæddur 31. ágúst 1849. Var fjögur ár á latínuskólanum í Reykjavík. Hann var þrettán ár kennari á Íslandi, á Eyrarbakka og á Skipaskaga í Borgarfjarðarsýslu. Fór til Ameríku 1889. Er nú á Gamalmennaheimilinu Betel.

Árið 1891, 9. nóvember, var haldinn skólafundur. Benedikt Arason í Kjalvík var forseti, Baldvin Jónsson skrifari. Þá var skift um nafn á skólahéraðinu, og það síðan verið nefnt Kjarna skólahérað. Í skólastjórnarnefnd voru kosnir Sveinn Kristjánsson á Framnesi, Valdimar Þorsteinsson í Hvammi og Jósef Sigurðsson á Melstað.

Árið 1900 var skólahéraðinu skift, myndað nýtt í norðurparti bygðarinnar og nefnt Minerva skólahérað.

Fyrstu tíu árin eftir að Kjarna skólahérað var myndað, var kent í bjálkahúsi, sem stóð sunnan við Víðirá, mílu norðar en Steinstaðir eru. Það hús var upphaflega bygt til þess að messa í því, árið 1879, og var messuhús Víði-

nessafnaðar þar til kirkja var bygð á Kjalvíkurlandi árið 1905.

Árið 1901 var skólahús bygt á Húsavíkurlandi, og það hús selt 1918 og bygt á ný skólahús.

**Umbætur á þjóðveginum.**

Þegar þjóðvegur Nýja Íslands var lagður síðla á árinu 1876 og framan af árinu 1877, var hann ekki hafður breiðari en það, að ferðamenn með økuðýr sín gátu liðlega farið hverjir fram hjá öðrum þegar þeir mættust. Árið 1893 var vegurinn breikkaður, gjörður 80 fet, og síðan hefir hann verið höggvinn út, er nú 99 fet á breidd.

Frá Merkilæk og norður að Hólmi var Stefán Ó. Eiríksson verkstjóri við vegagerðina. En frá Gimli og suður að Hólmi var verkstjóri Jónas Stefánsson frá Þverá í Blönduhlíð í Skagafirði; Jónas bjó þá á Gimli.

Það þótti mikill og góður kostur á gamla Íslandi, þegar landnám hófst þar árið 874, að landið var víða skógi vaxið milli fjalls og fjöru. Á Nýja Íslandi var það kostur og ókostur, þegar landnám hófst þar 1875, að landið var alt skógi vaxið. Kostirnir lágu í því, að fátækur landnámsmaður, sem ekki gat keypt sér vinnudýr né efni í hús, gat á stuttum tíma bygt sér notalegt íbúðarhús úr bjálkum, og hafði nógan eldivið í kringum húsið. Ramgjörvar trjágirðingar gat hann líka sett upp á landi sínu.

Ókostirnir lágu í því, hvað seinunnið var að því að yrkja landið vegna skógarins, og þó að rutt væri í burtu viðnum, varð mönnum ekkert úr honum, allan þann langa tíma, sem Nýja Ísland var járnbrautarlaust. En síðan að járnbraut kom, hefir gerzt mikil breyting í bygðunum, komnir víða stórir akrar og engi. Ekki skortir frjómagn í jörðinni. Verst er, ef Íslandingar geta ekki haft not af því í framtíðinni, ef það rætist, sem sumir spá, að Nýja Ísland lendi í höndum Galicíumanna, Íslendingar flytji í burtu þaðan. Sennilegt er, að framtíðin leiði þetta í ljós á næsta fjórðungi þessarar aldar.

---

## Leiðréttingar á villum í öðru hefti á Landnámssögu Nýja Íslands (Frá austri til vesturs):

Á bls. 112, í landnámssögu Mikleyjar, í þætti Eiríks Sigurðssonar, er ekki rétt, að Pétur í Bót í Hróarstungu væri Jónsson bónda á Skjöldólfsstöðum Gunnlaugssonar. Hann var Pétursson, bónda á Skjöldólfsstöðum, Jónssonar, Gunnlaugssonar.

Á bls. 116, stendur Traðarstöðum í Hvítársíðu, en á að vera Fróðastöðum.

Á bls. 128 átti að vera, að Brynjólfur Jónsson frá Þórisdal í Lóni í Skaftafellssýslu hefði farið frá Íslandi til Mikleyjar árið 1889, en ekki árið 1884.

Í landnámssögu Hnausabygðar, efst á bls. 158í fyrstu línu stendur: Þorbjörg Pétursdóttir frá Hákonarstöðum. Það er rangt, átti að vera: frá Bót í Hróarstungu.

Á bls. 195, neðst í annari skilgrein, í þætti Lýðs Jónssonar í Lundi, stendur: kona Jóns á Kletti; á að vera: kona Jóns á Svarfhóli.

Á bls. 162, stendur: Auðnustöðum í Melrakkadal í Húnavatnssýslu; á að vera: Auðunnarstöðum í Víðidal í Húnavatnssýslu.

Neðst á bls. 164 átti að vera:: Sýruparti á Akranesi, ekki Lýruparti.

Á bls. 170 er ekki rétt, að kona Jóns á Breiðumýri heiti Guðný Ólafsdóttir. Hún heitir Sigurrós Markúsdóttir.

Á bls. 175, landnámssögu Árnesbygðar, í þætti Sigfúsar Þórarinssonar, er nam land sem hann nefndi Mörk, hefir prentast, að hann hafi átt hálfbróður, sem Sölvi hét; það er rangt, Sölvi var albróðir Sigfúsar.

Á bls. 184, þar sem getið er um Guðmund Markússon, er nam landið Fagurhól í Árnesbygð, er meinleg prentvilla á dánarári Guðmundar; hefir prentast 1870 í stað 1910.

Á bls. 198, í þætti Sigurðar Sigurbjörnssonar, stendur, að móður-móðir hans, Sesselja, hafi verið Sigurðar-

dóttir bónda á Stafni við Mývatn. Hún var Sigurðardóttir bónda á Grímsstöðum á Hólsfjöllum.

Á bls. 206, í barnatali Bjarna Péturssonar á Grenivöllum er sjötta barn hans talið sonur, nefndur Jóhann; það er rangt; sjötta barnið er dóttir, heitir Jóhanna.

Á bls. 221, í efstu línu, í þætti Egils Jónssonar á Borg í Árnesbygð, hefir prentast, að hann sé fæddur í Vík á Vatnsleysuströnd; á að vera: Flekkuvík.

Á bls. 222, í þætti Hjartar Guðmundssonar, stendur: Gaulhúsum í Gaulverjabæjarhreppi; á að vera: Garðhúsum.

Á bls. 225, í efstu línu, í þætti Sigurjóns í Odda í Árnesbygð, stendur: Laufaseli; á að vera: Laugaseli.

Winnipeg, í júní 1923.

